# GOTTFRIED SCHULTZENS
Ny-Yferskodud
# Heims-Kringla,
Hvar inne
## Oll Keysaradæme, Koongsriike og Stioorn-arvellde, um̄ heila Heimenn, asamt Trw-arbrøgdum, Sidferde og Hattalage;
Eika eirnenn
## Aller Pavar, Keysarar, Kongar og Fürstar,
eirn epter añañ í stuttu mále, uppteiknader finnast.

Ur Þýdsku Mále útløgd á Islendsku,
af
## Sira Gunnlavge Snorrasyne,
Preste ad Hellgafelle.

Hvørre og filger eirn Vidbæter um̄ Bibliuverk og Christnebod i Nordurælfunne, med fleiru.
Ur Donsku útlagdur af þeim sama.

Selz óinnbundenn 84 Skillinga.

Prikt í Hrappsey af Gudmunde Olafssyne 1779.



# Formale Utleggiarans.



Líka so sem eingenn daudlegra Manna hefur alltíd lifad, so hefur eingenn helldur allstadar vered, þó eru marger so lynder, einkum þeir, sem nockra Fræde stunda, og ei vilia siálfheimsker kallast, ad þeir ecke einasta hafa Skemtun, helldur og, þiker sier nytsamlegt vera, í einu og ödru tilite, ad vita hvorier lifad hafe, hvørnig og hvar þeir lifad hafa, í þeim stóra Heime, af hvorium fæster meire Part siá, helldur enn sitt litla Fodurland, og allflester eru þeir, sem eigen Reinsla, Sión,

og Aþreifing Hlutanna, dregur skamt á Gøtu, og valla eirn stuttann Afánga leidár, til velgrundadrar Fræde og Þeckíngar, ef þeir avngvann annann Leidarvíser hefde; Er því ómissande ad fá í før med sier, Fræde-Kvended, sem heiter: Historia, því hvorium hún liæst til Filgdar, fyrer þann sama høggur hún ecke einasta Skard í Vegenn, helldur leidbeiner hønum eina greidfærare Gøtu, so hann ad Kvøllde, náe Gystíngu hiá Egtamanne hennar, Froodleiknum; Hafa og án efa til þessa lited, hiner Gomlu Latínsku, er sogdu: Historiarum ignari semper sunt pueri. Ecke er helldur þetta margfróda Kvende, alltíd í sama Búnade á Veginum, helldur er hún á stundum, klædd, sem ein háølldrud Kona, man hún þá til alls þess, sem sked hefur á hinum fyrsta Heimsalldre, til Guds Stórmerkia, í Skøpuninne, Stiórninne og Vidhalldinu, allra þeirra nýu Hluta, og Brúdarskarts, sem vor allra Adalmóder var med skrýdd; Stundum er hún búenn, sem ein fulltída og giafvaxta Jómfrú, þiiur hún þá í feld, Ætter og Odul, Fremd og Frama Heimsins midalldurs Manna, telur upp lofsverda Hlute, til Efterdæmis og Breitne, enn glæpuga til Varnadar, sínum Skólabørnum; Þess á mille er hún í liettum Búnínge, sem uppvaxande Yngismey, og verdur því liettara um Málfæred, ad fráskynna þeim Hlutum, sem vidbáru í fyrra, og hitt hid fyrra ár, af hvoriu sumu, hún þá ásamt, nockud efterlætur, eigenn

Reinslu, Siön og Apreifing þeirra, sem þad kappkosta vilia, og kunna, segiande: Vade & Vide. Af þessu fær sú Vísinda Kona, Historiann, þad auknafn ad kallast Cronologica, þad er sú sem heimfærer Fráságner sínar, til víßra Tíma, og þeirra Manna, er á þeim lifad hafa.

Umfram̃ þetta kemur hún ogso optlega fram̃ á Mannamótum, í slitnum Reÿsuklædum, sem eirn Vídforull Ferdamadur, er reyst hefur yfer Sió og Lond, og predikar þá sem Klerkur vígdur, um̃ margvíslega Almættis Fiolhæfne hins Alhaga Guds, í Landanna Skopun og Skipun, í Heiminum, samt þeirra Gióda, Giæda og Avaxta, med hvorium Gud hefur, efter Velþocknan sinne, prÿdt og blessad þad eina framar hinu odru, enn vidhelldur þó bádum eins, med sinne nádarríkre Forsion, því eina ad sonnu ríkuglegar, enn hinu sparlegar, efter Manna Alite, þó ollum til þeirra daglegrar Næríngar hiálpsamlega, so á volltum fæte standur, ef til vill, fyrer Cedrustrenu, ad upphroka sier yfer Byrkehrÿsluna, edur Páfuglenn yfer Titlíngenn, því eirn og hinn same er hann, sem skapade hverttveggia, og vidhelldur hvorutveggiu. Af Fram̃sogn þessarra Hluta, fær Fródleiks-Konann Historia, eitt annad vidurnefne, sem er ad kallast Geographica, þad er sú sem frákynner Landa Afstodu, Landslage og Landabiggia hátt-

seme, hvørsu þad eitt Land, edur Þiód, kann mismuna frá hinum odrum Londum og Þiódum, og um þeirra Sidferde fornt og nýtt, því satt er hid fornmælta, non omnis fert omnia tellus, og hinn Islendske Talsháttur, ad Jordu hvørre filge einhvør anmarke, er þo á ollum bæ-ed, so er því og vared í ollum Heime, ad eitt Land er od-ru frióssamara, og eitt Plátz útheimtir meire Erfidismune, enn hitt annad, enn um Fólksins Side í þeim, má þad segia, ad þeir sieu næstum so margháttader, sem Londenn eru morg til sumer líker, sumer aldeilis ólíker hinum odrum, hier edur þar.

Vier hofum í voru Lande og á vora Túngu, margar Sogur og Historiur hinna fyrre Manna, samt yferfliótanlegar Fráſogur, um eitt og annad, sem skied hefur í Heiminum, enn um Landaskip-un í honum, Afstodu og Asigkomulag næstum so líted, sem eckert í voru Módurmále, Nú kemur hier fyrer Sióner Góð-fúse Lesare, eitt Skrif, sem hondlar um Jardarhnotisins Skap-nad, Sundurdeilíngu og Skipte, í ein og onnur Kóngsríke, Lond og Eyar, med sínum Nofnum, Afstodu og Innbyggiend-um, og fleiru þar ad lútande, sem er: Gottfried Schultz-ens Geographia, útgeingenn í Þýsku Anno 1673. Hvorre eg gef þad Nafn: Heims-Kringla. Og þótt

onnur Skrif, nýrre finnest, um sama Efne, er mier fyrer Sióner komed hafa, þá eru þaug ad sönnu miklu fiolordare um sumt, enn í morgu, ecke fródlegre fyrer Almenníng, helldur enn þetta, þó elldra sie.

Eg hafde fyrer fáum árum umbedenn vered, af einum Interessent þess priviligerada Prentverks á Hrappsey, ad færa á Islendskt Mál, þessa SCHULTZENS Þysku GEOGRAPHIAM, og hennar þrickíng var allareidu, med nockrum Örkum byriud, enn med því sá eine Participant, hefur sig frá Verkinu separerad, og med sier burt haft mitt Manuscriptum, og naudsynlegann Archetypum, mátte uppbyriad Verk aldeilis standsa, og ad ónýtu verda, hvar fyrer eg hef orded ad nýu, epter Begieringu enn nú verande Prentverksins Directeurs, í annad sinn taka mier fyrer Hendur, Authorsins Utleggíngu, þar eckert exscript af Versioninne siálfur efter hafde, og hlýt þar á ofann um mitt fyrra ómak ad segia: Oleum & operam perdidi.

Þessu Geographiska Skrife, hefe eg líka láted filgia, til Fródleiks eirn Vidbæter, af mier úr Donsku útlagdann, sem ásamt hinu mætte Prentverkinu til Þienustu verda, enn Lands-

Bræd-

## Formæle Utleggiarans.

Bræðrum mínum, þeim, er nýta villdu, til ſkemtilegs og nytſamlegs Fródleiks, hvad eg bid þá med Velvirdíngu af mier þiggia, ſo ſem í gódre Meiníngu tilláted, og ſiníſt

Helgafelle
d. 28. Aprilis.
Ao. 1779.

Þeirra einlægur
Bróder og Fyrerbid-
iare til alls Góds
GUNNLAVGUR SNORRASON.

Com-




# Compendium Cosmographicum
edur
# Stutt Agrip
um
## Heimsins Skapnad og Landaskipun. I huøriu finna mai øll Keisaradæme, Kongs riike og Liidastiorn, samt Trwarbrøgd, Sidferde og Haattseme um heila Heimen.

Ad Jørden sie vor allra Mooder og almennt Fodurland, vitnar H. Ritning augliöslega, og siálfer Heidingiarner kunna þar ecke móte ad segia; þvi þá Socrates var eitt sinn adspurdur; **huadann hann være?** Sva-

rade hann ecke fávíslega, segiande: **Af verølldinne;** mælte og framar: **huadann erum vier annarsstadar adkomner, enn wr verølldinne og jørdunne?** Hvøria Brutus líka kysste, so sem módur sína; Þar fyrer er þad tilhlídelegt, ad vier skýrum frá ásigkomulage vorrar módur og almenna fødurlandz, og látum koma fyrer dag, vissa underretting þar um, sem øllum þena mege, so oss þurfe ecke ad brízla med þvi, sem Augustinus skrifar de tempore, (**um tíimann**) segiande: **Vier erum i tíimanum og i verølldinne, og vitum ecke huad tíime edur verølld er.**

Jørdenn er óhræranleg og midpunctur heimsins, annarz sæum vier ecke hálft himinhvolfed, og stiornurnar munde stærre sýnast, þar sem þær væru nær.

Heila jardríke ásamt med hafenu, hefur eina rett hnøttótta mind, so sem Ovidius sagde: **Jørden er lík hnette,** hvad Aristoteles, Cicero, Plinius og Strabo eirnenn med óbrigdanlegum røkum stadfesta.

Hier ad auke er þad af náttúrunne kunnugt, ad nær túngsled í fyllíngu er beinlínis gegnt sólunne og jordinn á rettre línu millum beggia þeirra stóru liósa, þá hindrar hún sólargeislana, so túngled kann ecke ad fá sína byrtu af henne, helldur skedur þá túngls formirkvun.

Þegar nú jardarskuggenn gengur fyrer túngled, og formirkvar þad, stundum hálft stundum til fullz, merkia menn, ad skuggenn er alltíd kringlóttur.

So

So er og eirnenn af reinslu siónarinnar kunnugt, og ómótmælanlegt, ad skuggenn sÿner mind og form hvors eins hlutar; þar fyrer, so sem skuggenn er skaptur, so er og hlutureñ sem skuggann af sier gefur.

Nú fyrst jardarinnar skugge er krínglóttur, sem siá má af ádursøgdu, þá hlítur hún siálf án mótmæla ad vera krínglótt, hnøttótt, og aungva adra mind, edur skapnadar form hafa.

Af hvorium óbrigdanlegum roksemdum berlega vitnast, ad jorden med hafenu, er ad øllu leite, allt um kríng, ein afdeild hnattarmind, og kann þetta allra best afmálad verda, med einum, þar til giordum Geographiskum hnette, edur landkorte.

Þesse krínglótte hnøttur verdur i 4. parta deildur, sem eru átternar, telst Nordur ad ofann; Sudur ad nedann; Austur til hægre handar; Enn Vestur til hinnar vinstre efter hvorium hætte landkortenn almennelega nidursett eru.

Annars verdur heila heiminum edur jardríke skipt eirnenn i 4. hlute, edur føst lønd, sem eru: Evropa (Nordurælfa) Africa, (Sudurælfa,) Asia, (Austurælfa,) og America, (Vesturælfa,) hvoriar í vissann máta kallast mega 4. stór eyar, af þvi hallded er, þær sieu med hafe umflotnar og hvor frá annarre adgreindar.

Þesse 4. heimspartar, verda aftur i 2. hlute deilder, sem kallast hin Gamla Verølld, og hin Nya.

Hin **gamla verølld**, verdur þar fyrer so kollud; af þvi hinn fyrste madur var í henne skapadur, og hún þess vegna fyrst biggd og kunnug orden; Annars nær menn álíta heimsinz skopun, er sá eine partur af honum einz gamall sem hinn annar.

Enn í þeirre **gømlu verølld**, eru eigenlegast talder 3. partarner, Evropa, Asia og Africa.

Er þar fyrer hallded ad Evropa, hafe af Japhet; Asia af Sem; og Africa af Cham, þremur Noa sonum, og þeirra afkomendum bigdar vered.

Af Gomer syne Japhets, hallda menn Cimbri, þad er Jutsker og Dansker komner sieu.

Af Magog, Tyrkiar og Tartarar.
Af Madai, hiner Medisku.
Af Javan, Zidonisker og Grísker.
Af Thubal, Spansker.
Af Mesech, Moscovitar og kolldu Sviar.
Af Thras, hiner Traciskn.
Af Ascane Gomers syne, Þísker.
Af Elischa syne Javans, þeir Æoliskn.
Af Tharsisch, Tarsus stadar innbiggendur.
Af Chittim, sierdeilis innbiggiararner i Krit, og á samt þeir í hinum ødrum Grícklandz eyum.
Af Rhodanim, stadarins og eyarinnar Rodus innbiggendur.

Evropa, í hvorre vier Christner hofum vor forgeingeleg hýbíle, tekur sitt nafn af dóttur Agenoris Kóngs hinna Phœniciska, i Tyro, í hinne minne Asia, hvar ed het Evropa; þessvegna uppdraga fortskrifararner hana, í líking eirnrar jómfrúr. So ad Spanien reiknast hofuded; hálsenn Frackland; hægre armurenn Valland; enn sá vinstre Eingland; kvidurenn Þýskaland; Hiner adrer líkamans partar jomfrúarinnar, so sem: lære, kne og fætur, yfer hvoria klædafalldurinn breidest, þar hún situr, eru: Noreg, Danmørk, Svíþiód, Polen, Moscovia, Ungaria, Slavonia, Croatia, Dalmatia, Grichland, Thracia, Servia, Bulgaria, Transilvania, Valachia, Moldavia, Tartaria og Precopensis.

Medal þeirra þriggia parta hinnar fornu veralldar, reiknast Evropa edur **Nordurálfan** hin fyrsta og helldsta, og þad med ollum rette; Ecke af þvi ad hun sie sá stærste hluteñ, (þar hun er sá minste) helldur af þvi, ad hennar innbiggendur taka hinum odrum fram í fríkonstum og blómlegum listum, í digdum, kallmennsku og vaskleika. So og eirnenn hefur hún yferburde yfer flestalla adra stade, í búshättarlage og biggíngum; og ecke sídst þar af, ad hvad í hinum odrum **álfunum** finst sierlegt og hrósſverdt, er snart alltsamann í henne ad finna.

Takmørk þessa parts hinnar **fornu** veralldar, eru: ad nordanverdu, og í sólarinnar undergángs átt, þad opna og kallda nordur haf; Til sudurs midjardar hafed; Ad vestanverdu er vestur siórenn; Til austurs Archipelagus, Hellespontus, þad Evxiniska haf, þad Mæotiska díke, og módann Tanais, edur Don, allt til stadarinz Tuia.

Eyarnar, sem í kríngum Evropam liggia, eru: J Nordurhafenu, hin Nya Zembla, Grænland, Jsland og Friesland.

J Vestur siónum, Bretland og Jrland.

J Midjardar hafenu, Majorca, Minorca, Corsica, Sardinia, Siciley, Maltha, Krit edur Candia.

Sudurálfann þad er hinn annar hlute heimsins, segia menn hafe sitt nafn Africa, af Afro syne Herculis; þesse partur er hart nær allur af vatne umflotenn.

Til nordurs er Midjardar hafed.

Til vesturs þad Atlantiska haf.

Til sudurs hid Blálendska haf.

Til austurs, Austurheims siórenn, og hid Rauda haf, í hverin Pharao druknade med lide sinu, þá hann ellte Jsraels fólk.

Þaug lønd, sem i Africa liggia, eru: Egyptaland, Cyrene, Lybia, Berdoa og Numidia.

Þar tilheyrande eyar eru: S. Laurentius ey, Hesperides, Maritiana, Bláland og Canaria, þesse hin sidasta, hefur marga stora hunda, og tekur þaraf nafned Canaria.

Austurálfan hinn 3ie partur veralldar, hefur sitt nafn Asia, af konu Japhets er het Asia; J þessum heimshluta er miked gull og silfur. Ecka er og eirnenn vor Frelsare JEsus Christus í þessum heimsins parte madur ordenn, hier hefur hañ oss endurleyst, og mørg kraptaverk framed.

Asia hefur til nordurs, þad Scythiska haf. J morgunátt, Austurheims hafed; Til sudurs þad Jndiska, og til vesturs

þad

þad Syrlendska haf, Hellespont og Pontum Evxinum. Hennar lond eru: Phrygia, Mysia, Lydia, Caria, Ionia og Doris, í hinne minne Asia.

Enn í hinne stærre Asia eru: Lycia Pamphilia, Bithynia, Pontus, Galatia, Cappadocia, Cilicia, Phœnice, Palæstina, Syria, Arabia, Babilonia, Assyria, Mesopotamia, Armenia, Colchis, Iberia, Albania, Media, Susiana, Persis, Portia, Marchiana, Hircania, Bactriana, Paropamisis, Sogdiana, Aragosia, Drangiana, Garmania, Gedrosia, India, China, Cataja ríke og Cythia.

Þar tilheyrande eyar eru: Cyprus, Cambaja, Sumatra, Zeula, og adrar fleire.

J hinne minne Asia eru þessar eyar: Rhodus, Lesbos, Chius, Cous, (føđurland þess vídfræga læknis, Hippocratis, og þess kunnáttusama málara, Apellis) og Pathmus, hvar Johannes Gudspiallamadur skrifade sína **Openberingar bok.**

America, edur sá fiórde heims hlute hefur sitt nafn af Americo, sem var stallbróder Christophori Columbi, hver á sínu 41. áre, Anno 1492. fann þennann part veralldar; hver Americus, efter Columbi dauda, kannade landed enn þá framar. Þetta verdur annars kollud hin **nya verølld.** Hennar lond hafa nýtt fólk, ný og oss ókend blómstur, prídelegar jurter og ávaxtarsom tre, líka eirnenn undarleg og fásien dýr.

America er hart nær so stór, sem hiner 3. partarner tilsamans, verdur og so kollud Vestindien, þvi hún er miog lík

Austur

Austur Indium. Hennar lønd eru: Canada, Franciä, Norübega, Virginia, Florida, nýa Spania, nýa Granata, og hin Gullega Castella. Eyar í henne eru: Eylanded Peru, þar er yferfliótanlegt gull og silfur; Chica, hvar ed búa þeir stóru Risar; og Brasilia, í henne fæst mikel nægd sikurs.

Þetta er so sagt um þá fioora parta heimsins, nú vilium vier koma til landanna í þeim, og byria á Room, í Vallande.

ROM, er eirn stor stadur, sem liggur vid Tyber flióted, yfer hvoriu biggdur er eirn kostulegur steinboge edur brú, hefur umhverfis sig múr 16000. skref á leingd, 634. turna, og 18. port, medal hverra hid fornemsta er, þad, sem kallast Porta Populi, (edur foolks ported.)

Sá Pávalege stóll og adsetur er í Róm og heiter Monte Cavallo.

Þad sem Pávenn hefur til yferráda af Vallande, er ad leingd 500 Valskar mílur og 100. á breidd.

Hier innefelst: 1.] Hertugadæmed Ferraria, 2.] Sá Sabiniske landspartur. 3.] Heraded Bononia og Perusa. 4.] Hertugadæmed Spoleto. S. S. Peturs Odal, (edur Erfdahlute.) 6.] Hertugadæmed Urbin. 7.] Hinna Latinsku landeign, og þar í stadurenn Róm. Adrar Pávans innkomster eru mesta part fólgnar í tollum, af víne vidsmiore, miole, sallte, hestum, og odru fleira.

Líka verda af vissum stødum, hvert ár, lágdar til Pávans Gialldhúss 15. tunnur gulls. Sømuleidis nær eirn Cardinalanna deir, falla allar hanns eigner til Pávans Skatt-Cammers.

Jafnvel þótt nú Pávanum, fyrer utann þad, sem á er miñst, tilfalle margar, og nær þvi ótrúanlegar inntekter árlega, þá er þó ad finna margar og stórar útgifter, sem aptur á mót giøra merkelegann afdrátt, so sem kostnadur uppá virduglegar sendefarer; Ad underhallda Sende-Herra, edur Ambassadeurs, er dvelia hier og hvar í stødunum; Uppá eigen lífvakt; Stríds tilfæring af naudsynlegum hlutum, og margt annad.

Nær Supplicatiur koma fyrer Pávann, og hann vill sampickia þad, sem um er beded, þá skrifar hann nedann under þetta ord: Placet, (so þócknast oss) og setur þar hiá fyrsta stafenn af nafne sínu, so sem: P. Paulus, og þetta skedur í verdslegum sokum. Enn þá hann veiter einum nádar áheirslu, skrifar hañ: *Fiat ut petitur*, (Verde so sem beded er,) og setur eirnenn hiá fyrsta stafenn síns nafns.

Þegar eirn af Cardinolunum præsiderar, edur er í Pávanz stad, skrifar hann þannig: *Concessum in præsentia D. N. Papæ* (Þad er tillæted í nærveru vors Herra Pavans) jafnvel þótt Pávenn hafe þar alldrei nálægur vered, og þetta í verdsligum sokum.

Enn i geistligum skrifar hann so: *Placet D. N. Papæ.* (So þocknast vorum Herra Pavanum.)

I þeim Pávalega rette er eirn Cardinalanna Cantzelere edur skrifare, og þesse Cardinal er yfer øllum Cardinølum, og hefur stiórn næst Pávanum, yfer øllum Cantzeliesins vidkomendum.

Eingenn kann ad hrósa sier af þvi, ad hann rett vite ásigkomulag þess Romverska háttalags, hafe hann ecke vered i Róm á þeim tíma, nær þad Pávalega sæte er vacant, edur lidugt, þvi so reglulega, sem þar tilgengur í Róm, medann Pávenn lifer, so mikel óreglulegheit eru þar, nær Pávalaust er, so ad eirn sem þá er í Róm, mætte þeinkia, ad hann være í eirne annarre verølldu.

Viner hins burtdána Páva, sem ádur voru heidrader sem Guder, audmýkia sig þá fyrer hverium manne, og nær þvi knékriúpa, í þaunkum um þad, ad þeirra virdíngu hefur á þeim tíma stórum hnignad, og mega sanna þad og reina, er eirn sagde fordum:

Tolluntur in altum, ut lapsu graviore ruant.
Hafder eru þeir hæder á, So hraped skule þeir þíngra fá.

So fliótt sem Pávans vinir merkia, ad hann mune lykia augun aftur, taka þeir allt í burt, sem greidlega verdur med sier fært, því efter Pávanz afgáng, er allt, sem í herßhøndum á hannz Residentze.

Efter Pávans burtkall gánga Cardinalarner inn i eitt, þar til uppbiggt, sierlegt Conclave, edur herberge, hvorin aftur verdur lokad, epter þeim, edur tilmúrad, so sem Franciscus Albanus skrifar í sinne Anatomia, þángad til annar Páve er úvalenn.

Þeir

Þeir 52 Cardinalar gefa sín Vota, (edur **Urskurde**,) þó aller skriflega, yfer hvern þaú flestu Vota falla, hann verdur útvalenn og til Páva settur.

Kvøllded fyrer Allraheilagra messu, helldur Pávenn aptans tídagiord í Sixtus Capellu, [hún er helgud Sixto 4da þess nafnz, **Pava**,) med efterfilgiande Ceremonium: A alltared verda sett 6. liós, og 13. silfur líkneske, á hægre sídu Pávanum ein þrefolld Corona, enn á þá vinstre eirn gullbúenn Biskups Hattur (edur **Mytur**.)

Þegar nú Pávenn med Cardinolunum, er komenn inn í Capelluna, setur hann sig á eirn stól under einum hvítum silkehimne, og lætur á sig setia Biskups Gullhattenn.

Næst honum, þó utann vid þennann himen og nockud nedar, setiast tveir Cardinalar, eirn til hægre, annar til vinstre handar, og þesser þióna honum.

Cardinalenn til vinstre handar tekur alltíd af honum Biskupz-Hattenn, þegar hann vill giora sína bæn, so hann hefur ei efter á høfdinu nema eina hvíta húfu, hvoria Cardinalenn eirnenn plagar alltíd af ad taka, enn setur hana á hann aftur, þegar hann hefur afloked bænenne.

Medann hann er ad bidiast fyrer, tekur hinn annar Cardinal, Coronuna, helldur á henne, so leinge sem Pávenn er á bæn, ad hvorre aflokenne, hann setur þá somu, vid hægre hlidena standande, uppá hanz hofud.

 Framme

Framme fyrer Pávanum, til vinstre handar situr sá Cardinal, sem er hánnz Vicárius, (fullmegtugur.) So frammflytur Pávenn siálfur kvølldlestrenn, sá eine helldur á bókenne fyrer honum, enn annar á liósenu.

Dagenn efter, sem er **Allraheilagra messa**, lætur Pávenn vel snemma bera sig frá sínu slote til Peturs kyrkiu med stærstu hátída vidhøfn.

Fyrst gánga nockrer lúdur þeitarar undann og blása, þar til i kyrkiuna er komed: þarefter filger Kennevallded, næst efter þvi Cammerþenararner med silfur sprota i høndum; sidann þar á efter eirn í raudum kyrtle, med lángann silfur kross í hendinne, þar efter er Pávenn borenn, af 8. hirdsveinum sínum, á einum setstól med tveimur staungum, þeir eru aller i sídum kirtlum raudum: Næst efter þeim til beggia hlida gánga 2. persónur, líka í raudum sídkyrtlum, þesser bera á háum staungum eitt vel tilbúed hvitt páfugls viel, þeim filgia og líka hiner Schweitzerisku, med sín spiót og arngeira; enn Pávenn er án aflåts ad giora krossa med hægre hendenne, og blessa yfer fólked, sem allt fellur á kne.

**Pavenn** er klæddur einum hvítum messu-slopp, og þar utann yfer í eirne gullbúinne córkápu med sína þrefølldu coronu á høfdinu. Næst á bak vid hann gánga nockrer Cardinalar.

Þá þeir koma nú í þá gømlu kyrkiu, láta þeir Pávann nidur, hann geingur fyrer alltarid, á hvoriu geimdur er Christi

ſki Sveitadwkur, þar krípur hann nidur á kne vid eirn bænaſtól yferklæddann med raudu ſilke, og bidſt þar fyrer.

Þá bæninne er loked, taka þeir hann aftur uppá axlernar, og bera hann gegnum þeſſa kyrkiu, leingra áfram nockrar tropp- ur uppefter í hina nýu Peturs kyrkiu inní Páva Gregorii Ca- pellu, þar láta þeir hann nidur aftur. Hier bidſt hann enn nú fyrer vid eirn bænaſtól med raudu ſilke yferklæddann: Þvi næſt geingur hann frá, og ſetur ſig á eirn ſilkebúenn ſtól ſem ſtendur vid hlidveggenn til hægre handar, þetta ſæte er bigt med nock- rum troppum uppad, enn gólfed allt í kríngum háſtólenn er klædt med raudu ſilketoje.

Strax ſem hann er þar ſetſtur, koma Legatar, edur Sen- des-Herrar, Keyſaranz, Kóngſenz af Spanien, og Kóngſins í Frankaríke, og kyſſa á hannz hægra fót, rada ſig ſídann á bád- ar hlidar næſt honum, þó utann vid Thronenn, og nockud lægra.

Kríngum þann Pávalega háſtol er biggt eitt tredirke med bekkium, þar ſetiaſt Cardinalarner, ſem almennáſt plaga ad vera 50 ad tølu ſamankomner, í ſínum Biſkupzlega búning og gull- búnum meſſuklædum.

Sídann geingur eirn efter annann fram og kyſſer á Pá- vans hønd, ſem hann retter fram, undann meſſu ſkrúdanum, ſetiaſt ſo aftur hvør í ſitt ſæte.

Þar næſt er meſſann byriud og framflutt med koſtulegre ſaunglist.

Pávann færa optast nær 2. Cardinalar fyrer alltared, þar flytur hann lesturenn: þeir skipta og um skrúdann á honum: ad sidustu færa þeir honum kaleikenn, á hvorium þeir hallda nidre fyrer Trónenum, enn hann dreckur til botnz úr honum med eirne silfurpípu.

A adfánga dags kvolld Jóla, þá hátidenn byriast er hleipt af stórum fallstickium i Eingelsborg, (Castello di S. Angelo.)

Um nóttena einum kluckutíma fyrer midnætte, helldur Pávenn á sinu slote med Cardinolunum næturmessuna, i Sixti Páfa Capellu.

Hann kemur í eintómis hvítum búning, krípur nidur fyrer alltarinu og bidst fyrer.

Þar efter setur hann sig nedann verdt vid sinn hástol, enn á medann byria saungmeystararner ad spila og singia.

So geingur Pávenn nockrum sinnum fyrer alltared, á hvorju ad stendur eitt gullbúed sverd, eirn hattur, og ein gull-rós, þar yfer les hann Blessunina á bók, sidann geingur hann aftur ad sinum Thrón: Þessar Ceremoniur vara hier um hálfa adra kluckustund, og plaga þá Sende-Herrar hinna framande Potentata ad vera þar líka vid, og standa á bádar sidur Páfanum.

Efterfilgiande Jóladags morgun verdur aftur fallstickium afhleipt i Eingelsborg vel snemma.

Hier efter lætur Páfenn sig med stærstu vidhofn í sinum Páfa skrúda, og med þá þrefolldu Coronu á hofdinu bera á

sama

sama hátt og sagt hefur vered, í Peturs kyrkiu, innt Gregorii Páva Capellu, hvar oll ad er prídelega skridd og tioldum búenn.

Páfenn setur sig under eirn himin, og hefur sier nálæga ad bádum sídum, Legata hinna framande Potentata, enn Cardinalarner sitia í sínum gullbúnu kórkápum, med silfurlagda Biskupzhátta, á einum háum beck allt í kringum hañ. Hier efter flytur Páfenn embættisgiørdina, og Saungmeistararner byria saungenn, so lætur hann færa sier kaleikenn inn under lopt himininn, hvorn hann dreckur í botn med silfur pípunne.

Nær messann er úte, bera þeir hann burt aftur, enn gullrósen, sverded og hatturenn er bored undann honum.

**Hatturenn** er af svortu sammet edur silketøje, med einum hvítum tveggia þverhanda breidum dregle allt utann umhverfis lagdur, og í stadenn fyrer snúru, þverhandar breidd i kríng settur med stórum perlum.

Sú þrefallda Crona er í mind sem uppmiór hottur edur húa af silfre, þar under í kríng ein Gullcrona edur krans, nær þverhandar breid, sett med stórum prídelegum Diamanter, Perlum, Rubiner, Smaragder, og þess slags dýrmætum edalsteinum, þar efter onnur þverhandar breidd af silfre um kríng, sídann aftur ein Gullcrona, med Gimsteinum allt um kríng, sídann aftur eins miked silfur, og sídast hin þridia Kranscorona, sem hinar fyrre, hid prídelegasta tilbúenn og kostulegum Gimsteinum sett; J kollenum edur toppnum stendur eirn Gullkross.

Þesse Corona skal vegna þeirra morgu og stóru edalsteina kosta meir enn 100000. cronur.

J sömu vidhofn og processiu, sem sagt er, verdur Páfenn aftur burtborenn.

A Nýársdag snemma morguns er aftur á ný hier um 1200, elldvirkium og stórum stickium afhleipt í Kastalanum, þá er þar og eirnenn upphafed þad stóra flagg edur fána, hvar á stendur Páfans vopen og lyklarner, á einu háu tre.

Þar efter ferdast Cardinalarner til Peturs kyrkiu og Páfans ad heira messuna. Af þvi þeir aller reisa fram hiá Castalanum (Engelsborg) þá verdur í hliódfære blásed fyrer þeim fornemstu, og þeim til virdíngar nockrum stórum fallstickium afhleipt; Cardinalarner sem plaga ad rída til kyrkiunnar, hafa sier til filgdar 100 Romverska Edalmenn, eñ hinir adrer, sem ecke eru í so miklu Respecte, edur so hárra ætta, hafa hier um tvo edá þriá filge-sveina.

A Föstunne hallda þeir uppá **Oskudagenn**, á hvorium Páfenn gefur Cardinolunum oskuna.

Þennann dag rídur Páfenn til kyrkiu í S. Sabina, sem bigd er á fiallenu Aventino, og þar útdeiler hann oskunne medal Cardinalanna.

Undann Páfanum rída 80 vopnader stridsmenn, þar efter filger eirn í sídum kyrtle med þann veniulega lánga silfurkross,

kross, hvörn Páfenn lætur alltíd bera undann sier, hvert helldur hann rídur, gengur, eda er borenn, þángad sem hann vill, þessum filgia á efter, nockrer Hofþienarar og Edalmenn, sídann Páfenn med nockrum Cardinalum og Biskupum, hefur eirn raudann, breidann hatt á sínu hofde, á bádar hlidar vid hann gánga hier um hundrad Schweitzerisker menn, med sína arngeira, so lætur hann líka med tveimur hvítum hestum, flytia efter sier einar mannborur, med raudu silke búnar, þeir Cardinalar, sem ecke vilia ríða, keira þángad í sínum Karretum.

Þegar Páfenn er nú í kyrkiuna komenn, og hefur giört bæn sína fyrer alltarinu, þá gánga Cardinalarner eirn efter annann til hanz, og afleggia sína veniulega Reverentiu á kniám fyrer honum; sídann klædest hvor eirn Cardinalanna í sinn Biskupsbúning, og setia sig reglulega nidur í kríngum Páfann, og Musicantarner byria saunginn. A medann tekur eirn Cardinal oskubaukenn af alltarinu, fer med hann ad hægre hlid Páfanns þá koma og tveir adrer med stórt vaxliós og bók til hanz enn hann les blessunina á greinda bók yfer oskunne, og dreifer henne fyrst yfer hofud þess Cardinals, sem messuna skal flytia: Efter þetta er sett ein fótskor fyrer framann Páfann, á hana krípur nidur sá same Cardinal og giörer sín Complement, fyrer honum þá þeim er loked, dreifer Páfenn lítille osku í kross yfer hanz hofud: Sídann er skören burt aftur tekenn, enn sett mytred á Páfann, og hann klæddur á sína gullbúnu córkápu: Þá kemur eirn Cardinal efter annann, og falla á kne fyrer honum, enn hann dreifer oskunne yfer sierhvorz hofud, og hvor eirn þeirra kysser á hanz kne, gánga so hvor til síns stadar, og setia sig nidur.

Her epter hvør Páfenn sier um hendurnar, gengur fyrer alltarid og bidst fyrer, setur sig sídann under sinn himin, tónar messu upphafed, enn Cardinalenn tekur sídann vid, og framflytur messuna til enda.

Þegar eirn framande Cardinal kemur, sem ecke hefur ádur vered í Róm, þá skedur hans vidtaka med efterfilgiande Ceremonium:

Strax þá hann fyrst kemur til stadarinz, er honum herberge veitt i clostrenu, di S. Maria di populo, sem liggur næst almenníngs portinu, (Porta di Populo.) Leingra þorer hann ecke inní stadenn, fyrst um sinn: Epterkomande morgun ferdast til hanns hier um 20. Cardinalar, og láta reima sína ásna efter Vognunum, yfer sodlunum eru raud yferklæde af dúk, og allur reidtýa búnadur er af raudum dúk, med stórum messings rósum og odru þess slagz skarte búenn. Framann í ennenu á ösnunum hánga síder skúfar af raudu silke og gulle. Þegar nú Cardinalarner eru samannkomner i einn clostursins herberge, gánga þeir þadann til hinz framanda Cardinals, til ad taka á móte honum, ferdast so af stad aftur, og setia sig á ásnana: þá er blásed í lúdra og hiner Schweizerisku spila á sínar trumbúr: þar efter rída þeir, hvor med odrum, gegnum stadenn á leid til Páfans, í rod og reglu, sem efterfilger.

Fyrst er ad segia, ad so marger sem Cardinalarner eru, so margar persónur rída á undann þeim, gódum hestum, þesser reida fyrer framann sig í sodlunum Cardinalanna sessur, giordar af raudu toje, med þeirra vopene edur trecke prídelega ísaumudu: þeim filger á efter hinn Rómverske Adall og Páfanns Officerar

rída=

rídande, uppáklædder hid prídelegasta. Sídann koma á efter 9. trumbuslagarar gángande, og spila á sínar trumbur, þar á efter eins marger menn aftur, og Cardinalarner eru, aller á hestum, hverier ad bera í sinne hægre hende, lánga forgyllta silfur krossa, þá koma Cardinalarner, rídande hverier efter ødrum 2. og 2. samsída, í raudum eda purpura litum kiólum, ofann til løgdum med hvítu tøje, hveria þeir eirnenn brúka þegar þeir reysa til hoffsins, og í Consistorium, líka þá þeir sækia messu; á høfdenu hafa þeir rauda barda breida hatta. Þeir elldstu rída á undann. Eiru madur ber undann hverium Cardinal lángann staf í hende, á hvørn Cardinals vopened teiknad er, honum filgia líka þeirra Stássþienarar, í prídelegasta búnínge, og á bádar sídur, hiner Schweitzeriskn, med sína arngeira.

Næst efter Cardinalunum rídur sá framande Cardinall í sínum búninge, honum filger mikill fiølde Biskupa, med breida svarta hatta lagda med grænu, í dockleitum kiólum, sem þeir um handleggina klæda med hvítum ermum.

Á gøtunum þar þeir um ferdast, eru ur øllum gluggum utheingd prídeleg sparlok, fram á hvør kvennfólk leggst og fornemme Herrar: Þá þeir rida fram hiá castalanum Engelsborg, er á allar sídar hleipt af bissum og fallstickium.

Þá þeir nú koma leingra áfram uppá Peturs pláss, fram undann Páfa slotinu, þá hleipa hiner Schweiteriskn af 4. storum stickium.

Yfer því fyrsta slotz porte standa 6. trompetarar og blása: Þar stíga þeir af hestunum og leida þann nýkomna Cardinal inni

capelluna, til ad bidiast fyrer, enn hiner adrer Cardinalar, gánga inni eitt sierlegt kamers, þángad kemur Páfenn strax á fæte, og ber eirn Bisſkups gullhatt á síńu hofde, í eirne gullbúinne corkápu, og lætur undann sier bera þann lánga silfur kross, setur sig á eirn stól sem med raudblómudu damaske er yferklæddur, under einum raudum himné, enn þeir tveir, sem hvíta páfugls vieled bera, stidia sig vid stólenn á bádar hlidar; Sídann kyssa Cardinalarner, eirn efter annann á hanz hond, sem hann retter framm undann kápunne, setia sig so nidur, á medann hellדur eirn, sem kallast Advocatus Cameræ, stutta rædu, enn tveir Cardinalar, gánga i capelluna til hinz nykomna Cardinals, og leida hann framm fyrer Páfann, þá kysser hann á hans fætur, enn Páfenn tekur hann i fadm med bádum hondum; efter þad geingur hann til allra Cardinalanna, og fadmar þá alla, eirn efter annann, medann þetta framfer, falla marger Geistliger og fleire framm fyrer Páfanum, og kyssa hanns fætur, yfer þessa blessar hann. Ad sídustu stendur Páfenn upp, og utdeiler nockrum blessunum, geingur sídann aftur i sitt herberge, og er þetta so úttalad um Páfann.

Kríngum Rómaborg og næstum flesta stade í Vallande, sierdeilis Narni, er landed miog ávaxtarsamt.

Þetta landzlag er sem eirn ævarande lystegardur, og snart ad sega ein jardnesk Paradis.

Enn af þvi eingenn hlutur er so fullkomenn, ad hann hafe ecke einhvorn brest, þá er þess ad giæta ad eins landsgiæde eru innefalenn i 6. hlutum, nefnelega: „ 1. Ad **Lopted** sie
„ hreint

„ hreint og heilnæmt. 2. Ad þad hafe **Ferskt Vatn.** 3.
„ **Riikuglega Akuryrkiu.** 4. **Hentugleika til Kaup-**
„ **höndlunar.** 5. **Ohulltann Bwstad.** Og 6. **Mar-**
„ **ga Innbiggendur.**

Jafnvel þótt nú ádurgreint pláss og landslag í Vallande, sie likt kallad einum lystegarde og nær því jardneskre Paradís, þá er þar þó ecke hreint **Lopt**, og þar eru fáer **Innbiggia-rar** í landinu.

J S. Mariu kyrkiu, sem bigd er yfer Tiberfliótenu í Róm, verdur á því háa alltare, sínt eitt pláss, hvar á þeirre somu nott, sem **Drottenn vor Jesús Christus var fæddur,** skal uppsprotted hafa eirn vidsmiörs brúnnur, ur hverium runned hafe allann dageun.

Þeir gomlu Róveriar voru stríðshetiur og skarpvituger, mieg sparneituer og hóffamer, þeirra kvinnur og dætur máttu ad ollu leite hallda sier frá víndryckiu.

Þegar mennerner ferduduss eitthvad, edur ad eins geingu eitthvad út, og komu heim aftur, kysstu þeir alltíd kónur sínar og dætur, einasta til ad vita, hvert þær hefde vín drukked.

Þeirra úngu syner máttu til sínz 10. árs hallda kyrru fyrer í heima húsum, sídann gengu þeir út med sínum skólameisturum.

Þá þeir hofdu nád sínu 17. alldurs áre, logdu þeir af sinn barna búníng, og tóku kápur uppá sig, og hvor fyrer sig,

 volldu

vølldu sier eirn af þeim gømlu Rádherrum, hvørium þeir virdíng veittu framar ødrum, og filgdu hønum út og inn.

Vid sínar giftíngar brúkudu þeir þessar Ceremoniur: Meñ gáfu brúdinne eirn lykil i høndina, og løgdu eitt sverd á hennar høfud, med hvørin eirn Strídzkappe hafde drepenn vered, sídañ var spennt um hana einn bellte af ullartoje, hvørt brúdgumeñ átte um kvøllded, af henne ad losa í brúdar sænginne. Undann henne var líka borenn eirn rockur med líne, og þriú blis.

Þegar ein kona med óskíldu andlite og án síns manns vitundar, geck út úr húsinu, var hún skilenn vid manneñ.

Þeir hielldu adskilianlegar hátíder, menn høfdu líka nær því um hvørs eins stadar innbiggiara eitthvørt ordsprok edur máltæke, so sem til dæmis: ad þeir í Ferrara være **Slæger**, hiner Perusisku **Diarfer**, Spoletanar **Svikuler**, þeir Rómversku, **Omiskunsamer**, og þesslags fleira. So søgdu menn líka um konurnar, þær í Perusa være **Víngiarnlegar**, í ødrum stad **Bwralegar**, sumstadar **Kaupsamar**, í hinum stødnum **Spottlegar**, hinar Rómversku **Høfdínglegar**, &c.

Kvinnur og jómfrúr máttu til einkis manns gánga nema til sinna nánnstu náúnga, annars urdu þær strax fyrerlitnar.

Þegar einhvør hafde sigre ad hrósa, sat hann i eirne kierre med 2. hiólum, og 4. hvítum hestum fyrer; hønum filgdu Strídzmennerner á efter med kransa á høfdum; þegar hann kom á þad Capitolinska fiall, steig hann úr kierrunne, og geck í mustere

mustere Jovis Capitolini, offrade þar fórn sinne, sem veniu-
legast var eirn hvítur uxe, fór sídann heim aftur til sín.

Lampridius skrifar ad Heliogabalus, hafe skipad þrælu-
num í Róm, ad safna samann öllum gaungulóar vesium í stad-
num, og hafe þeir fenged 100 pund af þeim, hvar af ráda
má, hvörsu stór Rómaborg vered hafe á fyrreölldum; bigging-
arnar í Róm voru fyrrum ad hæd og pride, nær óntmálande;
hvörier, sem kunnáttusamer fundust, í Griecklande og Asia, máttu
koma til Róm, og sína þar sitt meistara sticke.

Þeir gömlu Skrifarar tala um 7. heimsins furduverk: 1,
„ mustere Dianu í Epheso. 2. Gröf Mausoli Kóngs. 3.
„ Sólarbilæted í Rhodo, sem nefndest Colossus. 4. Mustere
„ Jovis Olympii, sem Phidias let biggia. 5. Höll Cyri
„ Persa Konúngs. 6. Múrarner í Babilon, hvöria Semira-
„ mis Drottning uppbiggde. Og 7. Pyramides í Egiptalan-
„ de.

Enn hvör villde kalla þesse 7. einasta hin herligustu, sem
sied hefde lika furduverken í þeim eina stad, sem er Rómaborg?

Því í Róm var eitt Capitolium, hardt nær yfer allann
mannlegann skilning uppbiggt, hvar tiglsteinarner jafnvel á
húsþekiunne, voru ofann til forgyllter, og sionar plássed af hei-
lum marmara; so voru þar eirnenn í fyrndinne, 424. mustere,
hvört ödru kostulegra.

Þad herlegasta meistaraverk, sem menn siá í Róm, er eirn
illúdlegur uxe hlaupande á eirne hellu, á hægre hlid vid hann
stend-

stendur eirn stakinn madur, med eina taug í bádum höndum, hvor ad er af marmara, med henne helldur hann uxanum, því hún er fost um hanns horn: A vinstre hlid er eirn annar, sá same helldur med hægre hende um uxans hægra horn, enn med þeirre vinstre í granernar.

A bak vid nauted stendur eirn kvennmadur, enn fyrer framann þad, situr ein onnur, hvor klædd er ad nedann verdu, hún helldur med hægre hendinne, um nautsins hægra framfót, enn med hinne annare um hægre fót þess mannsins, sem vid vinstre hlidina stendur: Hiá þessarre kvennsnift stockur eirn hundur upp, og gellter ad nautinu, hiá hundinum situr eirn dreingur med krans á hofdinu, allt er med nátturlegre stærd, sem skapader líkamar, af einu einlægu marmara sticke giort.

Þetta so merkelegt meistara sticke, er ad siá í Róm, bak vid holl Farnelii Cardinals, i einu húskorne.

Herbergis salur Cleopatræ seger Lucanus, hast hafe ecke einasta forgyllta bita, helldur hvelfingar riáfursinz settar med perlum og Diamanter. Hormisda, eirn Kongur úr Persia, þá hann eitt sinn var í Róm, spurde Constantius Keysare hann ad; hvorsu honum gediadest ad Rómaborg, og hvad hann hiellde um hana? enn hann svarade: **Ad honum gediadest ecke betur þar ad, helldur enn ad hann sæe, þad foolked í Room skyllde lika deya.** Og er so utsagt um Róm, og hennar landslag.

Nu vil eg setia Tølurød Lærefedra, Biskupa og Pava, framepter, til vorra Tima Almenninge til Frodleiks.

og eru:

# Fyrst Pislarvottar hvørier fyrer vidurkenningu Christi, hafa sinu bloode wthellt, og hvad hvør þeirra boded og skickad hefur.

An. Chr.

1. Simon Petrus kalladur Cephas, var fæddur til Bethsaida í Galilæa. - - 42.
Eirn af Postulum vors Drottens JEsu Christi, hinn fyrste Biskup Christinna, bodade Evangelium í Rom.

2. Linus, ad ætt Toskaniskur, hinn annar Rómverskur Biskup, skrifade Lifssógu Peturs og um hans framfarer, var saklaus afhøfdadur. 57.

3. Clemens, Romverskur ad ætt, tilskickade Skrifara, þaa sem menn í dag kalla *Protonotarios*, var píndur. 68.

4. Cletus, Rómverskur, vard píndur. - - 77.

5. Anacletus, Grískur úr Athenuborg, hann baud ad hiner Geistligu skylldu raka sin skegg. 84.

6. Evaristus, eirn Grískur, tilskickade 7. Diaconos, og baud, ad eirn Biskup skyllde aungvu helldur yfergefa sina Kyrkiu, enn eirn egtamadur sina Konu. Hann var kvalenn under Keysaranum Trajano. 96.

An. Chr.

7. Alexander, Rómverskur, tilskickade Vigt Vatn til brúkunar. 107.

8. Sixtus I. Rómverskur, baud ad brwka hvitañ klwt vid Kvølldmaaltidena, og ad singia Sanctus i Messunne, var pindur. 114.

9. Telesphorus, Grískur, tilskickade Føstuna, ad singia Gloria in excelsis (Dyrd sie Gude i Hædum,) og ad lesa Pistil og Gudspiall fyrer Altarinu, han var píndur. 127.

10. Hyginius, Grískur úr Athenuborg, baud ad vera skylldu vottar og Gudfedgin vid Skyrnina. 138.

11. Pius, úr Algaria, baud ad H. Paaskahaatid skyllde aa Sunnudag hallden verda, under honum uppkomu þeir Charteusisku Munkar.

12. Anacletus, Sýrlendskur, baud ad hiner Geistlegu skylldu ei hafa sidt haar aa hofdinu, helldur brwka so sem krullada haarkransa. 154.

13. Concordius Soter, ad ætt Campaniskur, baud ad singia Drotteñ sie med Ydur, og ad Brwdhionen skylldu i Kyrkiuñe samañvigiast. 163.

14. Elevtherus, Grískur, villde ecke ad meñ skylldu giøra Greinarmun aa fædunne. 171.

15. Victor, Serklendskur, var píndur. - - 186.

16. Zephyrinus, Romverskur, baud ad brwka skyllde Glerkaleika, i stadenn fyrer Trekaleika. 198.

17. Domitius Callistus, Rómverskur, baud ad Prestar skylldu vera ogipter, var píndur. 218.

18.

An. Chr.

18. Urbanus, Rómverskur, skipade ad brwka Silfurkaleika. 223.

Bonifacius, Biskup í Máyntz plagade ad segia: fyrrumm voru Gullprestar og Trekaleikar, enn nw eru Gullkaleikar og Trepreftar.

19. Pontianus, Romverskur, skipade ad játa sig, og brwka aflausnina, var píndur. 231.

20. Antherus, einn Grískur, tilsette Pislarvottabokina, og var píndur. 236.

21. Fabianus, Rómverskur, þesse skýrde hinn fyrsta Christenn Keysara Philippum og baud ad Christner skylldu gánga til Alltaris þrísvar á Are, hann var píndur. 239.

22. Cornelius, Rómverskur, hann var píndur. - 242.

23. Lucius, Rómverskur, vard píndur. - - 253.

24. Stephanus, Rómverskur, baud ad hafa eingen Klæde vid Kvølldmáltídina, vard píndur. 254.

25. Sixtus II. Atheniskur, baud ad Alltared skyllde biggiast Austanverdt i Kyrkiunne, hann var píndur. 257.

26. Dionysius, Grískur, sette eina Samkomu móte þeim Villumónnum, sem uppástodu ad María hefde ecke mey vered epter barnburdinn, hann var píndur. 260.

27. Felix, Rómverskur, baud ad menn skylldu biggia Kyrkiur Pislarvottunum helgadar, var píndur. 270.

28. Evtychianus, Tuskaniskur ad ætt, hann gróf med 274.

An. Chr.

sinum eigen hondum 242. Pislarvotta, og vard siálfur píndur.

29. Cajus Salonnius úr Dalmatia, innfærde Offred edur *Offertorium*, var píndur. 283.

30. Marcellinus, Rómverskur, afhøfdadur - 296.

31. Marcellus, Rómverskur, var píndur - - 304.

32. Evsebius, Grískur baud ad brwka hvitanndwk a Alltarinu, vard píndur. 310.

33. Melchiades, úr Africa, sambickte ecke Fostuna, vard píndur.

## Eptirfilgiande voru lautner fry, ad lidnum Ofsoknunum.

34. Sylvester, Rómverskur, baud ad brwka Corkapu edur Hokul, og ad Kyrie skyllde singiast fyrer Messuna. 315.

35. Marcus, Rómverskur, baud ad singia *Credo*, (Vier trwum aller a eirn Gud), under honum var hallden sú Niceniska Samkoma. 336.

36. Julius, eirn Rómverskur, skipade ad Geistleger skylldu ecke stefnder, edur i rett kallader verda af Verdslegum. 337.

37. Liberius, Rómverskur - - - - 351.

38. Felix II. Rómverskur - - - - 

39. Damasus, eirn Spanskur, tilsette Psalma, og *Gloria Patri* a epter, ad singia. 363.

40. Syricius, Rómverskur. - - - 384.

41. Anastasius I. Rómverskur, hann baud ad menn skylldu standa upp þa *Evangelium* være lesed. 42.

An. Chr.

42. Innocentius I. Skottlendſkur - - - 402.
43. Zoſimus, Gríſkur - - - - 416.
44. Bonifacius, Rómverſkur - - - 419.
45. Cæleſtinus. Rómverſkur, baud ad *Introitus* ſkyll- 423.
de ſingiaſt fyrer **Meſſuna**. Under honum var
halldenn Samkoman i Epheſo.
46. Sixtus III. Rómverſkur. - - - 432.
47. Leo I. Tuſkaniſkur, baud ad **Menn ſkylldu** 440.
**virding veita Bilætunum i Kyrkiunum.**
48. Hilarius Sardiniſkur. - - - - 461.
49. Simplicius, eirn Tiburtine, ſkipade ad **hin Róm-** 467.
**verſka Kyrkia ſkyllde vera hoſud allra**
**Kyrkna.**
50. Felix III. Rómverſkur - - - 483.
51. Gelaſius, Syrlendſkur, ſkipade **ad brwka ſkyllde** 492.
**i meſſune: Fyrer Drottenn vorn JEſum**
**Chriſtum Amen.**
52. Anaſtaſius II. Neſtoriſkur, ſlepte út ſínum Inniſ- 496.
lum.
53. Symmachus, Sardiniſkur, ſkipade **ad brwka** 498.
*Te Deum laudamus.* (**O Gud vier loſum þig.**)
54. Hormiſdus, Campaniſkur, ſkeinkte til Ste Peturs 514.
Kyrkiu i Róm eirn Silfurbita, edur biálka, ſem
vog 1040 Pund. Under honum uppkomu Auguſt-
ina Munkar.

## Næſt filgiande Biſkupar voru Pat-riarchar kallader.

55. Johannes Tuſkaniſkur - - - - 523.

An. Chr.

56. Felix IV. - - - - - 526.
57. Johannes II. Rómverskur, þessum skienkte Justinianus Keysare nockra Gullkaleika, med Gimsteinum prýdda. 530.
58. Agapetus, Rómverskur, tilskickade *Processiuna* - 534.
59. Sylverius, Campaniskur, þesse villde ofurgefa Gautiskum Stadenn Róm i valld, þar fyrer giordu Gautar hann ad Páva. **Hann sette Hreinsunar Hátíd Maríu.** 535.
60. Virgilius, Rómverskur - - - 537.
61. Pelagius, Rómverskur - - - 555.
62. Johannes III. Romverskur - - - 561.
63. Benedictus I. Rómverskur. - - - 575.
64. Pelagius II. skipade **ad lesa** *Horas* **fyrer þeim Daudu.** 579.
65. Gregorius I. Magnus, tilskickade *Litaniuna.* - 590.
66. Sabinus, Tuscaniskur skickade **Kluckurnar til Gudsþionustu, og Lampa i øllum Kyrkium.** 604.

## Nu epterfilgia Paavarner.

67. Bonifacius III. Rómverskur, þennañ giørde Keysarenn Phocas ad Hofudzmanne allra Kyrkna. 607.
68. Bonifacius IV. baud **ad halldа Allraheilagra Messu.** 608.
69. Adeodatus, Rómverskur, skipade **ad Gudfedgin og þeir sem þau under skyrn hielldu skyllde ei samangiptast. (Gudsifiar.)** 615.
70. Bonifacius V. Neapolitiskur, eptergaf **frelse Manndrapurum.** 619.

An. Chr.

71. Honorius I. Campaniskur, skipade ad akalla Helgaga. 622.
72. Severinus - - - - 637.
73. Johannes IV. úr Dalmatia. - - 638.
74. Theodorus I. úr Jerusalem. - - 640.
75. Martinus I. Vallendskur, skickade eina Samkomu í Room. 647.
76. Evgenius, skipade ad Prestarner skylldu bwstad hafa hia Kyrkiunum. 654.
77. Vittellianus, Vallendskur, skickade Organen í Kyrkiunum, 657.
78. Donus, Rómverskur, hann biggde i Peturs Kyrkiu til Róm, eirn Múrvegg af Marmara Steine. 676.
79. Agatho, befalade ad Pavanna Setningar skylldu halldast sem Guds Ord. 680.
80. Leo II. úr Sikiley, hann sette Kyrkiusaungsinn í retta reglu. 682.
81. Benedictus II. Romverskur. - - - 684.
82. Johannes V. Syrlendskur. - - - 685.
83. Canon, Rómverskur. - - - 686.
84. Sergius, skipade ad singia hrísvar i Messunne: *Agnus Dei*, (O þu Guds Lamb ɩc.) 687.
85. Constantinus, Sýrlendskur, þesse Páve var hinn fyrste, sem liet kýssa á sína fætur. 708.
86. Gregorius II. Romverskur, hann bannfærde Bílætasmidina, og var þeß vegna affettur. 716.
87. Gregorius III. Sýrlendskur, skipade ad hallda Salumessur hínum Daudu. 731.
88. Zacharias, Grískur. - - - 742.

89

An. Chr.

89. Stephanus II. Rómverskur - - - = = 752.
90 Stephanus III. þesse var Fólkinu so kiær ad þeir baru hann a herdum sier til Kyrkiunar, þar af er þad komed ad Pávarner láta bera sig.
91. Constantinus II. Rómverskur. - - 757.
92. Stephanus IV. úr Sikeley, skipade ad tilbidia Likneskenn. 786.
93. Hadrianus, skipade ad forsigla med blye Pavanna *Bullas* (edur Rettarbætur). 789.
94. Leo III. Rómverskur, þesse vard útskúfadur, Enn Carl Kóngur i Fracklande sette hann inn aftur, og fyrer þad vard hann Keysare. 796.
95. Stephanus V. Romverskur, skipade ad an Keysarans sambickis skyllde eirn Pave ecke utvalenn verda 816.
(Paschalis I. er hier settur hiá odrum Skrifurum.)
96. Evgenius II. Rómverskur. 824.
97. Gregorius IV. skipade ad gialldа Geistlegum Tiunder. 834.
98. Sergius II. Rómverskur, þesse var sá fyrste, sem umbreitte Nafne sinu. 844.
99. Leo IV. Rómverskur, skipade ad bera skyllde eirn Gullkross undann Pavanum; Hann giorde úr Grof Adriani Kastalann Engelborg i Róm. 847.
100. Johannes VIII. þesse fædde eitt sinn barn i Processiunne, því hann var Kvennmadur. 855.
101. Benedictus III. skipade ad Klerkar skylldu vera sidklædder. 858.

| | | An. Chr. |
|---|---|---|
| 102. | Nicolaus. | 869. |
| 103. | Johannes IX. þesse sette á 4 árum 3. Keysara. | 872. |
| 104. | Martinus II. | 883. |
| 105. | Hadrianus III. Rómverskur | 884. |
| 106. | Stephanus VI. Rómverskur, sagde: Ad hvør ei hiellde Pavanna Setninga, kynne ecke Sæluholpenn verda. | 891. |
| 107. | Formosus, Rómverskur | 896. |
| 108. | Stephanus VII. Rómverskur | 897. |
| 109. | Romanus | 898. |
| 110. | Theodorus II. Rómverskur | 898. |
| 111. | Johannes X. Rómverskur | 899. |
| 112. | Leo V. dó í Fángelse | 901. |
| 113. | Christophorus, var í Fángelse settur, fyrer þad, hann hafde giort sig siálfur ad Páva. | 902. |
| 114. | Sergius III. Rómverskur | 905. |
| 115. | Landus, Rómverskur | 913. |
| 116. | Leo VI. Rómverskur, þennann drap ein Hóra med Eitre. | 929. |
| 117. | Stephanus VIII. | 929. |
| 118. | Johannes XI. Rómverskur. | 930. |
| 119. | Leo VII. Rómverskur | 935. |
| 120. | Stephanus IX. | 939. |
| 121. | Martinus III. Rómverskur | 942. |
| 122. | Agapetus II. Rómverskur | 946. |
| 123. | Johannes XII. Rómverskur, var lagdur ígegn med eirne giftre Konu (er hann svaf hiá.) | 947. |
| 124. | Benedictus V. Rómverskur | 964. |
| 125. | Leo VIII. Rómverskur, hann var innsettur af | 965. |

An. Chr.

Keysaranum, þeß vegna skipade hann ad eingenn Pave skyllde ann Keysarans vitundar wtvalenn verda.

126. Johannes XIII. Vallendskur, skipade ad lesa skyllde Blessan yfer Kluckunum. 965.
127. Benedictus VI. Romverskur, dó í Fángelse 972.
128 Bonifacius VII. selde Kyrkna Gótsed 973.
129. Johannes XIV. Lumbardiskur - - 979.
130. Johannes XV. Rómverskur - - 985.
131. Gregorius VI. Þískur, skipade ad Keysara utvalningen skyllde gioraſt af 3. Geistligum og 3. Verdsligum Churfurstum. 995.
132. Sylvester II. var af Dioflenum ad Páva giordur, og af honum sama, ad sidustu fráſettur. 998.
133. Johannes XVI. fann uppá Hreinsunarelldeñ 1003.
134. Johannes XVII. í hanns tíd voru hinir fyrstu Cardinalar setter. 1004.
135. Sergius IV. Rómverskur - - - - 1009.
136. Benedictus VII. - - - 1012.
137. Johannes XVIII. skipade Ad meñ skylldu fasta Kvølldeð fyrer S. Laurentius Messu, og eins fyrer Jonsmessu. 1024.
138. Benedictus VIII. þesse giorde eirn Múnk, sem hiet Casimirus ad Kónge í Polen. 1032.
139. Sylvester III. var ecke Páve nema 49 daga.
140. Gregorius VII Vallendskur - - 1045.
141. Clemens II. Saxverskur, hañ var drepeñ med Eitre 1048.
142. Damasus II. af Bäyern - - 1049.
143. Leo IX. eirn Greife frá Leiningen, hann var 1050.

settur

An. Chr.

settur til Páva af Hinric Keysara; Menn skrifa umm hann, ad Herrann Christur hafe komed til hanns, í Mind eins fátæks Manns.

144. Victor II. Þýskur - - - 1055.
145. Stephanus X. - - - 1057.
146. Benedictus IX. Rómverskur - - 1059.
147. Nicolaus II. úr Savoyen skipade **ad Cardinalarner skylldu wtvelia Pawann.**
148. Alexander II skipade **Ad menn skylldu aungre Messu hlýda hiá þeim Prestum, sem vid Hoorur hiellde.** 1061.
149. Gregorius VIII. skipade **Ad Prestarner í Þýskalande og Frankarike skylldu iaga sínar Konur burt frá sier.** 1071.
150. Victor III. Wallendskur - - - 1086.
151. Urbanus II. Hetruriskur - - - 1088.
152. Pascalis II. þesse brúkade eirn Gull Linda, vid hvorn ad hiengu Sio Liklar og Sio Signet. 1099.
153. Gelasius II. Campaniskur, vard útrekenn 1118.
154. Calixtus II. skipade **Ymbrevikurnar** 1119.
155. Honorius II. Bononiskur - - 1124.
156. Innocentius II. Rómverskur, skipade **Ad hvør sem slæe eirn Prest, skyllde standa Aflausn fyrer Pawanum.** 1130.
157. Lucius II. Bononiskur, dó af einu Steinshøgge 1144.
158. Evgenius III. gódur Strídsmadur - - 1145.
159. Anastasius IV. Rómverskur - - 1152.
160. Hadrianus IV. Eingelskur - - 1154.
161. Alexander III. Hetruriskur, þesse steig á Háls Fridrich Keysara. 1159.

| | | An. Chr. |
|---|---|---|
| 162. | Lucius III. Tuscaniskur - - | 1181. |
| 163. | Urbanus III. Meylendskur - - | 1185. |
| 164. | Clemens III. skipade **Ad strida a mote Tyrkianum.** | 1188. |
| 165. | Cælestinus III. Rómverskur - - | 1191. |
| 166. | Innocentius III. Campaniskur, baud **Ad jáata sig í eyrad, og ad Leikmonnum skyllde ei veitast Kaleikurenn.** | 1198. |
| 167. | Honorius III. Rómverskur, baud **Ad hafa liós a Altarinu.** | 1216. |
| 168. | Gregorius IX. þesse tók frá Fridrich Keisara eina Landeign, hvoria hann mátte aftur leisa med 500000 Untzer*). | 1227. |
| 169. | Innocentius IV. baud **ad Cardínalar skylldu brwka raudann Hatt og Kyrtil.** | 1243. |
| 170. | Alexander IV. Campaniskur - - - | 1254. |
| 171. | Urbanus IV. baud **ad Sacramented skyllde berast um kring med storre vidhøfn.** | 1262. |
| 172. | Gregorius X. úr Placentz - - - | 1271. |
| 173. | Nicolaus III. Rómverskur, þesse átte eitt barn vid Fridlu sinne, hvørs Høfud og Fætur voru, sem Biarndyrs Høfud og Hramar. | 1277. |
| 174. | Martinus IV. þesse tók til Egta Nicolai Fridlu. | 1281. |
| 175. | Honorius IV. Rómverskur - - - | 1285. |
| 176. | Nicolaus IV. Lumbardiskur - - - | 1288. |
| 177. | Cælestinus IV. gaf sig siálfur frá - - | 1294. |
| 178. | Bonifacius VIII. þesse kom til Páfatignarinnar, | 1295. |

sem

*) NB. 500000 Untzer (al. 500000 Rixdals þíngdir, edur 1000000 Lod Gullz) (þad er vegt enn ei verd.)

An. Chr

sem Refur, stiórnade sem Lión, og dó sem Hundur.

179. Clemens V. flutte Páfastólenn til Frankaríkis; i hanns tíd uppkomu Endurskyrarar. Þeir keña: ad Madur skule eckert eiga siálfur útaf, allt skule vera øllum sameigenlegt. 1304.

180. Johannes XIX. baud, ad þrísvar a dag skyllde Bæna-Kluckunne hringt vera. 1316.

181. Benedictus X. úr Tolosa - - 1335.

182. Clemens VI. Franskur - - 1342.

183. Innocentius VI. baud, ad viga skyllde eina Gull-Roos a Midføstunne. 1352.

184. Urbanus V. under honum komu Jesuitar upp 1362.

185. Gregorius XI. þesse flutte Páva-Stólenn aftur til Room. 1371.

186. Urbanus VI. Neapoliskur, þesse liet eitt sinn føra 5. Cardínala i Poka og dreckia þeim i Vatne. 1378.

187. Clemens VII. - - - 1389.

188. Bonifacius, Neapoliskur

189. Benedictus XI. - - 1392.

190. Gregorius XII. úr Venedig - - 1404.

191. Alexander V. úr Crit. - - 1409.

192. Johannes XX. Neapoliskur - - 1411.

193. Martinus V. Rómverskur - - 1417.

194. Evgenius V. úr Venedig - - 1431.

195. Felix, úr Savoyen - - - 1438.

196. Nicolaus V. úr Genua - - 1447.

197. Calixtus III. Spanskur, þesse sende Múnka út um allann Heim med Aflatsbrefenn. 1455.

An. Chr.

198. Pius II. Hetruriskur, þesse hiellt fyrer gott, **ad Prestar mættu gipter vera.** 1458.
199. Paulus II. Venediskur, þesse utflæmde lærda Menn 1464.
200. Sixtus IV. baud, **ad hallda helgann Bodunardag Marín,** under honum komu Dominican-Múnkar upp. 1484.
201. Innocentius VIII. úr Genua, útgaf Afláts bref bæde fyrer lífs og lidna; Under honum lifde D. Martinus Lutherus. 1492
202 Alexander VI. Spanskur - - 1503
203 Julius II. úr Genua
204 Leo X. Florentinskur, þesse sende Tetzel med **Aflatsbrefenn** inni Þýskaland, móte þeim skrifade Martinus Lutherus. 1513
205 Hadrianus IV. Hollendskur, Skólameistare Keysara Carls ens Vta. 1522
206 Clemens VIII. Vard af Stríðsfolke Carls V. rekenn út i **Engelborg.**
207 Paulus III. Romverskur, skipade **ad bera ci sier** *Pater noster* **af tre.** 1534
208 Julius III. - - 1550
209 Marcellus II. Hetruriskur - - 1555
210 Paulus *IV.* Neapoliskur, hanns Bílæte var dreged um Stadenn **Room,** og sleged í sundur.
211 Pius *IV.* Florentinskur - - 1560
212 Pius *V.* úr Alexandria - - 1566
213 Gregorius XIII. Bononiskur, kiær Vinur Þískra, hann stiftade eitt Collegium í **Room;** Anno 1582 let hann umbreita Ríminu, og gaf því þad 1572

nafn

An. Chr.

Nafn: *Calendarium Gregorianum Perpetuum*, (Æ-varande Tímatal *Gregorii.*) Hann bætte vid Fostunætur-Vikuna 4. døgum, so hún skyllde verda fuller 40. dagar; Hann hiellt Tíunda hvert Jubil-Ár.

214 Sixtus *V.* úr Rippanne, þesse safnade samann 500000 Cronum, til ad vinna med aftur hid fyrer heitna Land. 1585

215 Urbanus *VII.* Rómverskur, var Páve í tólf daga 1590

216 Gregorius XIV. var Páve um 10. Mánude. 1590

217 Innocentius IX. Bononiskur - 1591

218 Clemens *VIII.* Florentinskur - 1592

219 Leo *XI.* var Páve 25. daga - 1605

220 Paulus *V.* Rómverskur

221 Gregorius XV. Bononiskur, þesse var med allra Samþicke til Páva útvalenn, á 60 áre hanns alldurs. Hann sette til Forordning um þad, hvornenn Pávarner skulldu þar efter útvallder verda. (Þar um skrifar Franciscus Albanus, í sinne Anatomiâ, sem út er geingenn i Wittenberg.) 1622

222 Urbanus *VIII.* Florentinskur, eirn lærdur madur, og sierdeilislega eitt gott Skálld, hann vard útvalen 7. Augusti 1623. dó þann 30. Julii 1644. 77 ára, ad alldre. 1623

Þann 15. Septembris, 1644. var Johannes Baptista Pamphilius, Rómverskur, med Samþicke 44ra aftur til Páva útvalenn, á 72 áre hanns alldurs, og

223 Innocentius *X.* kalladur. - - 1644

Anno

An. Chr.

Anno 1665. þann 7. Aprilis, var af 65 Cardinolum útvalenn til Páva, Cardinalenn Fabius Chisius, úr Siena, á hanns 57. áre, og
224 Alexander *VII.* nefndur - - 1655
225 Anno 1667. vard Julius Rospigliosi, ættadur úr Pistoja, útvalenn, og Clemens *IX.* kalladur 1667
226 Anno 1670. þann 29. Aprilis, vard Æmilius Altieri, Rómverskur, útvalenn áttrædur ad alldre, og Clemens X. kalladur. - - 1670

## Um þad Romverska Rike edur Keysaradæmid i þiskalande.

Þad Rómverska Rike breidde sig fordum daga vídara út, helldur enn nú er, og Keysarenn Constantinus, flutte Keysara Sæted frá Rom, (hvar af hid Rómverska Rike hefur sitt Nafn) til Constantinopel.

Efter Dauda Constantini, vard þvi Rómverska Rike Anno Christi, 341. sundurskipt millum hanns þriggia Sona.

Constantinus ødladest allt þad sem lá hid efra frá Alpes fiøllum, Frankarike, Spanien, Schweitzerland, Part af Þiskalande, og allar hinar Brettlendsku Eyar.

Hanns ødrum Syne, sem hiet Constantius, hlotnadest Grickland, Thracia, Asia, og øll Austurálfann.

Þridia hanns Syne, sem Constans hiet, skiptest Vindsland, Valland, Dalmatia, Macedonia og Egyptaland.

Con-

Constantinus ríkte í sínum hluta 3. ár,
Constantius 24 ár, og
Constans 13 ár.

Constantinus hiellt med þeim Rettrúudu, enn Constans med hinum Arianisku.

Þesser Brædur urdu ecke leinge samþicker (so sem líka er frá skýrt, í minne Historisku **Cronicu**) helldur strax efter Dauda þeirra Födurs, færdu þeir hvør ødrum hættusamleg Stríd á hendur, hvar fyrer þad Romverska Rike merkelega sundurtvístradest. Enn ad sídustu komst þad aftur under eins þeirra valld, sem vár Constantii, vard þó ei leinge stadfast, því efter á sídar vard því skipt í tvo hlute, nefnelega **Austuralfunnar**- og **Vesturalfunnar**- Keysaradæme, þángad til Odoacer Kongur dro úr **Pommern** og **Rügen** Anno Christi 466 med mikla Strídsmagt inní **Valland**, og svipte Keysarann allre von um vidretting hanns hnignande Rikis.

Alaricus Gauta Køngur brautst líka inní **Valland**, og hiner Vindversku tóku under sig mikenn hluta af Spanien.
Þeir Alanisku fengu Portugal.
**Engel-Saxisker** inntóku **Bretland**.
Hiner **Franckisku** alla Galliam, og
**Hunar** allt Ungaria Land.

Á þennann hátt geck smámsamann under lok **Vesturalfunnar** Keysaradæme; Ei kunne helldur Stadurenn Constantinopel lengur vid ad halldast.

Þetta kom Páfanum Leo Þridia til þess, ad setia Keysara tignina uppá Carl Fracka Kong, hvad ed skede Anno Christi 800.

A þennann hátt (so sem aller Historiuskrifarar vitna) komst Vesturálfunnar Keysaradæme til Þiskra, þvi Kóng Carl var þiskur ad ætt.

Af ádursøgdum skiptum, vard nú Riked so líted um sig, og sídar meir enn þá minna, so þad ad lokunum hiellt ecke nema Þiskalande, og litlum Parte Vallands, edur Italiæ.

Af Vallande eignar Páfenn sier nockud, Venedisker hafa þar eirnenn hlut í, og Keysarenn Rudolp Fyrste selde þad, sem umfram var, og á sagdann hátt, vard Þiskaland alleinasta epter.

Náttúrunnar art og Asigkomulage Þiskalands er nú so háttad, ad þad hefur heilnæmt, ferskt og hreint lopt, jafnvel þó Cornelius, Tacitus og Seneca vile segia þar þvert á móte.

Landed er ávaxtarsamt, og ríkt af Korne, gefur mikenn Málm, Gull, Silfur, Kopar, Tin og Blý, hefur Ølkelldur og Salltbrunna, eirnenn Varmar-Laugar, og í mørgum stødum gott Vín, føgur Gras-Einge, er vel biggt, ber mørg tre, stór ávaxtarsøm, og til Bigginga nytsamleg.

Í Elsaß gefur þad af sier fiollda ávaxta hefur ótøluleg Eplatre, á fiollunum gott Vín, i dølunum kostulega Grashaga, og þetta sama má med sanníndum segia um allt Pláß, er nálægt liggur Anne Rín. Franck-

**Franckenland** liggur lágt med dældum og dalverpum, sumstadar flatt og slett, vegna Eplavidar og grasgódra Eingia, er grundenn lysteleg yfer ad líta.

I kríngum **Würtzborg** vex miked Vín: hiá **Bamberg** miked af Lakristriám: vid **Necker-Flióoted**, kostuligt Vin: hiá **Würtzborg** ein og so morg Fiskevetn og Ar.

**Schwabenland** er ad nockrum Parte Fiollum vaxed, þó grodasamt og vel biggt, hefur fiolda Villudýra, margar reñande Ar, sem allar falla i **Rin**, hefur Bergverk af Silfre og Iárne, samt hreint og heilnæmt loft.

**Böhmen** ber margslags Korn ávexte, sierdeilis Bigg, nockud Vín, Saffran, sem ad lit og rád er ei miog olíkt þvi útlendska; Mikenn Silfur- og Gull-Grøft, og í sumum stodum finna menn Diamanta og Amethysta, samt adra Gimsteina, enn þó hinum útlendsku aldeilis ólíka.

**Margreifadæmed Mähren**, hefur vídast hvar eina ávaxtar sama grund, serdeilis af Hveite, og á Hálsunum Víngarda, betre enn þá **Böhmisku**, Bænda lídurenn er yded og kostgiæfed Ervidis Folk; A stundum finst hier Myrra og annars slags Reikelsis tegund.

**Efre-Bäyern** er mesta part Fiollum og Skógum þakenn, á millum hverra ad eru, straung Vatnsfoll og Stoduvotn.

**Nedre-Bäyern** þar á móte slettlend, med morgum ávoxtum, og Kvikfiár afla; Sierdeilis Svínum, af hvorium þar er

mikill fiollde og Fenadur feitlagenn, í sumum stødum finnast þar Salltbrunnar, aftur á móte hafa þeir þar eckert Vín, nie Málmgroft.

**Austur-Ríke** er fagurt og slett land, gefur af sier miked Vín, og allslags ávexte, eirnenn kostulegt Saffran; í Greifadæminu **Tyroll** Silfurgroft og Villudýra veide.

**Steyermarck**, er Fiallamiked land, hefur mikenn Járngroft, og sumstadar nockrar Silfurædar.

**Kárndten** er sumstadar med Fiollum, sumstadar flatlend, og gefur af sier gott Hveite, hefur falleg Fliót og fiskrík Votn.

**Westphalen** er hentugre til Kvikfiár afla, helldur enn ávaxta, hefur Skóga mikla og triávid; þeir hafa fiolda Svína, því þar er landgótt til ad feita Pening.

I þeim Parte, sem heirer til Erkebiskupenum af **Cölln**, fæst líka og Metall.

I Fyrstadæminu **Gülich** hafa þeir allslags Korn ávexte líka litunar jurt, hvar med þeir lita Klæde, þar eru og giæda Hestar.

**Cleverland**, hefur heilnæmt lopt, og marga ávexte, líka eirnenn godann Kvikfiár abla.

**Hessen** er brióstrug, þar verdur hafdur fiølde Kvikfiár, sierdeilis í Greifadæminu **Waldech**, líka fæst þar Silfur, Kopar, Járn, Blý, Alun og Sallt.

Thyr-

**Thyringen** er þar á móte ávaxtarsøm af Korne, og litarjurt, sem ádur var geted ad Farvarar brúka.

**Efre-Sachsen** er rík af Málme og Bergverke, Votnenn full af fiskum, þar vantar ei helldur Korn.

I **Greifadæminu Mansfeld** verdur uppgrafed miked Kvikasilfur og annar Málmur líka nockud Silfur

I þessu lande er eirn Siór edur Vatn, í hvort þegar Fiskararner renna sínum aunglum, verda þeir í Vatninu forbrender, líka sem þeir hefdu leged i ellde.

Þetta Greifadæme hefur miked, enn þó slett Vín, þar er stadurenn **Eißleben**, þess Sáluga Guds Manns D. Mart. Luthers Fødurland og Fædíngar Stadur.

**Schlesien** og **Laußnits** hefur marga ávexte, Kvikfiár fiølda og Fiskaveide, sømuleidis vantar ei helldur í **Meissen** Vín, Hunang, og Kvikfiárgróda.

**Lütticher land** er fagurt og ávaxtarsamt, hefur mørg Fliót og Fiskaveide góda, Skógarner fuller af Villebrád, líka er þar Málmgrøftur og Steinkol.

I **Erke-Stiftinu Trier**, er Jorden hrióstrug og næstum ávaxtarlaus; Hiá **Coblentz** vid Ana **Rhín**, og vid Flióted **Mosel**, gefst Vín, þar eru margar Ar og Læker, er sumer renna i **Rhín**, sumer i **Mosel**. I Skógunum er fiølde

de Villudýra, líka Kopar, Járn og Blý.

Hiá Ulm er eitt Stoduvatn, í hvoriu menn finna Smásteina, sem ei eru miog ólíker Rubiner.

(Þeirra Sidferde) í fyrra tíd voru Þýsker kallader Germania, nú eru þeir af Utlendskum nefnder Alemanier.

Gull og Silfur vissu hiner gomlu ecke ad brúka, Sverd edur Vopn voru þeim líka ókend.

Nær þeir útvoldu sier Konúng, tóku þeir hann af Edalfolkenu, enn til Stridshofdingia tóku þeir þá, sem þeir vissu ádur í þeim Sokum hafa sínt dugnad og mannskap, þesser kappkostudu meir med gódum Epterdæmum, enn Hardídge ad stiórna og ráda yfer Strídsfólkenu, og áunnu sier so med Digd og Trúskap Allt og Virdingu.

Hvor sem eitthvad misbraut, mátte ei af neinum nema Prestunum straffadur verda, so sem ad þvílíkt være ecke Mañañia, helldur Guds Skickun tilheyrande.

Í Egtaskapar byriun og Samninge, færdu Brúdgumarner tilvæntande Konu eina Brúdargáfu, sem var: tveir Uxar, sodladur Hestur og eitt Spiót.

Ef eirn Husfrú vard uppvís ad ótrú og Lauslæte, tók siálfur Madurenn hana nakta út úr Húsinu, og dró hana um allar Stadarins Gotur, voru þetta eingenn log, helldur vidtekenn Vane. Yngis=

Yngismenn og Jómfrúr máttu ei giftast, fyrr enn nockurnvegen vel til ára komenn, þvi þá helldu menn þau mundu geta af sier kraptabetre Born.

Þeirra Konur voru hraustar, og hofdu Kallmanns hug i Konu Brióste, (sem menn plaga ad segia.)

Julius Cæsar skrifar ad hiner Schwabisku hafe fordum daga vered þeir stæstu og sterkustu medal allre Þýskra; þeir bundu sitt Hár uppi eirn topp, hvar af menn kunnu ad þeckia þá.

Þeir Báyersku eru Erfidisssamer og Hetiuleger til Strids, enn almennelega eru þeir i lifnade ónetter og óskickanleger.

A vorum tidum verdur hinum Þýsku skipt i Fernslags stand.

Hid Fyrsta Standed innebindur i sier hina Geistlegu, þeir eru af hvorium manne hátt virdter so framt þeir sieu lærder, þvi efter þvi lita hiner Þýsku sierdeilis.

Hid Annad er Edal Standed, þvi tilheyra, Furstar, Greifar, Friherrar, Riddarar og Edalborner og giftast hverier samann i sina stett.

Þesser ferdast til framande landa, ad kinna sier Fólk og Side, hiner af þeim sem kyrru heima hallda i Húsenu, eru i litlu afhallde. Annars er þeirra dagleg lyst ad fara á veidar, þvi þeir eru þar til sierdeilis privilegerader, og má Bóndenn straff=

strassanst afkomast, brúka jafnann til Matar sína eigen veide.

I **Klædnade** hallda þeir sig pragtuglega, og opt framar enn Stande hæfer, láta sína Þenara, og Frúrnar sínar Þernur, passa vel uppá sig.

I **Framgange** hafa þeir sína tagta, hvörier daglega uppá Modenn umbreitast med Klænadinum; Eirn lítell órettur verdur ei med løgum straffadur, helldur strax uppá tímann med hoggum og Staurum, hvar af margur misser Auga, og Bænda fólk limu ef til vill.

Hid **Þridia Standed** innehelldur i sier **Borgarana** i Stodunum, af hvorium nockrer hafa adsetur i Rikis Stodunum, og heira Keysaranum til, enn adrer eru Furstum og Herrum undergefner, brúka sína Hondlun, hallda pragtuga Gesta-bod, í hvorium þeir eru þó fridsamleger, og skilia vel fornægder hvor vid annann.

Þeirra Klædnadur er meir sómalegur helldur enn miøg pragtugur, jafnvel þótt þeir nockurn part áhánge og ape efter Módnum. Handverks fólked fær sier mat þrisvar á dag; Enn hiner fornemmare brúka ei nema tvær Máltíder um dagenn. Þegar þeir sorga og eru hryggver brúka Kallmennerner svartann, enn Kvennfólked í sumum stodum hvítann Klædnad, og sorga ei leingur enn áred.

Þeirra **Byle** edur **Bær** eru sumpart af Grióte sumpart af Timbre þó prídelega og ásiálega bigder, ad ofanverdu med Tígul-

tkgulsteinum bordum og Pakspónum, byrgder og Pakter, brúka innann húß Hreinlæte og hallda bænir Kvolld og Morgna.

Hid **Fioorda Standed** innebindur **Bændalydenn** sem býr í Þorpunum, brúka og lifa af Akuryrkiu, sem er Þeirra eina inntekt, Þad sem Þeir uppala af Kvikfe, verdur fært Borgurunum á Markadina, fyrer hvad Þeir fá Þad, sem Þeir Þurfa Yfervalldinu ad giallda, og sig naudsynlega med ad klæda.

Þeirra Fæda og Dryckur er í slettara lage, nema hvad Þeir á Helge- og Sunnudøgum hallda sig nocked betur, koma samann under eirne Eik, taka sier Sopa, fara Þar efter med ákafa ad Dansa, eins og Þeir sieu affinna, láta Børn og Hiú giøra sig lystug ásamt Þeim; Hiá sinu Yfervallde meiga Þeir Þúngt og strángt Erfvide útstanda, í nockrum stedum Þiena Þeim daglega, plægia fyrer ecke neitt, Saga, Þreskia, høgva vid, hlaupa Sendeferder, hiálpa til Dýrajagtar, og hvad Menn annad á Slotum og Hoffum uppheinkt gera. Og er so útsagt um Sidferde Pyskra almennelega.

Jafnvel Þótt nú á Piskum verde Dryckiuskapur lastadur, Þá er Þó mest ord á giørande hinum Saxverskum, Því hrockve Þeim ecke dagurenn Þar til láta Þeir Nóttena vidtaka, og rússa hver med ødrum, so Þeir vita ecke hvornenn Þeir kunne heim til síns Húss ad komast, og ad Morgne heiter Þad so: Eg var vel tracteradur í Giær, hitt helldur Þó; Því mitt høfud er melancholiskt og aller míner limer veiker.

Til Matar brúka Þeir, ecke einasta Saxverskar, helldur adrer Piskar, sem til Dryckiu hneigder eru Þurrann Mat, so sem

herdt Svínskiot, Pylsur, reikt Kiot, og adra grófa fædu; smiør og Ostur er þeirra daglegur Kostur, í summum stodum matreida þeir so miked á Sunnudagenn, sem þeim kunne ad hrockva alla Vikuna, og meiga Børnenn eiga Mat samann med þeim elldre, so þau venjest þar vid og verde sterkare.

Þeir **Franckísku**, selia Vín enn drecka Vatn, því þeir vita ei miked af Øle ad segia; eru óvingiarnleger vid framande. Þá þeir aflesa Vínberenn, gánga nockrer únger Drengir med logande Blis, inní Stadenn **Würtzborg**, og segia: **Hier med brennum vier Vínyrkiuna.**

Á **Marteins-Messu** giører hvør madur sig gladann, og hresser sig í Vertzhúsum.

Þeir **Schwabísku** leggia sig efter Kaupmannsskap, hafa híngad og þángad sína Þenara, sem drífa Hondlunina í þeirra Nafne. Á Vetrar tímanum spinna og vefa líka almúga Menn. Einn Málsháttur er sá: Ad **Schwaben** gefe heilu Þýskalande Hórur, hvar af ráda má, ad þeir sieu ei miog afundner vid Gydiuna Venus.

Þeir í **Báyern** eru þverer og þurrlinder vid Framande, Almúgafólked brúkar mest bláann Klædnad, Karlfólk og Kvennmenn hafa helldur Stigviel enn Skó; þeir eru miog hneigder til Gudsþiónustu.

**Kárndten** liggur under Erche-Hertugann af Austurríke, Fólk þar brúkar hellst gráann Ullarklædnad, þeirra Nábúar eru:

Hiner **Steyermärckisku** eru miög einfalder, marger af þeim hafa eitt stort Exle under Kverkinne, so þeir geta naumlega talad þar fyrer, annars er þeirra Túngumál Vindlendskt.

Þeir í **Böhmen** hafa Schlavoniskt Túngumál, hvort Polsker og Moschovitar eirnenn brúka, þó med nockrum umbreittum talshætte, Enn Þýsk túnga er mest meteinn í Stodunum, verdur og so almennelega predikad í Þýsku, Hiner **Böhmisku** eru giarnann þickvaxner og gillter, med hrocked hár.

Utlendskt Fólk gefur Þýskum sann Vitnisburd, ad þeir sieu meir skapter og hneigder til rettsinnis og frómleika, helldur enn illinda og Stráksskapar, Hvad þad gamla Skyrlífe áhrærer, hvorin Tacitus hrósar hiá þeim, þá er óskande, þad være nú eins í veniu. Ad verda druckinn (ef þad skedur ecke hvern dag,) er hiá þeim eingenn löstur halldenn, já, þeir segia, ad sá sem ecke vill drecka nockud frekt, hafe annad hvert eitt hvad íllt framvd, edur í sinne ad giøra þad.

Ríkdómur hinna Þýsku er sierdeilis innefalenn í Málme, so sem Silfre og Járnverke, Salltgrofum, Kauphondlan, og fiølda Handverka, í hvorium Þýsker eru framar odrum honduger og kiæner, so þeir hafa hrós þar fyrer, Vínhondlun er þar, einkum af Rínsku Víne: líka færa þeir **Franckfurtisku** og **Leipzisku** landspartar þeim ecke litla nytsemd, því þángad flyckest folk ecke einasta úr allre Evropâ, helldur úr Asia og Barbarienu, nefnelega til **Franckfurt**, og í heillre Nordurálfu er eckert land, sem take Þýskalande fram í Ríkdóme, hvar um lióst vitne er; ad þar er eingenn onnur Mynt brúkud helld-

 ur

ur einn af Sylfre edur Gulle, þar adrar þióder hiálpa sier vid Kopar og Messing til Smámyntar.

Þegar sá Rómverske edur Þýske Keysare vill reysa til **Room**, ad fá **Coronuna**, þad er láta krýna sig til ad vera Rómverskur Kóngur og Keysare, þá meiga Ríkisins-Stands-Personur gefa þar til af sínu, og þad er kallad ad gefa **til Roomferdar:** Þó tekur þad nú til af ad leggiast: So er því líka háttad þá Fólk verdur útveaad til ad strída á móte Tyrkianum vorum Fiandmañe, þá mega Ríkisstetternar leggia þar til af sínu, hvad kallad er **Tyrkia Skattur.**

Adur fyrre hefur Þýskaland kunnad ad safna miklu og öflugu Herlide, þegar Tyrkenn hafde setst um **Wien**, dró Carl V. miken Her samann sem var 90000 Fótgaungu lids og 30000 til Hests, já, efter hann, hafde Maximilianus II. 100000 Fótgangande, og 35000 Reidmenn útbúna, og villdu Menn nú sídann, já einasta frá Anno 1618, hafa uppskrifad allt Þýskt Strídsfólk, yrde þad hart nær óútsegianleg tala.

Enn nú, því midur, er þad Rómverska Ríke í siálfu sier sundurþickt, hvar fyrer þess Magt veikest ei allsted, og kann naumlega leingur standast, þar fyrer hefur eirn Tyrke giort samlíking ecke óvidurkvæmelega, hins Þýska og Tyrkneska Ríkis, þar hann seger: Þýskaland sie líkt einu Dýre, sem hafe mörg Höfud enn eirn Hala; Enn Tyrkeríed einu Dýre, sem hafe eitt Höfud og marga Hala, mörg Höfud kunne ecke ad smeigia sier í eina Holu, helldur vilie hvert Höfuded hallda sinn Veg, og mege so Halenn verda epter; Enn þad eina Höfuded gánge sinn Veg, og þá breide Halarner sig út yfer allt.

Annars

Annars hafa menn á fyrre dögum halldeð, ad medal allra Þÿskra landsparta-biggenda, være þeir Schwabiſku, Báyerſku, Weſtphäliſku, Sachſiſku, og af Auſtur-Ríke gott Fótgaungulid. Þeir Brunsvikiſku, Tüliſker, Clevar, sömuleidis Franckar og þeir vid Ana Rhin, kynnu ad tilleggia gott Riddara lid.

Sá lofſtyr verdur hinum Þÿsku framm yfer allar adrar Þióder tillagdur, ad þeir sieu góder Strídsmenn, og kappsamir Soldatar.

Eitt sinn var eirn Þÿskur Soldat adspurdur, fyrer hvoriu Þÿsker være hrædder? hann svarade: fyrer Himninum, ad hann munde detta nidur, þvi hann hefde aungva Styttu under sier.

Siooſtaderner kunna líka út ad búa ei allfátt Fólk til Siáfar, hvar fyrer þeir háfa opt mætt Donſkum og Svenſkum í Stride med 100 Skip.

Ef nú hvorutveggie Partanna þeir til Siáfar og hiner til Lands hiellde i einingu samann, være einum Framande og Utlendum Potentat ómøgulegt þad Land ad vinna: Enn menn þurfa ecke ad óttaſt fyrer því Þÿska Samhellde, og sannaſt vel, því midur! ádur umgetenn Tyrkians ord, nær menn athuga, ad Oeining, og inbirdis Vantrauſt, helldſt ecke einaſta vid, helldur fer daglega í Vøxt.

Rikis-Staderner trúa Furſtunum ecke, því þeſſleingur sem er, þeſs megtugre ſtunda þeir til ad verda.

So giorer líka mismunur Trúarbragdanna stórt Mistraúst og verkar uppertíng Gedsmunanna, þar Catholíster eiga jafnann í hogge vid Protestantana, og siálfer Protestantarner eru ecke sampicker sín ímille, so þar kemst alldrei stadfost rósemd á.

Anno Christi 1002 í Tíd Pávans Gregorii V. og Keisarans Ottho III. var tilsett Churfursta Forordningen (edur Stiptunar Regla.) So sem min Historiska Cronica eirnenn vitnar, þar geted verdur Uppbyriunar Ríkis Stiórnar Otthonis III. Jafnvel þótt marger vilie þetta i Efa leida.

Hofud hinns Þýska Ríkis er Keysarenn, hann hefur under sier enn þá 3. adra limu edur lide, (Stiórnar-Persónur.)

Hinn Fyrste, eru þeir 8 Churfurstar, so sem, Erke-Biskupenn til Mäynz, Þess H. Ríkis Erke-Cantzelere um allt Þýskaland, hvor ed Ríkisinns Cantzelie, Document og Allktaner hefur í sinne Vardveitslu.

Hier næst er Erkebiskupenn til Trier, Erke-Cantzelere um Franckarike.

Sídan Erke-Biskupenn til Cölln, Ríkisinns Erke-Cantzelere um Italiam edur Valland.

Kóngurenn í Bóhmen er Erke-Skeinkiare.

Furstenn af Báyern, er Erke-Matbere. (Bordberare) og ásamt, Hofmeystare.

Hertog-

Hertogenn af **Sachsen, Erke-Marskalk**, sem ber Sverded undann Keysaranum.

**Margreifen** af **Brandenborg** er **Erke-Cammer-Herra.**

**Pfaltz-Greifenn** vid **Rhin**, er **Erke-Skattmeystare.**

Þesser eru, þeir fordum daga Nafnfrægu **Churfurstar**, i þeirra Vallde stendur ad **utvelia eirn Keysara**, og þeim er uppálagt **ad sia fyrer**, ad hid Römverska rike verde ecke kallad Erfdarike.

Hinn **Annar** limur under (Hofdinu) Keysaranum, eru hinir adrer Rikisins Furstar, andleger og Verdsleger.

**Erke-Biskuparner, Magdeborg, Saltzborg, Bisantzen.**

**Biskuparner, Bamberg, Würtzborg, Worms, Speyer, Straßborg, Augsborg, Costens, Hildesheim, Eichstad, Paderborn, Chur, Münster, Osnabrück, Passau, Freysingen, Basel, Regensborg, Lübech, Lüttich.**

Þeir **Verdslegu Furstar**, Erke-Hertugarner af **Austur Rike, Hertugarner** til **Báyern, Sachsen, Lothringen, Burgund, Gülich, Cleve** og **Berge. Brunsvik, Pfaltz-Báyern, Pommern, Mechlenborg,**

Lüne-

Lüneborg, Lauenborg, Holstein, Würtenberg.

Marggreifarner, Brandenborg, Meissen, Mähren, Baden, Lausenitz.

Landgreifarner, Hessen, Thüringen, Leuchtenberg, Elsaß.

Furstarner til Anholt.

Borggreifarner til Nürnberg, til Magdeborg.

Greifarner til Tyrol, Henneberg, Schwartzenborg, Nassau, Fürstenberg, Hanau, Solms, Witchenstein, Rappin, Schaumborg, Manßfeld, Barbey, Oldenborg, Lippe, Hoe, Delmenhorst, Waldeck, Tübingen.

Abootarner til Fulda, Herßfeld, Kempten vid Bótnasióenn, Salfelden.

Proofastarner til Weissenborg, Elwangen.

Þýsku = Ordunnar Meystare, Malteser Riddarar, Prófastar, Abbadíser, Commentureyer og adrer af Þýsku Ordunne.

Fryherrarner til Sultzborg.

Hinn **Pridie** limur under Keÿsaranum, eru **Rikis-Staderner**, so sem **Augsborg** i **Schwaben**, **Cölln** vid **Rin**, **Collmar** i **Elsaß**, **Dortmünd** i Westphalen, **Dünckelspiel** i Schwaben, **Franckfurt** vid Máyn, **Fried-berg** i Wetterau, **Goßlar** i Brunsvikur lande, **Hagenau** i Elsaß, **Hall** i Schwaben, **Haylbron** i Schwaben, **Ham-borg** i Nidur-Saxlande, liggur vid Elvina, hefur 14. Kyrkiur, medal þeirra er i S. Catharinæ, Predikunar-Stóll og Skirnar-Fontur, i S. Peturs Fontur, og i Domkyrkiunne Predikunar Stóll af Marmara- og Alabasturs-Steinum, fagurt og prídelegt ad lita; **Kempten** i Allgau, **Lindau** vid Botn Sióen, **Lü-bech** i Nidur Saxlande, liggur vid **Trave**, sem er eitt vatn, rikt af Skipum, hefur 12 Kyrkiur, i S. Mariæ, so sem Hof-udkyrkiunne, bak vid Alltared er ad lita eina yfermáta kostulega Heims-Toblu, af hverre menn kunna ad siá, hvernenn á Túng-lenu stendur, og hvern Mánadardag madur eige ad skrifa; J þes-sarre Kyrkiu eru 3. **Capellur** af eintómis Messing; J eirne annare **Capellu**, er ad siá tvo háfa Steinstólpa, sem hvor fyr-er sig eru hoggner úr einlægum Steine.

Uppe yfer Kyrkiunne hánger i einum sierlegum Turne ein velhliómande Klucka, sem vid hvoria heila og hálfa Kluckustund, spilar eirn andlegann Saung, so rett efter lage og Nótum, ad hvor eirn, ecke einasta med lystesemd helldur med Forundran má hlída þar á.

Þeßslags Kluckur heira menn hríngia i Hamborg, hvar hinar stóru Kluckurr, um 12tu Stund Dags og 5tu Aftans, spila eirn andlegann Psálm.

J Dómkyrkiunne til **Lübeck** er ad siá eitt príðelegt Mariu Líkneske, med Barnenu **Jesu**, af Leir edur Límsteine, so nett tilbúed, ad menn kunna ad siá hvornenn Ædarnar liggia á hondunum.

Líka er hier, so vel sem í S. Peturs Kyrkiu ad siá eitt kostulegt Sigurverk.

Á Rádhúsinu, sem ei er miog lítilfiorlegt, siá menn nockra upptródna Lionsbelge, sem eins eru til ad líta, sem þad være natturleg lifande Lión.

Ráds Vínkiallarenn er á Nóttunne vaktadur ecke af monnum, helldur yfermáta stórum Hundum þar til sierdeilis vondum, hvorier þó á dagenn gánga lauser, og giora aungvum Skada.

Þetta er enn nú markverdugt, nefnel. ad nær Borgmeystararner og Rádherrarner gánga til Rádhússins, ad þar gengur ecke hvor ein Persóna frá sínu Heimkinne strax í Rádhúsid, sem annars Stadar plagar ad ske, helldur safnast Herrarner samann hvor med odrum í Mariu Kyrkiu, sem stendur nálægt Rádhúsinu, bída þar, hierum eirn fiórdúng Kluckustundar, sídann er hríngt eirne litille Klucku, gánga þeir so þar efter, eirn Marskalk á undann, sídann hiner adrer Herranna, Þenarar, aller beyhofdader, undann Borgmeistorunum og Rádherrunum, þar á efter filgia:

1.) **Borgmeistararner.**

2) Sindici, (edur Ta smennerner,) og

3.) Hiner adrer sem Rettinum þena

2 og 2 til samans hvor med odrum, ad sídustu filger Borgmeistara Skrifarenn, og sídande Þenarar.

Eitt

Eitt gott Verk og ásiálegt til ad líta, eru Múrarner, sem bigder eru á Strætinu fram undann S. Annæ Kyrkiu, í hvorium daglega dags er Matur gefenn meir enn 300 fátækum Bornum, af hvorium fiølde finst í heima húsunum; þeir eru vegna sinnar hædar undrunaverder ad siá.

Hier er líka vid Sæ. Annæ Kyrkiu eitt Tugthús, hvar beldig og óhlíded Fólk er hept, og í taume hallded.

**Münster** í Gregorii Dal, **Mülhus** í Thüringen, **Nürnberg** í Francken lande, **Nordhus** í Thüringen, **Nordlingen** í Schwaben, **Offenborg** í Elsaß. **Pöppingen** í Schwaben, **Regensborg** í Bäyern, **Rotenborg** vid **Tauber**, **Rodweil** í Schwaben, **Schlettstad** í Elsaß, **Speyer** vid Rihn, **Turckheim** í Elsaß, **Tull** í Lothringen, **Uberling** vid Botn sióenn, **Ulm** í Schwaben, **Wangen** í Schwaben, **Weissenborg** vid Rhin, **Wetzlar** í Hessen, **Wimpffen** vid Neckersióted, **Worms** vid Rhín.

# I. Tabla
## yfer þau, sem teliast fioorer og fioorer í hvørre Stett.

So sem:

4. HERTOGAR.

Brunswik, Bayern, Schwaben, Lothringen.

4. LANDGREIFAR.

Thüringen, Hessen, Liechtenberg, Elsaß.

4. MARGGREIFAR.

Meissen, Brandenborg, Mähren, Nedre-Baden.

4. BORGGREIFAR.

Magdeborg, Nürnberg, Reineck, Stromborg.

4. GREIFAR.

Cleve, Schwartzenborg i Saxlande, Cilien edur Gretz, Savoyen.

4. HEER-GREIFAR.

Flandern, Tyrol, Aldenborg, Ferrar.

4. HOFUD-MARSKALKAR.

Pappenheim, Gülich, Meissen, Finstingen.

4. GEFURSTA KLAUSTUR.

Fulda, Kempten, Weissenborg, Murbach.

4. RIKES-BERG.

Münsterberg, Friedberg, Heydelberg, Nürnberg.

4. RIKIS-BORGER.

Altenborg, Magdeborg, Rotenborg, Meckelborg,

4. FRIHERRAR.

Limborg, *Thusis von Raro*, Westurborg, Aldenwalden.

4. RIDDARAR.

Andlau, Meldingen, Strondeck, Fronßberg.

4. HOFUDSTADER.

Augsborg, Aach, Metz, Lübeck.

4. ÞORP.

Bamberg, Ulm, Hagenau, Schlettstadur.

4. BENDUR.

Cölln, Regensborg, Costentz, Saltzborg.

4. RIKIS KOSNINGARMENN.

Ingelheim, Altorff, Lechtenau, Deckendorff.

4. LANDHERRAR.

Meyland, Layter, Padua, Mirandula.

4. JAGARAR (Veidemenn.)
Horn, Urach, Schonborg, Metsch hiá Chur.
4. SKSLUR Hertugadæmisins Schwaben.
Matberenn af Waldborg, Skeinkiarenn af Rabach.
Marskalken af Marckdorff, Cammerherrañ af Kemmat.
4. ÞJOONAR.
Waldeck, Arnßberg, Rabnau, Herrarner af Fulchen.

## II. Tabla.

## Uppteiknum allra Stands-Persona þess heila Romverska Rikis, hvørier til Rikisdaganna citerader edur stefnder verda.

### I.

### Þeir Siø Kiørfurstar

3. Geistleger.

1. Mäynß Erke-Cancellere i Þýskalande.
2. Trier, Erke Cancellere þeirra Frønsku Landa.
3. Cölln, Erke-Cancellere þeirra Vallendsku Landa.

4. Verdsleger.

1. Bäyer Furstenn, Erke-Matbere.
2. Sachsen, Erke-Marskalk.
3. Brandenborg, Erke-Cammerherra.
4. Pfaltzgreifenn vid Rhin, Erke-Skattmeistare.

### 2.

### Þeir Geistlegu Furstar.

3. Erke-Biskupar.

1. Magdeborg, hann geingur fyrer þeim øllum.

 2.

2. Saltzborg, Arva Legate þess Páfalega Stóls.
3. Bisantz.

### 3.
21. Biskupar.

| | | |
|---|---|---|
| 1. Bamberg. | 8. Costentz. | 15. Basel. |
| 2. Würtzborg. | 9. Paderborn. | 16. Regensborg |
| 3. Worms. | 10. Hildesheim. | 17. Lübeck. |
| 4. Speyer. | 11. Münster. | 18. Camerach. |
| 5. Straßborg. | 12. Oßnabrück. | 19. Lüttich. |
| 6. Eichstad. | 13. Passau. | 20. Trient. |
| 7. Augsborg. | 14. Freysingen. | 21. Brixen. |

## Þesser Furstar af þvi Geistlega Standinu verda med reiknader, og fyrer Fursta halldner.

1. Groß-Meistarenn þeirra Þýsku Riddara Ordu.
2. Abootenn af Fulda, Keysarinnunnar Erke-Cancellere.
3. Abootenn af Hirßfelden.
4. Abootenn af Murbach.
5. Abootenn af Kemten.
6. Meystare Johannita Ordunnar í Þýskalande.
7. Proofasturenn til Elwangen.
8. Proofasturenn til Berchtelsgaden.
9. Abootenn af Corvey.
10. Abootenn af Prüm.
11. Abootenn, til Stabel.

4. Þeir

Þeir Verdslegu Furstar. Sem eru af 18. Husum.

1. **Erke-Hertogarner** af Austur-Rike, sem eru af 2. Linum, (edur Ættum.)
Þeir af Keysaranum Ferdinando i Þýskalande.
Og þeir Sponsku, af Keysaranum Carl, so sem Hertogar i **Burgund.**
2. **Hertugarner** i **Bäyern**, lika af 2. Linum:
Þeir **Pfältziſku**, og hiner **Bäyeriſku.**
3. **Hertugarner** i Sachſen.
4. **Margreifarner** i Brandenborg.
5. **Hertugarner** i Brúnsvik og Lúneborg.
6. **Hertugarner** i Gülich.
7. **Hertugarner** i Würtenberg.
8. **Landgreifarner** i Heſſen.
9. **Margreifarner** i Baden.
10. **Hertugarner** i Pommern.
11. **Hertugarner** i Mechelborg.
12. **Hertugarner** i Sachſen-**Lauenborg.**
13. **Hertugarner** i Holſtein.
14. **Landgreifarner** af Leuchtenberg.
15. **Hertogarner** og Savoyen.
16. **Furſtarner** af Anhalt.
17. **Hertugarner** af Lothringen.
18. **Gefürſtarner**, **Greifarner** af Ahrenberg, hvorier af Keysaranum Maximiliano Odrum, voru fyrſt bætter vid tolu Furſtanna.

5.

Þeir

## Þeir Geiſtlegu Prælatar, Abootar, Abbadiiſer og Prooſaſtar.

1. Reichenaw.
2. Weiſſenborg.
3. Weingarten.
4. Salmansweile.
5. Walckenrieth.
6. Weiſſenau.
7. Schuſſenriedt.
8. Roggenborg.
9. Ochſenhus.
10. Gegenbach.
11. Marchthal.
12. Odenheim.
13. Eichingen.
14. Jrſer.
15. Wettenhus.
16. Peturshus.
17. Kåyſersheim
18. S. Heimeran í Regensborg.
19. Můnſter i S. Gregorii dal.
20. Můnchen og
21. S. Cornelii Můnſter.
22. Werden.
23. Urſperg.
24. Rad.
25. S. Ulrich.
26. Augsborg og
27. Einſiedeln.

### Abbadiſer.

1. Quedlingborg.
2. Eſſen.
3. Herwerden.
4. Nedre-Můnſter í Regensborg.
5. Efre-Můnſter í Regensborg.
6. Lindau.
7. Gerenrode.
8. Buchau.
9. Rott-můnſter
10. Hochbach.
11. Gutten-Zell.
12. Beinten.
13. Gandersheim og
14. Andlow.

### 6. Greifar og Fri-Herrar.

1. Helffenſtein.
2. Luppen.
3. Montfort.
4. Fůrſtenberg.
5. Zimbern.
16. Erbach.
17. Schwartzborg
18. Leiningen.
19. Hanau.
20. Naſſau.
31. Tůbingen.
32. Manſfeld
33. Stolberg.
34. Barbey.
35. Gleichen.

6. Everstein.
7. Hohen-Geroltzeck.
8. Ottingen.
9. Reupolskirk.
10. Sultz.
11. Erbtruchsessen.
12. Hohen-Zollen.
13. Castell.
14. Hohenloe.
15. Limborg.
21. Eisenberg.
22. Solms.
23. Salm.
24. Wiñenberg.
25. Wild.
26. Manderscheid
27. Falckenstein.
28. Eberstein
29. Sain.
30. Tengen.
36. Reussen
37. Wied.
38. Austur-friesland
39. Lippe.
40. Olden-borg.
41. Wal-deck.
42. Bent-heimb.
43. Brünn-eckhorst.
44. Orten-borg og
45. S. Sch-aumborg.

## Fri-Herrar.

1. Schonborg.
2. Kirchingen.
3. Pirmont.
4. Baumgarten.
5. Graveneck.
6. Mechselrein.
7. Fraunhoffen.
8. Fugger.
9. Fleckstein.
10. Steincheim.
11. Steinkiareñ af Tautenberg.
12. Herrarner af Birnbaum og
13. Herrarner af Degenberg.

## 7. Fri-Rikis Stader.

1. Regensborg.
2. Nürenberg.
3. Rottenborg vid Taúber.
4. Weissenborg vid Nordgau.
5. Schwäbisch edur Donawerth.
6. Weinßheimb.
7. Schweinfurt.
8. Wimpffen:
9. Heylbrunn.
10. Schwäbischen Hall.
11. Nördlingen.
12. Dünckelspiel.
13. Ulm.
14. Augsborg.
15. Giengen.
16. Boffingen.
17. Arlen.
18. Schwäbisken Gemünd.
19. Eßlingen.
20. Reutlingen.
21. Weil.
22. Pfullendorff.
23. Kauffbauern.
24. Uberlingen.
25. Wangen.
26. Jsen.
27. Leukirch.
28. Memmingen.
29. Kempten.
30. Buchhorn.
31. Ravensborg.
32. Biberach.
33. Lindau.
34. Costenz.
35. Straßborg.
36. Käysersberg.
37. Collmar.
38. Schlettstadur.
39. Rothweil.
40. Hagenau.
41. Weissenborg vid Rhin.
42. Obernehm=heim.
43. Rostheim.
44. Speyer.
45. Wormbs.
46. Franckfurt.
47. Friedberg.
48. Wetzlar.
49. Cölln.
50. Aach.
51. Offenborg.
52. Lindau.
53. Gegenbach.
54. Zell vid Hamersbach.
55. Lübeck.
56. Hamborg.
57. Dortmund.
58. Mülhus í Thüringen.
59. Nordhus í Thüringen.
60. Goßlar.
61. Thurckheim.
62. Verden.
63. Münster í S. Gregoriidal.
64. Herverden og
65. Camerich.

Annars verdur því heila Römverska Ríke skipt í viß Bigdarlög, sem kallast þeir Þýsku **Crays** (edur Hríngar.) So sem: 1. **Francken**, 2. **Bäyern**, 3. **Schwaben**, 3. **Austur=Ríke**, 4. **Rhinstraumeñ**, 6. **Churfurstana vid Rhin**, 7. **Nídurlanded**, 8. **Efra Sachsland**, 9. **Nedra Sachsland**, og 10. **Burgund.**

Underliggiande Þýskalands Herod eru: **Elsaß** sem nær allt til **Schweitz**, og hefur í sier Stadena **Freyborg**, **Breysach**, og

og nefnelegaſt **Straßborg**, á Latinu Argentina; hveriar prydelege Turn er 574 Feta hár.

**Wűrtzborg**, nær ad auſtannverdu til **Schwaben**, nordannverdt til **Francken**, Veſtann fram til **Pfaltz**, þar rennur Flióted **Necker** midt í gegnum.

**Franckenland**, hefur **Schwaben** ad Sunnann verdu vid ſig, og **Efre Pfalts**; ad veſtannverdu, **Pfaltz** og **Rhín**, Auſtann fram þañ **Bőmiſka** Skóg, enn ad Nordann verdu **Heſſen** og **Thűringen**, og er **Wűrtzborg** Høfudſtadurenn, á Latino Herbopolis, fagur og álitlegur vid Ana **Mayn**, yfer hvoria biggd er ein koſtuleg brú, til þeſſ Slots ſem liggur á þvi háa biarge, er kallaſt **Vorrar=Fruerberg**, eirn vel feſtur Stadur; næſt þeſſum er **Bamberg**, **Franckfurt** vid **Máyn**, nafnkendur Stadur vegna Keyſara valſins, gegnt honum liggur hinumegen vid **Máyn**, Stadurenn **Sachſenhus**.

**Schwabenland** nær ad auſtannverdu til **Bőhmen**, Nordan fram til **Franckenlands**, Veſtann til vid þad er **Elſaß**, og **Báyern** ad Sunnannverdu. J þeſſu lande hefur Aeñ **Donau** ſín Upptok. Hinir fornemſtù Stader þar eru: **Augsborg**, á Latinu Augusta Vindelicorum, ecke litill Stadur, þar var Anno 1530, ſú Augsburgiſka Játning, afhendt Keyſaranum Carl V. og tekur þar af ſitt nafn. **Ulm**, velumgirdtur Stadur, liggur vid **Donau**, og **Nőrdlingen**.

**Bőhmen** hefur auſtanverdt vid ſig **Máhren** og **Schleſien**, ad Sunnann verdu **Auſturrike** og **Báyern**, Veſtann fram **Efre Pfaltz** og **Voigtland**, enn Nordann vid ſig **Sach**-

ſen og **Meiſſen**, hinn ſtóre **Böhmiſke** Skógur liggur þar allt um kríng, **Elfan** og **Mulda** renna þar í gegnum: **Prag** er Hofud Staduren, og verdur ſundurdeildur i **Gømlu Prag**, **Nya Stad**, og **Litlu Sídunna**, hvar **Mulda** ſkilur á mille, yfer hveria ad liggur ein Steinbrú.

**Mähren** hefur auſtann fram vid ſig, **Polen** og **Ungern**, ad Veſtann verdu **Böhmen**, til Sudurz Auſturríke, og Nordann verdt **Schleſien**, er meſta part Fiøllum vaxeñ.

**Schleſien** hefur til veſturz **Böhmen** og **Lauſnitz**, ad Auſtanverdu **Polen**, **Mähren** Sunnann fram og **Brandenborg** ad Nordann, Hofudſtadurenn er **Breßlau**.

**Lauſnitz** liggur ad øllu millum **Elfarinnar** og **Oder**, nær ad ſunnann verdu til hinna **Böhmiſku** Fialla, þar eru Staderner **Bautzen** og **Sittau**.

**Meiſſen** hefur til auſturz vid ſig **Lauſnitz**, ad Sunnann verdu **Böhmen**, Nordann fram **Brandenborgar** Mørk, og nockurn part af **Efre Sachſen**, enn Veſtann fram **Thüringen**. **Dreßden** liggur vid **Elfina**, yferum hvoria ad bigd er ein koſtuleg Steinbrú, til hinnar Gømlu **Dreßden**, er þad Churfyrſtalega Sæte. **Leipzig**, þar er eitt Univerſitet.

**Thüringen**, hefur Auſtannverdt vid ſig **Saal**, ad Nordann verdu hinn ſtóra Skóg. **Erfurt** er Hofudſtadurinn, eirn med þeim ſtærſtu i Þíſkalande. Hier hánger hin mikla Klucka, ſem ſagt er ſie hin ſtærſta. Her næſt er **Weymar**, ſídann **Jena**, hvar ad er eirn Háſkóle.

Heßen-

**Hessenland** hefur Austan til vid sig **Thüringen**, ad Sunnann verdu **Francken**, Vestann fram **Westphalen**, fyrer Nordre **Brunsvikur** land og Stifted **Minden**. **Marpurg** er eitt Universitet, þar hiá steudur á háu Fialle eitt prívelegt Slot, **Cassel** er Residents-Stadur, her er og innanlandz Greifadæmed **Waldeck**.

**Sacksenland**, þær under lá fordum daga **Westphalen**, Furstadæmed **Anhalt**, Greifadæmed **Mansfeld**, og allt þad sem liggur millum **Rin**, **Elfarinnar**, Þýska Haffens og Fliótsins **Eyder**, inntil **Hessen** og **Thüringen**, enn nú er því skipt í **Efre**- og **Nedre**- **Sachsen**. J þeirre fyrre er **Wittenberg**, vid **Elfina** Hofudstadur, og Háskóle, þar er Martinus Lutherus jardadur. Til Nedre **Sachsen** heirer **Brunswik**, **Mechelborg**, **Lüneborg**, **Lauenborg**, **Holstein**, **Stormarn** og **Ditmersken**.

**Westphalen**, nær ad Austanverdu til **Wáser**, hefur Nordann fram vid sig **Friesland**, og Stifted **Utrecht**, ad Vestannverdu **Rin**, og fyrer Sudre þau **Hessisku** Fioll. Þar eru fornemstu Stader, **Münster**, **Minden** og **Osnabrück**.

**Pfaltz** var á fyrre tídum, hid fegursta og ríkasta Furstadæme í heila Þýskalande, enn er vegna 30 ára Strídz, so úr sier genged, ad þad hefur misst sitt prívelega álit, jafnvel þótt þad nú um nockurn tíma hafe temmelega rett sig vid aftur.

Þad Churfurstalega Residentz og Universitet er **Heydelberg**, eitt yfermáta lystelegt Pláß, hvarvid þad Furstalega Slot, er eitt kostulegur Lystegardur, þar eru Arnar **Rin** og

Necker, samt Staderner Speyer og Worms; Francken-dalur og Creutznach liggia þar og í Grend.

Erke-Stifted Trier, nær ad Nordannverdu til Greifadæmisinz Nassau, austannverdt til Hessen, Vestannfram ad Lützenborgar lande, og ad Sunnanverdu til Lothringen, þess Hofudstadur er Trier, eirn af þeim elldstu í Heiminum.

Båyerland hefur Nordann verdt vid sig Franckenland Vestann fram Schwaben, fyrer Sudre Alpes Fioll, og ad austann verdu Böhmen og Austur-Rike. Þar er Flióted Donau, vid hvört ad Jngolstadur stendur, hvar ad er eirn Háskóle. Regensborg er og so vid Donau, hvar aller Rikisdagar halldner verda.

Austur-Rike hefur Austann fram vid sig Ungaren, til Sudurz Steyermark, ad Vestanverdu Båyern, og Måhren fyrer Nordre. Þess Flióter edur Ar, eru Donau og Ens. Wien er Hofudstadurenn, og eitt Universitet, sem og hinnz Rómverska Keysara Residentz, liggur vid Flióted Donau.

Steyermarck hefur Nordannverdt vid sig Austur-Rike, til Vesturs Kårndten, ad Sunnanuverdu Friaul og Krain.

Þad hærsta Cammer og Audientz hins Þýska Rikis er í Speyer, hvar allar Stands-Persónur mega á móte taka og úrskurda Dóms- og Rettar-Saker, Cammer-Dómarenn er nú á þessum dogum, Margreifenn til Baden-Baden, og hefur med sier 6. Rád, 2. Greifa edur Fríherra, 2. Adalmenn, og 2. Loglærda, hver Churfurste hefur og eirnenn sinn Assessorem, somuleidis, hver Crayß sinn.

A Rikisdeginum er þesse Regla halldenn: Þegar hanns Keysaralega Majst. hefur setst á sinn Thrón, þá sest Erke-Biskupen af **Trier** andspænis mót honum; Til hægre handar hanns Keysaralegu Majst. Curfursten af **Maynts** hid næsta, þar nærst Churfursten af **Bäyern**, og hin þridie frá Margreifen af **Brandenborg.**

Til vinstre handar Hanns Keysaralegu Majst. situr Erke-Biskupenn af **Cölln**, Honum næst Hertogenn af **Sachsen** og hinn þridie frá Pfaltz-Greifen vid **Rin**, og er þessare Reglu halldeð i Rikis-Sætunum.

J þeirre openberu Procession gengur so til: skamt undan Hanns Keysaral. Majst. gengur Erke-Biskupenn af **Trier** aleirn, herefter filger Keysarenn, Honum til hægre handar, gengur Churfursten af **Maynts**, til vinstre Churfursten af **Cölln**, sidann filgia efter Kosungu, Kónguriñ i **Böhmen**, og 4. Verdsliger Churfurstar, **Beyern**, **Sachsen**, **Brandenborg** og **Pfaltz.**

Fyrrum var eingenn fyrer Keysara halldenn, sem ei var af Páfanum krindur þar til i Róm, enn nú i krafte þeirrar Gyllne bullæ (edur Rettarbótar Keysarans Carls IV.) verdur einn Rómverskur Keysare af Churfurstunum sameiginlega útvalenn og krýndur.

Þegar háar og þúngar Saker fyrerfalla, verda þær á þeim almennelegu Rikisdogum úrskurdadar og áliktadar.

A þessum Rikisdogum er nú þad hærsta Rád Churfursten i sinu Collegio.

J ødru Rádinu eru þeir Geistligu og Verdzligu Furstar, Greifar og Fríherrar.

J hinu þridia, Frí Rikes-Staderner, og verdur þeirre Reglu halldeð, so af Fioldanum skule eckert rugl edur óeiníng ske: Þvi af hvorin Rádinu verda tveir menn útvallder, sem þeirra Vota (edur Urskurde) giorda, edur væntanlega skule til kynna gefa. Keysarenn giefur, fyrer þar til skickada Sendemenn, sína Proposition í liós; þegar það er skeð, stendur hver eirn upp, og rádslaga um Sokina, gánga og jafnvel nockuð affidis á medann, Churfurstanna Vota (edur Urskurder) eru mest metner, og á þeim þiker helldst ríða; enn almennelega að segia, zengur á þeim Þýsku Rikisdøgum miøg andverdt til, í því að Furstarner eru sialdann Persónulega nálæger Siálfer, helldur senda einasta sína tilskickaða, sem giora miked mas og óeníng, hafa ei helldur ánægianlega Fullmagt, so að við þessar Samkomur verdur annaðhvert líteð, edur á stundum eckert áliktað.

Hvað Trúarbrogðenn í Þýskalande áhrærer þá var þar hier um fyrer 120 árum, hin Rómversk-Catholska Religion æfd og brúkuð yfer allt Þýskaland.

Enn Anno Christi 1516 skede sú stóra Umbreiting fyrer Lutherum, og brautst sterkara ut Ao. 1517. þá Lutherus tók til að setia sig á móte Páfanum, og skrifa á móte hanns Afláts-brefum.

Enn hvað Lutherum hafe dregeð hier til eru imsar meiníngar um, nockrer hallda það hafe vereð holldleg vandfýsne og óþocke, sem Múnkarner af Augustina reglu, af hvorra hóp Luthe-

Lutherus var, høfdu fenged til Jacobinanna, edur Dominican Munkanna, fyrer þad Páfen Leo X. hafde teked þá fram fyrer Augustinana, og skipad þeim ad predika úm Aflátz-Fríheitenn og bióda brefenn til sölu, hvad Augustinunum stórum misþócknadest, einkum Johann von Staupitzen, sem var Augustina General Vicarius, og Marthino Luthero, hver á þeirre tíd var Lector edur Kennare H. Skriftar vid Universiteted í **Wittenberg**, hvarfyrer þeir hafa teked sier fyrer ad kollkasta þessum Setnínge og snúa því upp sem nidur horfde.

Enn adrer, so sem Acatholici hallda stadfastlega ad Lutherum hafe hier til hrært, Gudleg og Christeleg vandlætíng, þar hann sá ad Menn villdu sella Gudz Nád, Fyrergefníng Syndaña, Rettlæted, Já, Himnaríke, fyrer Gialld og Peninga, hvad þó Christur med sínu Dyrmæta Blóde afrekad hefur, og þeim einum verdur til Nota, sem þad med sannre trú medtaka, hvarfyrer Lutherus hefur sier fyrer hendur teked, vegna Gudz Dyrdar, þetta verk med stærstu Kappzmunum, og rett Christelegre Vandlætíñgu, og því stoduglega framhallded til sinnar Endalyktar.

Anno Christi 1523 og 1524 kom í liós Lærdómur og Kenníng **Zwingels**, er hann predikade um þá H. Kvølldmáltíd, (nefnelega: ad Madur medtæke ecke i Sacramentinu, sannann Líkama og sannarlegt Blód Christi, helldur einasta til Minningar Christi Pínu, einsamallt Braud og Vín, móte hverin Lutherus á annann hátt kende og Predikade,) í hóp med honum slóst Johannes Calvinus úr Frankaríke.

Hiner fyrstu, sem medtóku Lutheri Lærdóm voru þeir í **Mansfeld**, so sem hanns Landzmenn. Efter þá hiner Sax-

verskn, hvorra Churfurste ad tók Lutherum under sitt skiól og Forsvar, og sette hann til Háskólans i Wittenberg, sidann þarefter útbreiddest hanns Lærdómur æ vídar og vídar.

Anno 1655. þann 25. Septembris var efter Churfurstans af Saxen skriflegre Skipann til allra Evangeliskra Landzparta, og so eirnenn hier i Hamborg, halldenn þar fyrer ein almenneleg Jubil- og þacklætis Hátíd, ad þá voru á því áre 1655, þann 25. Septembris, Hundrad ár lidenn frá Ao. 1555, þegar í Augsborg var auglýst openber Forordníng, ad hiner Evangelisku skylldu hallda sinne Religion frý og ókreinktre.

Hvörsu ad Lutherus var Anno 1521. Stefndur til Worms af Keysaranum Carl V. og hvad þar vid hann framfór, edur hvad annad er um hann ad segia; vitnar mín Historiska Cronica med odru fleira.

Afsigkomulag Trúarbragdanna nú á dogum, í vorum Þýsku Landzportum, er so sem filger, nefnel:

Baden, Bäyern og Margreifadæmed Baden, eru Rómversk-Catholsker.

Churfursta dæmed Saxen yfer allt Luthversk.

Churfurstenn af Brandenborg, og Chur-Pfaltz, eru Calvinisker, enn Adalfólked og Undersátarner sumpart Calvinisker, sumpart Luthversker.

Brunswik, Pommern, Mansfeld, og mestur Partur Rikis-Stadanna eru Luthversker.

Hessen-

Hessen-Cassel og Anhalt, Calvinisker.

Erke-Biskupsdæmen, Máynz, Trier, Cölln, filgia Rómversk-Catholskre Religion. Stadurenn Speyer brúkar Luthrersk-trúarbregd. J Hildesheim er Fólked Luthversk, enn þeir Geistlegu Rómversk-Catholsker.

Schlesien er olldúngis Luthversk.

Austurrike allt Rómversk-Catholskt, somuleidis Báyern, enn hvornenn efterleidis verdur ástadt um̄ Trúarbrogden í Þískalande, þad stendur alleina í Vallde Gudz almáttugs, og er so uttalad um̄ Þískaland.

briósts, og ad dylia vel sinna Spánska Rádslag. Kvennfólked drekkur þar skialdann Vín, gánga ecke helldur opt út á Goturnar, so menn siáe þær ecke.

Edalfólked fer ecke so út af Húsinu, ad ei gánge einn Kallmannspersona á undann, og nockrer Þenarar á efter.

J sinne Hússtiórn lifa þeir sparsamlega, og nær eitthvad er bored fyrer þá, þegar þeir eru Gester, láta þeir giarnann finna sig sitiande á Skorunum, hirte þeir hvør annann í framande Løndum, brúka þeir sordann Virdíngu millum sín, eins og þeir være Herrar og Edalmenn, tala einasta um Magt áliggiande Hlute, almennelegt besta og Rikis Saker.

Þeir hafa Lofstýr fyrer, **ad þeir kostgiæfe Rettviise, samt gefe og gialldе víliuglega sierhvorium einum, þad þeim ber.**

J Orustum geta þeir meir vakad, húngur og þorsta lided, helldur enn nockurt annad Folk under Sólunne; þott þeir sieu vel Skilníngsskarper, studera þeir þo ecke miked, eru almennelega nockud melancoliser, hvarfyrer þeirra Rádslog gánga opt seint og dauflega fram, þeir brúka pragtugann Klædnad, og eru reisugleger í Framgánge.

Af sínu Módurmále hallda þeir alltíd miked, so þeir lika í Skólunum tala helldur Sponsku enn Latinsku.

Þeir eru betre Soldatar til Fóts, helldur enn Hests.

J Kvenna-Elsku eru þeir miog freker og kappgiarner, so

ad

ad marger af þeim missa Rænuna þarfyrer, og eingenn kann trúa, hversu þeir filgia sier ad i þeim Efnum, þvi til ad þocknast sinum Kiærustum, spara þeir hverke Goods nie Liif.

Annars er eingenn Stadur i heillre **Evropa**, hvar almennings Hórur sieu i meira gyllde, helldur enn i **Valentia.**

Til **Lisabon** verdur fært úr Eynne Candia þeirra Malvasie, hvørt því kostulegra er, sem það verdur leingra tilflutt.

Ur Barbarienu kemur Ledur og Edalsteinar.

Ur Englande góð Klæde.

Ur Þyskalande hreint Lín, og Nurenbergs Varníngur, sem verdur miøg vel þegenn i **Spanien.**

Ur Frankaríke Hveite og allslags Verkfære.

Ur Vestindien fiølde Nautshúda, líka Gull, Silfur og Apothekara Vara.

Ur Brasilia Sikur og mikel Bomolla.

Ur Parana Riis, Sikur, Blálendsker Slavar, Apaketter og gráer Papagoar.

Ur Austindien, Pipar, Engefer, Des, Mastix, Muskats Notur og Blóm, Regulnaglar, Burís, Camphora, Aloe og Ebenholt, sømuleidis Perlur og Gimsteinar, sierdeilis Rubinar og Diamantar.

Ur Kóngsrikinu China og Malaca, miøg miked af hvítu Silke, Porcellins-Skáler og Kier, prýdeleg Bord, Kistur og Stólar, Chinesiskt Handverk, hvar af siá má Inbyggiaranna Hagleik og kostulegar Uppáfindíngar.

Ur

Ur Persia Babyloniſk Klæde, prydeleg Tiold og Sparlok, Silke og gylline Sticke.

Øll þeſſe upptalenn Vara, verdur úr heila Heiminum flutt til Liſſabon, og þadann aftur til annarra Landa og Hierada.

Frá Liſſabon verdur fært til Indien Gríſkt og Spanſkt Vín, Silke og Lindúkar.

Til China ſtórer Koparhríngar, ſem hvoreirn verdur keiptur fyrer 1 Real og ſídann ſeldur aptur Morlendſkum fyrer eirn Ducat.

Til Braſilien ſenda þeir Vín og Klæde, jafnvel þótt þeir þar vilie helldur gánga nakter, og ætla Klædenn hinum Portugaliſku.

Til Englands verdur úr Spanien flutt Sikur, Kryddjurter og Bómolia, lika eirnenn Sallt, ſem í Portugal er grafed upp úr Jordunne, og þetta allt kemur úr Spanien til Nidurlandanna.

Nú þótt Kóngurenn, hafe ſtóra Inntekt árlega, þá eru þó aftur á mót Utgiftirnar avngvu minne, hvar fyrer hann kemſt i óbætanlegar Skullder, ſo hann ſumpart hlytur ad pantſetia Kaupmonnunum ſína Tolla.

Allt þeirra Travſt er innefaled í þeim Veſtindiſka Gull- og Silfur-flota, hvorium ſo fliótt ſem hann Heim kemur, verdur uppſkipt nær því til lokins, enn nær hann misferſt, ſem ſtundum vidber, (eins og ſkede Ao. 1628) ad Engelſker og Hollendſker hafa hann uppe og ræna hann, þá eru Spanſker af bake dottner. Enn eingenn hlutur hefur meira Skard giordt í því Spanſka Skatt-Kamere, helldur enn þad Nidurlendſku Stríd.

Hins

Hins Spanska Kóngs Nábúar eru: Tyrkiar, Franſker, Venedigſker, Portugaliſker, Hertogenn af Flórenz, General-Statarner, og Kóngurenn af Marocco, eirnenn Genua, Hertogenn af Savoyen og adrer fleire.

Kóngurenn helldur vid ſitt Höff, eirn Stór-Hofmeiſtara, fióra Hús-Hofmeiſtara, þriátíu Hof-Júnka, 24. Kammer-Junka, 10. Geheime-Kammerjúnka, 10. Kammerþenara, 3. Líf-Skraddara, 4. Silfur-Kammerlinga, 5. Bravd-Rádsmenn, 4. Sallt-fiſkes-Vaktara, eirn Munnkock og eirn Meyſtara-Kock, eirn ſem geimer Bordhnífana, eirn Portvaktara, eirn Penna ſkerara, eirn ſem paſſar uppá Tiøld og Ábreidur, tvo Líflæknara, eirn Hoff-Læknara, eirn Barbiera, tvo Apothekara, eirn Höff Skómakara, tvo Höff-Gullſmide, eirn Silkevefara, eina Hoff-Saumakonu, eina Þvotta-Konu, og adra fleire ónefnda, ſoſem Jagtþenara Stallþenara, Savngvara og þá ſem vakta Múla og Fáka.

Þegar Ríked miſſer Kallmanns Erfíngia, þá tekur Dótter vid Coronunne, fyrer þetta Medal nefnel. þeirra Gifftíngar, hafa Avſturríkis Furſtar nád til allra Spanſkra Landa og Ríkia.

Eitt er lofsverdt í Spanien, ad nær einhver Soldat verdur ſærdur í Stríde, þá veiter Kongurenn hönum, ecke einaſta Uppheldde ſina Lífstíd, helldur efter hann dáenn, forſorgar líka hans Erfíngia, hvad ed upporfar Soldatana til ad vera vaſker og vilíuger í Orrſtum.

Um Trúarbrogd er þad ad ſegia, ad hiner Spönſku bruka Rómverſk-Catholſka Religion yfer allt, kunna ecke helldur neina annarrar Trúar hiá ſier ad líða.

Og er ſo útſagt um Spanien.

# Um̃ Koongsriiked Portugal.

Næst vid Spanien liggur Kóngsríked Portugal, hvort ad er um̃hverfis 895. Spanskar Mílur; Næster Konginum í þessu litla Kóngsríke eru: þrír Hertogar, eirn Margreise, 18. Greifar, 1. Vice-Greife, og 2. Fríherrar.

Þetta Land er Frióſamt af Víne, Olíu og Kornávexte, hefur líka Gull- og Silfurgroft, og yferfliótanlega nægd af Sallte.

Stadurenn Lissabon hefur 32. Sóknarkyrkiur og í þeim̃ 20000. Hús, í hvorium ad búa hier um̃ 300000. Manns, fyrer utann þá sem eru vid Hoffed og í Rádinu.

Þar eru yfer 10000 Morlendsker Slavar, og í Stadnum verda taldar 550. stórar Götur, fyrer utann hinar minne og þreingre, og þetta er sá mikle Hondlunarstadur, sem ádur er um̃geted.

Fyrrum hafde þetta Kóngsríke sína eigenn Kónga, enn urdu þar efter undergefner Vallde hins Spanska Kóngs.

Enn Anno 1641. útvöldu þeir sier eigenn Kóng Johann IV. hvörs Sonur Alphonsus ad Nafne, kom til Stiórnarinnar efter hann.

Eyarnar, sem Spania tilheyra eru: fyrst Eyenn Majorca, hvor ed liggur í Midjardarhafinu; í henne vex Vidsmior, Korn, og gnægd Víns; Iñbyggiararner eru blódgrugt Folk, og einskis manns Viner; Mædurnar retta Bravded ad Börnunum á eirnre lángre Stavng, og þora Börnenn ecke ad eta þar af, fyrr enn þavg hafa sleged þad nidur med eirne Slavngu; Kvennfólked er yfermáta hneigt til Lavslætis og Otugtar. Eyeñ

Eyenn Minorca hefur rett skaplika Innbyggendur, og Landgiædenn hin somu.

Kóngsrîked Neapolis er nú á døgum eirn fornemste Partur af Spania Vellde, verdur skipt í 12. Hierod edur Umdæme.

I þessu Kóngsríke gefast hinir kostulegustu Hestar, sem finnast kunna, þessa má eingenn, án Vice-Kóngsins Leifis, burtselia úr Landenu.

Líka finna menn hier Uppsprettubrunna, til Lækninga þenanlega, náttúrlegar heitar Laugar, sømuleidis til margs nytsamlegar, mørg Brennesteinsfioll, med logande Hálsum og Biorgum umkríngd, hvar Alún verdur uppgrafed; þar gánga Reidarslog Sumar og Vetur.

Innbyggiararner eru fríder yferlits og vinsamleger, enn þar hiá miøg hneigder til Sællífis, þeir fornemstu búa í Neapolis, ecke þar fyrer ad Lopted sie so heilnæmt, helldur vegna þess ad Folked er so álitlegt og liúft í Umgeingne.

Menn finna ecke í heillre Evropa so mikenn fiølda af Edalmønnum, sem á Sumartímanum í Neapolis, þá þeir giøra sig gódkunnuga vid Edalfrúrnar og frambióda þeim sína greídafulla Þienustu, því þegar Frúrnar, láta flytia sig fram og aftur á sínum Stáþvognum, þá skemta þeir þeim med skravtlegum vidrædum og so þægelegre Selskaps Umgengne, líka sem þeir være, ecke uppfrædder, helldur fædder til þess, þó eru þeir þar hiá filgissamer til Framgøngu í Orustum; í Klædnade hallda þeir sig so stáslega á Gøtunum, ad þeir vilia helldur svellta þar heila dagenn, enn sleppa Pragtinne. R 2 Avdlegd

Avdlegd þessa Kóngsríkis er innefalenn í þeirre Hondlun, sem þeir drífa, med Mandelur, Saffran, Sammet, Silkes voru, Vidsmior, Vín, Hesta, Coraller og Rís.

I Trúarbrogdum eru þeir yfer allt Rómversk-Catholsker.

Kóngsríked **Siciley** er og so líka eirn Partur hins Spanska Velldis, þesse Ey er skoрt í Líkníng eins Þríhirníngs, og heyrde fyrrum til Vallande, þar eru þriú Hierod edur Landeigner, og í þeim 173. Stader.

**Siciley** hefur kostulegt Vín, sierdeilis í kríngum Siracusa, ad Lukt og Smeck líkt Muskatsnytum, þar fæst hvítur Harpeis, Korn, Hunáng, Bik, Saffran, Ull, Sikur, Mineraliskt Sallt, Gimsteinar, Marmare, Alabastur, Gull, Silfur og Járn.

Hier er líka Fialled **Ætna**, sem spýr Ellde, Enn þó alltíd ad ofanverdu þaked med Jokle.

Um þá gomlu Innbyggendur var þad Ordtak brúkad: **ad þeir byggde og erfidudu** eins og þeir villde æ og Eilíflega lifa; og **æte og drycke** so sem þeir skyllde hvern dag deya.

Þar var hiá þeim eitt Plátz, hvar madur skyllde styrkia Málefne sitt og sanna Astædu sína med Eide, á eftersilgiande Hátt:

Sá sem retta Sok villde vinna, átte ad skrifa Málsástanded á eitt Trespialld, leggia sídann Spialldед á eitt Vatn, ef hann nú fór rett, þá flaut Spialldед ofaúná því, enn ef annars var, sock þad til Botns. Sicil-

Sicileyíngar á þessum dogum eru sinnuger og af Náttúru fliót-skarper, enn hværta á stundum helldur margt, eru þar hiá miog ofundsiúker og misunna odrum, giora þó hinum Framande gott; Þeirra Trúarbroyd eru Romversk-Catholsk.

Eyen̄ **Sardinia** liggur eirnenn under hid Spanska Vellde. J þessarre Ey finnst ein Jurt, sem giorer þad, ad sá sem hana etur, deyr af Hlátre; Innbyggiararner eru hravster og filgner sier til Erviðis, vegna Sólarhitans eru þeir nockud svartbláer á útlite; þeir brúka Rómverst-Catholska Religion.

Framar heyrer Kóngenum í Spania til Hertogadæmed **Meyland**, hvort fyrrum hafde sína eigenn Hertoga, fornemste Stadur þar er **Meyland**, hanns Innbyggendur, sem finnast hier um̄ Tvo Hundrud Þúsund Tals, eru góder Kaupphondlarar og Strídsmenn, somuleidis kappsamer Ervidismenn; J Nafne hins Spanska Kóngs stýrer þessu Lande einn Kónglegur Stadarhalldare, næst Rádenu í **Meylande**, í hvoriu 12. Doctores segia Log og Rett, eru nockrer Geistleger og líka af Adle, sem Rettenn sitia.

Þær Canarisku Eyar, sem liggia í þeim Serklendska Sió, gegnt því Atlantiska Hafe, eru og so undergefnar hinum Spanska Kónge.

J Eyunne **Eyssen**, hvor aldeilis eckert Vatn hefur, siest eitt undraverdt Náttúrunnar Furdlverk, nefnelega ad þar er ad finna eitt Tre, med miklum Bladabúsk, yfer því helldur sier alltíd stadfastlega eitt þyckt Ský, þad gefur úr sier nockurn Suddaráka ofann á Blod Tresins, þesse Vokve verdur ad storum dropum á Blodunum, hvorium Innbyggiararner safna í Ker og Jlát, so

yferfliótanlega; ad ecke einasta þeir, helldur og so Dýrenn og Fenadurenn hefur fulla gnægd Vatns.

Annars hefur þesse Ey miked Bygg, Hunáng, Vax, Sikur, Savdamiólkurosta, Geitur og Ulfallda, úr þessare Ey kemur líka þad nafnfræga Canariesikur.

Innbyggiararner, hvorier fordum daga tilbádu Sólena, hafa nú þav Rómversk-Catholsku Trúarbrogd.

A Eyunne Helenæ finnst ríkuglega allt þad sem monnum þenar til Upphelldis, enn þar eru aldeilis avngver Bústader á henne, hvar fyrer allt þad, sem þar fæst, er, efter Forordníng Kóngsins af Portugal, ollum sameigenlegt og eingenn má taka þar af nockud útaf fyrer sig, sier einum til Eignar og Nota.

Hier efter filger Eyann Thomæ, á henne verda Utlender edur Framande avngver elldre enn Fimtuger, enn innfædder ná Tírædsalldre, Dagur og Nótt eru þar alltíd eins lavng; þar vaxa Melonur, Cucumer, (edur Svefngras) Kúrbís, Fíkiur, Eingefer og Sikur, Innbyggiararner eru bæde svarter og hvíter, hiner svortu eru vel ríker af Lúsum og Flóm.

Næst Thomæ liggur Eyann Madera, hvor ad Ríkdóme er hinne næsta lík.

Þær Flanderisku Eyar eru hinum Spanska Kónge eirnenn andergefnar.

A Eyunne Tercera er eirn Brunnur, kaste madur Tre í hann, verdur þad strax ad einum yfermáta fallegum Steine, so jafn-

jafnvel Kóngurenn í **Spanien** setur Forbod fyrer, ad hræra nockud vid þeim Steinum.

Hier finnst ecka eirn Jardargródur, ad stærd sem madur, her aldeilis avngvann Avoxt, nema þad, ad Ræturnar eru so miúkar þar under, ad Innbyggiararner stappa sínar Sængur af þeim; Flester Eyarbúarner eru Kistu- og Bordasmider, vegna þeß Cedrus-vidar sem þar vex, úr hvorium þeir smída falleg Skrín og Skápa; I Trúarbrogdum eru þeir Romversk-Catholsker.

A Eyunne Mosambica er allstadar fullt af Pálmavid, Hænsakioted þar er aldeilis svart, sem þad være soded í Bleke edur Bike, smackar þó rett vel.

Vegna þeß óþolanlega Hita Sólarinnar, er Loptet ecke heilnæmt, Innbyggiararner gánga sumer alsnakter, adrer klæda einasta Bligdanina, nockrer af þeim brúka Rómversk, sumer Mahometisk-Trúarbrogd.

Af þeim Eyum, sem liggia í Asia og heyra til Kónginum **í Portugal** eru:

Fyrst Eyann og Stadurenn **Ormus**, hvorrar Innbyggendur ad brúka sama Lifnadarhátt, sem Persisker og Arabisker; á Sumrenu er þar þvílíkur Hite, ad tveir og tveir liggia til samans á Næturnar í Vatne, so ei stendur uppúr nema Hofudinu.

Þeirra Hús eru lág og flatreft ofann, hafa á Riáfrenu eina Smugu edur Glugga, um hvorn þeir draga Andann og Vindenn, þeir brúka Mahometiska Trú. Þennann Stad hafa nú Persar unned under sig aftur. Eyañ

Thann og Stadurenn Dio hefur ávaxtarsom Landgiæde, og fiolda Kvikfiár, so sem Reinsdýr, Svín, Sauðfe, 2c. menn finna hier alltíd, Tyrkia, Persa, Armeniska, Arabiska og annad Fólk, so sem Benianar, Gussara og Rumossa.

Hier til heyrer Stadurenn Daman, Festingen Cananöe, Cochin, Coulon og Columbo, samt Kongsrikeð Bisinagar.

J Stadnum er Festingen Malaca; Innbyggiararner eru illgiarner, hlífast ecke vid ad fremia Mord, drygia giarnast Hór, og kveda Nýdvísur, því þeir eru góð Skálld; þeir eru ecke fráleiter Römverskre Religion.

J Landinu Cambaja tilbúa þeir falleg Tiolld og Sparlok.

Á Eyunne Banda og Amboina, vex kostulegt Muscat, hvar af Muscatsblóm teked verdur; þar er lika tilbuen Muscatsolia.

Um Eyuna og Stadenn Goa. Eyann er af siálfre ó-frióssom; þar vex ei annad serlegra enn Pálma-vín; Veturenn byrtast hiá þeim i Aprill Mánude, og Sumared i Septembri; Dagur og Nótt eru þar hart nær jafnlong Sumar og Vetur. Innbyggiararner, gánga nakter, nema þeir hylia Blygdanina, eru giarnann tómláter i Erfide, vilia helldur hlaupa upp á Hopp og Hý. Þegar þeir drecka, varast þeir ad láta Dryckiarkered snerta Varernar, helldur hella úr því so snidugleg ofann i Munnenn, ad eingenn drópe fer útann hiá.

Þegar þeir hallda Bryllaup, kemur Brúdgumenn med sin Gudfedgin, so sem stadfestu Votta; sama gierer og Brúdurenn ad sínum Parte.

Þegar

Þegar Trúlofunen er ſked gánga þad bæde med Proceſſin heim til ſín.

Brúdgumenn afleggur þá ſitt Þackłæte vid Bodsmennena fyrer veitta Nálægdar Æru, ſer ſo hvor Matar- og Dryckiar-lavs heim til ſín.

Þeir brúka þad løg, ad eingenn má læra annad Handverk helldur enn þad ſem Fader hanns hefur kennt honum, mega þar fyrer í því ſama hafa ſtór Handverks Fríheit.

Kónurnar gefa Monnum ſínum ad drecka af eirne ſierlegre Jurt, hvar af þeir falla í eirn faſtann Svefn, og verda ei vakn- er, fyrr enn ſtockt er kølldu Vatne á Fæturnar á þeim, enn á medann þeir ſofa, hóraſt þær med odrum, því þær eru ſierlega hneigdar til Otugtar.

Þeir Heidnu í Goa, bada ſig hvern Dag, já ſo opt ſem þeir gánga til þarfinda ſinna, þvó þeir ſig í kølldu Vatne, og þad allťíd med vinſtre Hendinne, helldur enn þeirre hægre, ſem þeir brúka til Matarins Navtnar, því hana vilia þeir hreina hafa.

Ríkdómur þeirra Goiſku, er innefalenn í Kavphøndlan, því þar eru til ſolu, fiolde Præla, Arabiſker Heſtar, Apothecara Vara, Dúkar og Sparlok.

Í Goa má hvor eirn brúka og æfa þá Trú ſem hann vill, hvar fyrer þar finnaſt allſlags Líder, af ollum Trúarbrøgd- um.

## Um̃ hal Nyu Verolld, edur Vestindisku Lond, sierdeilis þav, sem liggia under hiñ Spanska Koong.

Þeir gomlu meintu ad Verolldenn være eckert meira, enn þeir þrir Partarner, Asia, Africa og Evropa, og lá þeim i Vege þad stóra Atlantiska Haf, yfer hvort þeir hielldu ómogulegt á Skipum ad fara, þeß vegna ad þeir gomlu hofdu eckert sier til Leidarvísis á sínum Siglíngum, annad enn Sól og Túngl, hinn stóra og litla Biorn, samt adrar Stiornur, so þegar Lopted var Skyum þaked, og menn kunnu ecke ad siá Himintúnglenn, vissu þeir eckert frá sier, þar fyrer var þad sierleg Guds Nád, þegar hann let Flavium de Cosia af Malphi úr Kóngs ríkinu Neapolis, komast uppá ad þeckia þann furdulega Leindardóm Náttúrunñar, sem Segulsteirnenn hefur i sier; hvors Kraptur er sá, ad Járned sem med honum verdur brukt, snír sier allt íd til Nordurs, og gefur hinum Siófarande ánægianlega vissu um̃ Stefnuna, þesse Vísdómur kom i Liós, Ao. 1300. Enn þar finnst nockur Mismunur á, þvi Járned edur Compass-Málinn, i nockrum stodum vísar strax rett til Nordurs, enn i summum stodum vikur hún nockud frá, til Vesturs edur Austurs, á hvorin Athugaseme verdur ad hafa, enn nær Nordred er funded, veiter hægt ad vita hvar Vestred, Austred eda Sudred er. Efter þessarre Segulsteins brúndu Nál, hlítur allt Sióúfarande Skipsfólk sig ad retta.

Hin nýfundna Verolld verdur sundurdeild i Nórdur- og Sudur-Hlúta.

Nordurparturenn er um̃hverfis 16000. og ad leingd frá Austre til Vesturs 4000. Mýlur.

Sudur-

Sudurparturenn er líka Ummáls í kríng 16000. og á leingd 4000.

J Landareigninne Florida finna menn miked Gull og Silfur í Vatnsfliótunum og Lækiunum, og vid Siáfarstrondina Perlur, Turckosa og Smaragda.

Innbyggiararner hier eru móravder, edur sem Kopar ad lit, þótt þeir sieu hvítter fædder, í stadenn fyrer Giallds brúka þeir fallegar Siáfar-Skeliar, Herrarner klæda sig med Safala-Skinnum, enn hiner adrer gánga mestann part nakter. Sín Korne sá þeir í Martio og Junio, og uppskera þad 12. Vikum epter, sídann safna þeir því í Hlodu, sem ollum er sameiginleg, og útbluta so hvorium einum efter hanns Þorfum: Crocodi ar eru þeirra hofud Oviner, vegna hvorra þeir verda sífelldt Vakt ad hallda.

Þeir hafa þrennslags Kyn af Hiortum, af hvorium ein tegundenn lætur sig miolka, eins og Kýr hiá oß.

Menn finna marga íbland þeirra; sem hafa bæde Kallmanns og Kvennmanns Limu, sem á Latínu kallast Hermaphroditi, (á vora Túngu Tvítólader.)

Þeirra Ríkdómur er innefalenn í því ad safna Gulle, af annarre Hondlun edur Handverke vita þeir eckert, þeir trúa ad Sálen sie ódavdleg, ad odru leite eru þeir Heidner.

J þeirre Nýu Gallicia er Gull-Bergverk og fiolde Villu-dýra, Innbyggendurner sem uppehallda sier vid Sióenn, lifa einasta á fiske, enn þeir sem á Landenu búa, eru nakter og ótamder, næra sig á Villebráð, sofa á Jordunne, eta líka Manna-

 kiot.

kiot. Fyrrum vissu þeir eckert af Yfervallde ad segia, enn nú hafa Spanskerkennt þeim annad.

Landed Mechoacan er eitt af þeim bestu Hierodum í heillre Nyu-Spania, því þad Tyrkneska Hveite gefst þar fullvaxed tvisvar á Are, líka so adrer Avexter; hier vaxa eirnenn margar Jurter til Lækninga þenanlegar, annars fæst þar eirnenn miked Hunáng, svort Ambra, Sallt og Fiskur.

Innbyggiararner eru hávaxner og stollter þar med.

J Landareigninne Mexico, er heilnæmt Lopt, hier er yfermáta mikell Mórberiavidur, eirnenn mengd af Silkeormum; á Stoduvatna-Bockunum, vex Grased so kostulega, ad menn meiga slá þad fiórdu hveria Viku. Landed er fullt af Kvikfenade, so men kunna á stundum ad fá keypt 20 Pund Navtakiots fyrer eitt Kopff-Sticke. Innbyggiararner eru gódlinder og ravsnarleger, yndner og framsýner; í Strídum brúka þeir Boga, Pílur og Steinslavngur.

Landed Jucatan er í morgum stodum óbygdt, annars fæst þar Hunáng, Vax, og Flugfuglar, Innbyggiararner eru góder Strídsmenn, þá þeir draga út í Orustu, mála þeir sína Líkama svarta, til ad skióta Skelk í hina adra.

J Kóngsríkinu Granata finna menn yfermáta miked af Perlum, á stundum tvær í eirne Skel.

J Brasilia gefast morg Dýr, sem ókennd eru í Þýskalande; þar vex mikell Cedrusvidur, sem hverke fúnar, nie af Ormum etenn verdur, hann vex æred hátt, so sprettur þar og eirnen Svefngras og Melonur. Inn-

Innbyggiararner eru hid grófasta Villefólk, vita hverke af Skrift, Trúarbrogdum nie Logum, gánga alsnakter, Kallmennerner navdraka af sier Háred, enn skilia epter eirn Topp í Hnackanum, Avgabrynar raka þeir eirnig, eta allslags Dýr, Hoggorma, Nodrur, Apiniur og Kette, þá þegar þeir eru druckner, eru þeir slægare og vidsiállre, helldur enn ódruckner, þeirra dryckur er einslags Saft, pressud úr Rótum, þeir eru Galldra-Snápar, nær þeir fá einhvorta fángna í Stríde, gefa þeir þá ecke lavsa aftur, helldur steikia þá, á einum vidhafnardege, og bióda Gestum þar uppá. Sína Bústade þekia þeir med Lavfum, sofa ecke á Jordu, helldur í hángande Netium. Nidre í Vatninu geta þeir vered eina heila stund med opnum Avgum og Eyrum, þola lenge ad svellta, og efter á í sífellu nockra daga eta hvor med odrum og Rússa; Þeirra Ríkdómur er innefalenn í Bómullu og Sikre, sem þar er yferfliótanlegt.

Landeignen Chile er miog lík Evropa, því hún liggur fyrer utann Bruna-Belltid, og gefur þar fyrer af sier miked Vín og Korn, samt adra Avexte, sem finnast í Spania; þesser hafa Vetur, þegar hiá oss er Sumar, og so þvert á móte; þeirra Vatnsfoll renna fram á Dagenn hastarlega med miklum nid, enn á Næturnar med Hægd og Seinlæte; Innbyggiarorner eru hávaxner, og vel hæfer í Stríd, þeir klæda sig med Villudýrahúdum og Selaskinnum.

Kóngsríked Peru er undarlegt Land, því þar rigner hverke nie Sniófar, yfer Sió edur Jord, og ecke heyra menn þar Reidarslog.

A Andes fialle er fullt med Apiniur og Markette, so finnast þar líka; ei allsíder Papagóar; I Dolunum vex Tyrkneskt Hveiti.

 Inn-

Innbyggiararner eru í Skyckium edur Slippum Ermalausum, sem ná ei leingra enn á Hned, og á Herdumum, hafa þeir einn Heklu Kraga.

Kvennfólked stínqur Got í Varernar á sier, og setur þar inn Smaragdus Steina til Prýdis, ad lesa og skrifa er hiá þeim aldeilis ókendt, i stadenn fyrer Bækur, hafa þeir lángar Snúrur af Bómull, sem þeir kalla Qvippas, þar á hnýta þeir adskilianlega Hnúta, þá telia þeir allt til tíú, sídann uppaftur og aftur eins marga: Hnútana mála þeir med ímislegum Farva, og hafa sína vissa Notarios, hverier fyrer hiálp þessarra Qvippas, geta sagt Fólkenu, hvad fyrer mörgum Arum sked hefur. I Orustum eru þeir silgner sier, vilia helldur deya med Æru, enn ad flýa undann.

15. Mýlur frá Lima í Areqvippa, í einum Stad, sem kallast Mala, stendur eitt Fíkiutre, hvort ed á þeirre Sídunne sem horfer til Sudurs, ber Fíkiur, þegar á Fiollunum er Sumar, enn á hinne Sídunne, sem snír ad Hafenu, ber þad Avoxt, þegar Sumar er á Slettlendinu, og á Fiollunum Vetur.

I Dalnum Chiloa rigner alldrei, og ecke er þar helldur nockurt Vatnsfall, þó vex þar miked Hveite, sem er þad Tyrkneska, og þad fyrer Kostgiæfne og Atbúrde Innbyggendanna, hverier í næstliggiande Sió veida fiolda af Smáfiskum, giora so óteliande Grafer á Okrunum, láta sídann eitt Hveitekorn í Munnenn á hverium Fiske, og grafa þá so nidur. Nú verdur naumlega útsagt, hversu kostulega Korned vex þar upp af, því Fiskarner gefa því um heila Sumared nóglegann Raka og Vokva.

I Landgreignenne Qvinto, eru Innbyggiararner medal-

meim

menn ad vexte, ydner Ervidismenn, hier vex Sikur-Riß, enn og líka morg Fioll, sem gioſa Elldе, ſierdeilis eitt, sem feiker Oskunne nockrar Mílur frá sier umkríng, og menn kunna ad siá logann úr því á Náturnar meir enn 100. Mýlur Vegar.

Til avsturs hiedann liggur Balsamslanded, hvar Cinnamomur vaxa, Tred hefur Kviſtu og Blöd lík Laurberiavid, Aoextakerner eru líker Eikarnytum, Borkurenn og Blodenn gefa af sier Balsamslykt, þeir beſtu af Avoxtunum eru harder, dockrauder ad Lit, og þienanleger vid Sídustíng og Ydraverk.

Hiá Stadnum S. Crux finnast Hoggormar 12. Feta lángger, og á digurd, sem Spiotstavng, á Halanum hafa þeir Hnúta, ad Vexte sem stórar Nytur, hvorier ad eru holer innan, þeir eru so banvæner, ad ef þeir bíta nockurn þá deyr hann strax; Hier gefast og marger Strúts-Fuglar, so Soldátar sem reisa í gegnum Landed, kunna ad finna 40. eda 50. Strúts-Egg.

Innbyggiararner eru ótamed Villefólk, eta Mannakiot, þeirra Vopn eru Bogar og Pílur, þá þeir taka einhvoria til Fánga, leggia þeir þá fyrer Fæturnar á sínum Sonum, eins og þá kastad er Villudýrum fyrer Hunda, og hrósa þeim mjog sem best duga til ad hoggva þá og beria; ad kavpa og Selia er einn Hlutur, sem ecke heiteſt nefndur hiá þeim, enn ad ræna og stela er almennelegt, sína Davdu grafa þeir med Kiæte, enn taka á móte hinum Framande med Sorg, Þeir geta hleiged og gráted þá þeir vilia; Þeir eta Mavr og Madka, Hala af Crocodilum, líka Engesprettur og Hoggorma, þeir gánga nakter, Kvennfolked helldur alleinasta einu Blade fyrer Blygdaninne, Háred raka þeir úr bádum Vongunum, enn skilia efter einn Topp, í Hvirflenum, þeir kunna ecke ad telia nema til Fiogra, vilie

þeir

þeir segia Fiñ, þá retta þeir fram odru Hondina, enn skule Tíu vera, þá sýna þeir bádar. Nær einhvor vill ferdest nockud yfer Landed ad Heimann, þá leggur hann afsïdis, so marga Stafe, sem hann ætlar sier Dagana burt ad vera, enn hanns Heimafólk, tekur hvern dag eirn Stafenn frá, so þad kunne þar af ad vita, nær hann mune aptur koma.

Þeir í Grend vid S. Crux offrudu ábrgdum Afgudum, eñ dyrkudu Diofulenn bersýnelega, uppá þad hann skyllde ecke giora þeim neirn skada, drucku hanns Skál, og umgeinguft med honum.

Þeir í Peru hielldu Túngled og Skruggurnar fyrer sinn Gud, so þá Túngled Skein, meintu þeir Gud villde vitia þeirra, og tóku á móte honum med sifelldum Hliódagánge og Olátum.

Þeir af Gua Cavilca offrudu Gudum sínum Tonnunum, sem þeir felldu úr Hofdinu.

Þeir í Cusco, dýrdkudu eirn Ref.

Í þeim litla Stad Manta, tilbádu þeir eirn Smaragdus Stein, og fólu honum á Valld Líf sitt og Líkame.

Í Landenu Cinalva, bak vid Nýu Spanien **vidurkendu þeir eirn Skapara, hvör ollum hlutum stioornade,** nema Manninum.

Í Peru var sá Sidvane, þegar eirn giftur Madur dó, slátrudu þeir og grófu med honum, hanns Konu, Dætur, Þienará, og allt þad sem hann hafde framar odru kiært haft, so ad þad kynne ad þiena honum í odrum Heime.

Eiñ

Enn hinir, sem á þann Hátt blutu ad deya, súngu og hoppudu, og meintu sig fyrer þetta hólpna verda.

Vid Likforina offrudu þeir Smábornum, enn Offursprestarner, smurdu Andlit sín med Barnablódinu.

Þegar eirn meirehattar dó, lietu þeir Mat, Gull og Silfur i Grofena med, og færdu hinn davda i nyann Klædnad, so hann skyllde líta því skravtlegar út á þeim Ytstadege:

Enn nú á Dogum eru þeir mestannpart, fyrer Yferrád Spanskra, leidder til Rómverskra Trúarbragda, og rett christelegs Lifnadar.

## Tolurod Koonganna i Spanien fran Arenu Christi 716.

1. Pelagius.
2. Favila, hanns Bróder.
3. Alfonsus, Pel: Dottur Madur.
4. Frojola.
5. Aurelius.
6. Sylus, Froil: Mágur.
7. Alfonsus II. Froil: Bróder.
8. Veremundus, hins Bróder
9. Raymirus.
10. Ordonius, hanns Son.
11. Alfonsus III.
12. Garsias, hanns Son.
13. Ordonius II. hañs Bróder.
14. Frojola II. hanns Son.
15. Alfonsus IV. hañs Son.
16. Raymiras II. hañs Bróder.
17. Ordonius III. hañs Son.
18. Ordonius IV. Alf: Son.
19. Sanctius, Raym: Son.
20. Raymiras III. hañs Son.
21. Veremundus II.
22. Alfonsus V. hanns Son.
23. Veremundus III. hanns Son.
24. Ferdinandus I. Son Sanctii elldra, Kóngs i Arragon: og Navarra.

25. Sanctius II. hanns Son.
26. Alfonsus. VI. hañs Bróder.
27. Urraca hanns Dótter, og hennar Egtamadur Alfonsus Arragonius.
28. Alfonsus VII. þeirra Son.
29. Ferdinandus II. hañs Son.
30. Alfonsus VIII. hanns Son.
31. Ferdinandus III. h. Son.
32. Alfonsus IX. hanns Son.
33. Sanctius III. hanns Son.
34. Ferdinandus IV. h. Son.
35. Alfonsus X.
36. Petrus I. hanns Son.
37. Henric II. hanns Bróder.
38. Johannes, hanns Son.
39. Henric III. hanns Son.
40. Johannes II. hans Son.
41. Henric IV.
42. Isabella hanns Syster, og hennar Madur Ferdinandus Arragonius, kalladur hinn Catholiske.
43. Philippus Austriacus h. Dotturmadur, ad lifanda Máge sínum.
44. Carl V. Keysare, og I. þeß Nafns Spanskur Kóngur.
45. Philippus II. hanns Son.
46. Philippus III. hanns Son.
47. Philippus IV. hañs Son.
48. Carl II. Phil: IV. Son Hann var fæddur Anno Christi 1661. og í H: Skýrn nefndur Carolus, hann brúkade í sínu Vopene Líoon og Örn.

---

# Uñ þær Brettlendsku Eyar.
## Og fyrst:
# Uñ Koongsriiked Eingland.

Þaug þriú Ríke, Eingland, Skotland og Irland hofdu til forna, hvort fyrer sig, sinn eigenn Herra, enn eru nú á Dogum komenn under eins Kóngs Walld, sem sig kallar Koong í stoora Brettlande.

Eing-

**Eingland** hefur Nafn af þeim **Engelsaxiſku**, ſem fyrer 1160. Arum, fóru úr Þýſkalande á Skipum yferum til Einglands, og inntóku beſta Hluta Landſins, ſettuſt þar ad, og ſtiptudu þar eitt nýtt Kóngsríke.

Landslaged í Einglande, er fullt med Hálſa, þó ei miog háa, þeir eru þakter med þickvaxed Gras, af hvoriu Fenadurenn verdur ſierlega feitur, ſo ad Savdakioted er þar ecke einaſta betra, helldur enn anna ſtadar, helldur og ſo Ullenn mýkre og giædabetre, ſo menn mættu vel ſeigia, ad Savdſe í Einglande bære Gull-Reife, því þad er kunnugt, hvad mikid Gialld þeir fá árlega fyrer ſin Klæde, ſem þeir flitia til Þýſkalands, Polen, Danmerkur og Svíaríkis, og þar verda nægelega rýrt ſeld.

Þá Hlute ſem Eingland hefur til ad bera fram̃ yfer oll onnur, ſettu þeir gomlu í þetta Vers:

MONS, ET FONS, ET PONS, ECCLESIA, FÆMINA, LANA.

Þad er þeirrar Meiníngar:

Eingland græer med grøſug Siøll,
Góð Uppſprettu-Vatna Søll,
Koſtulega byggdar Brúr,
Og blómlegaſtann Kyrkna Múr,
Þar má Stúlkur frídar fá,
Og feleg Reiſe Savdum á.

Enn Okoſtur aptur á móte er ſá:
Ad næſtum því fiórda hvert Ar geingur þar Peſt, vegna þickvidris Dampa í Loptinu.

Fyrer Eiturkvikindum er þetta Land frý, og avngver Ulfsar finnaſt þar; Flióted **Tems** hefur þá Náttúru í ſier, ad þad

gengur alldrei uppyfer sína Backa, þótt þad vaxe miked í Regnum. Þeirra Hestar eru flestaller gelldter, og annars miøg avdtamder og þæger í Brúkun; Þar er fiølde Fugla, einkum Lóur og Krákur, og þar kann vel eckert Land vera sem fleire Hrafna edur Krákur hafe, Fisk brestur þá ecke helldur, einkum Geddur; Þar fæst líka Silfur, Gull, Tin, Blý, Kopar, og Járn; Hier finnst Agatsteinn, sem ecke lítur vel út, enn hefur þó Koste til ad bera, hann logar nidre í Vatnenu, og verdur ei slocktur nema þar sie hellt í Oliu, enn Vín Specerie, Vidsmior og Vidar Avexte, mega menn flýtia til þeirra frá ødrum Stødum.

Þeir gømlu Innbyggiarar klæddu sig med Skinnfotum, máludu sitt Holld med bláum Farfa, til ad fæla adra í Orustum, og sama giørde líka Kvennfólked.

Hier um 10. edur 12. høfdu Konurnar sameigenlegár.

Í Stríddum høfdu þeir ecke Kallmenn, helldur Konur fyrer sína Hershøfdíngia.

Nú verande Innbyggiarar, eru skickanleger og politisker, enn Almúgenn temmelega grófur og óblídur vid Framande, hafa annars almennelega mikenn Skarpleik, og geta strax griped eirn Hlut og skiled; Eru miúker og Svarer. Þeir Yppurstu taka giarnann vel á móte Framande og hallda þá uppá Fríkost. Sierslegast er þad ad merkia, ad aller Framande mega Kost hafa fyrer utann Betalíng í **Meyors-Hwsinu** til **Lundun**, þvi hann má hallda þeim frí oped Bordhalld. **enn so er ofsem van!** þad varer ecke leingur enn eitt Ar. Í Orrustum berjast þeir vasklega, og flýa ógiarnann undann, Þeir sem studera

ra

ra kómast á stuttum tíma vel fram, hvarfyrer Eingland, so sem þeirra Skrif útvísa, hefur alltíd haft lærda Menn. J Klædaburde eru þeir líker Fronskum, þar hiá stollter og hofmoduger; Almúga Folk er miog giarnt til ad hripsa og grípa, og má einn Framande vakta sig vel. J Dryckiuskap gefa þeir hinum Saxverskn eckert efter, til hvorra þeir hafa Kyn sitt ad rekia, og kann sumt af Kvennfólke þad líka meystaralega.

Þeirra Ríkdómur er innefalenn í Ull, af hvorre þeir giora sín gódu klæde, og i þeirra nafnfræga Tine, líka einnenn í Síldarveide, af hvorre í kríngum **Jorck** er rett gótt Fiskerí.

Þeirra Hofudborg er **Lundun**, hallda menn þar búe inne hier um 350000. Manns; Tveir þridiu Partar Stadarins, eru af Elldebrande eidelagder; Hann liggur vid Aua **Tems**, hvar yfer um byggd er yfermáta kostuleg Brú. Efter Anne fara menn med stór Skip til Siáfar, sem liggur 60. Eingelskar Mílur frá Stadnum.

Þeirra Kaupskapar Agóde verdur um Ared virdtur fyrer 12. Milliones Gulls.

Þeir Eingelsku Siófferdamenn hafa sína Hondlun miog vída, so vel í Austur- sem Vestur-Alfunne.

Menn finna í Einglande margslags Fólk, Edalmenn, Borgara, Fríhondlara og Handverksmenn.

Adlenum tilheyra, Kóngar, Furstar, Greifar, og Herrar, og hiner sídustu Edalstands eru þeir sem kallader eru **Gentelmenn.**

 Eirn

Eirn Hertóga Sonur, verdur medaǹn hanns Fader lifer, kalladur eirn Greife.

Almennelega nefnast þeir **Lord**, þad er **Lavardur** edur Herra.

Sá sem ecke hefur árlega 1000. Marka Inntekt, verdur ei **Baronet** kalladur.

Eingland er eitt Erfda-Kóngsrícke, og koma Born efter Fodur, hvar med eirnenn skiliast Dæturnar; Eingenn verdur Riddare af Ætt edur Uppruna, helldur sá sem útvalenn er þartil, og ecke helldur siálfur Printsenn af **Wallis.**

Sá sem dubbast skal til Riddara, stendur á Hniánum, og verdur med nocktu Sverde slegenn hægt á Herdarnar, med þessum Ordum: **Vertu Riddare i Guds Nafne,** og er þá undereins nefnt **Ordunnar** Heite.

Riddara **Ordann** þess **gyllta Hosubands**, sem hefur sinn Uppruna frá Konginum **Edvard** III. er sú fornemsta **Orda,** (edur Riddara-Red.)

Þeir yppurstu Kóngsins Embættismenn eru: fyrst **Stoore Riikis-Cantzelleren,** honum filger næst **Skattmeystarenn,** sídann **Præsidenten,** sá sem **Signeted** geimer, **Stoore Kammerlingurenn, Admiralenn** og **Marskalkenn;** J þeim storu Stodunum setur Kóngurenn sina Embættismenn siálfur.

J **Parlamented** verdur eingenn Sonur innteкenn á medann Fader hanns lifer; Þá **Parlaments** Herrarner verda

fyrerkallader, skrifar Kóngurenn til hvorium einum, sem í Parlamentinu þenar, ad hann skule koma til stadar innann 40. Daga, og nær sá tilsette Dagur er fyrer hende, koma meñ samann í einum, þar til kostulega innrettudum Sal, og setst Kóngurenn á sinn Hástól, nockrum Troppum nedar situr Cantzelereñ, þó nær Kongenum, enn hiner adrer, til hægre hlidar, Erkebiskupar og Biskupar Ríkisins, enn á vinstre Sídu Greifar og Herrar, enn Dómarar, Secreterar og Skrifarar í Mided, og sitia aller, efter gamallre Veniu, á einum upptrodnum Ullarseck, Orsoken þar til er: ad þeir i Parlamentinu skulu alltíd þeinckia til Ríkisins besta, sem næstum helldst er innefaled í Ulliñe, hvar af þad godu Klæde giorast, sem Ríked verdur avdugt af; Sendeherrarner úr hinum ødrum Hierodum og Londum, sem vera kuña hier uñ 300. koma samann útaf fyrer sig, í einum ødrum Sal, og verda þar adspurder, úr hvoriu Lande, edur Stad hvor eirn sie. Þeir úrvelia eirn sem frambera skule þeirra Eirindagiorder fyrer Kóngenn, hvar uppá Cantzellerenn gefur Andsvar, eingeñ þorer vid Kóngenn ad tala nema á Kniánum.

När eirn Obótamadur er til Davda dæmdur, føra menn hann í eirne Kerru til Gálgans, hanns Viner filgia med Processiu á efter, sosem þad være Líkfør, þar verdur hann heingdur í eirne Snoru, sem er hier uñ þriggia Fíngra breid, enn af því digur Snara kann ecke ad teppa Andardráttenn eins fliótt, hallda hanns Náúngar nedann í Fæturnar, so hann skule tyrkiast þeß fyrr.

J fyrstu brúkudu Eingelsker Rómversk Catholska Religion, enn Kongurenn Hinric VIII. skúfade henne, og sette sig fyrer Hofud Kyrkuanna, enn Drottníng Elisabeth burtkastade aldeilis þeirre Romversku Religion úr Ríkinu, og antók Calvini Lærdom, hvor sidann til dato vidhellst í Einglande. Uñ

## Um̃ Koongs-Riiked Skotland, sem nw er sameinad þeirre Eingelsku Cronu.

Skotland er á Leingd 67. Þýskar Mílur, þad er 257. Eingelskar, enn á Breidd 52. Þýskar, edur 190. Eingelskar Mílur.

Hofudstadur Kóngsríkisins er Eidinborg, heila Landed er hardt og hrióstrugt, yfer allt med Biorgum, an̄ars Fiskeríkt af Síld, Þorske, og ímislegum Skeifiske.

Þar fæst í sumum Fiollum Marmare og Alabastur; í þeim Colodoniska Skóge finna menn Villenaut, sem hafa Fax eins og Lión, eirnenn fæst þar Steinkol og Jardarbik; hiá Cranfort er Gullgroftur, Silfur, Blý, Járn og nægd af Kopar.

J Lenox liggia 30. Eyar velbyggdar; Hier mega men̄ undra sig yfer þremur Hlutum.

1.) Ad Fiskarner hafa aungva Sundugga, enn eru þó goder Atu. 2.) Ad Vatned verdur þar a stundum so Olgufullt, þoott eingenn vindur sie, ad eingenn treyster sier ad fara þar yfer a Skipum. 3.) Ad hier er ein Ey, sem hefur gooda Fenadarbeit, og Fiarhaga, enn dríifur til og fraa undann Vindinum, (er á Flote.)

Þeir gomlu Skottar máludu sína Líkame med Ferva, átu og Mannakiot; Þeirra Legurúm var ber Jorden edur harder Becker og Bálkar.

Hvor ein Moder hafde sitt Eged Barn á Brióstum, su sem þad ecke giorde, var reiknad drigde Hór.

Þegar

Þegar þeirra Herrar voru fángader, giordu Undersátarner þá lausa aptur.

Þegar eirn í Strídstíd vard hittur, sem ecke hafde hiá sier Elldvirke og Sverd, hann var Skálkur reiknadur og hýddur.

Innbyggiararner nú á Dogum eru tvennslags, nockrer Umskorner, nockrer enn nú Villemenn, hiner fyrre búa í Grend vid England, þeirra Túngumál er hart nær Engelskt, enn Villefolked býr nordann fram, og brúkar Irlendskt Túngumál.

Annars er **Skotland** ófrióssamt, og þessvegna fátækt Land, þeirra Stiórn og Stande er skipt í þriá Stade; fyrst eru þeir Geistligir, þar næst Riddara Stettenn, sídann Almúgenn; I Trúarbrogdum eru þeir Eingelskum líker.

## Um Hiberniam edur Irland, sem og so liggur under Einglands Cronu.

Irland er sierlegast í 5. Hierod sundurdeilt; hefur annars heilnæmt Lopt, eckert Eiturkvikinde finnst þar; Grundenn er hrióstrug og fiallamikil, full af Forodum og Pittum, hefur mörg Stoduvotn, og þaug ilka uppe á Fiollunum.

Mela skrifar ad þetta Eyland hafe so smeckgótt Gras, ad Sauderner, ef menn reka þá ecke úr Hogunum, spreinge þeir sig; Þar er yfersliótanlegt Kvikfe, Miólk og Smior, góder Hestar, sem bera vel hátt Fæturnar, Hyrterner eru þar so feiter, ad þeir komast ecke undann Hundunum, þar er fullt af Villugolltum og Hierum, enn eingenn Rádýr edur Geitfe, þar eru falleger Fálkar og Arner, Tronur hundrudum samann, Alfter margar, enn

fáer Storkar, og þeir alsvarter, af Býflugum miøg miked.

Giraldus skrifar ad úr sumum Triám, sem þar drífa til og frá í Siónum, driúpe fyrst út Harpeis, sem sídann hardne, í honum kvikne Ormar sem sieu lifande, vaxe sídann á þá Nef, Fidur, Vænger og Fætur, so þeir finde á Vatninu edur Siónum, og fliúge sídann burt med ødrum Fuglum.

Hier finnast og adrer Fuglar, sem þeir kalla **Martinetten**, henge madur þá upp davda, fúna þeir ei nie rotna, helldur fella þeir, og fá aptur Fiadrernar árlega, so sem þeir væru enn þá lifande.

Þeir gomlu Innbyggendur átu Mannakiot, líka vel davda Frændur sína og Ættingia.

Þegar þeir slóu í hel Ovine sína, litudu þeir Andlit sín í þeirra Blóde.

Þegar ein Kona átte Son, stack hún honum hinne fyrstu Bravdtuggu i Munn lempelega med Sverdsodde hanns Fødur, og óskade um leid, ad hann mætte í Hervopnunum lifa og deya.

Þeir nú á Døgum eru hravster og vasker, hrædast avngva Hættu, þola vel Húngur og Kullda, og þótt þeir búe í einu kolldu Lande, þá eru þeir þó vel heiter í Amórs Sokum, geistrisner vid Framande og avdtrúa.

Sínum Børnum gefa þeir í Skýrnenne sierleg Nofn, stundum af Litnum, edur af einhvorium Veikleika, edur og af nockru, sem vidber, þá þav fædast, hallda vid sinn Vana og eru Innbir=

birlingagiarner: Nær eitt Barn heiter efter Fødur edur Módur, hallda þeir þad verde því skammlífara; Siounda Dag efter Fædínguna gengur Konann aftur í Sæng med Manne sínum, Lausakonur gefa Filgiumonnum sínum Armbond flettud úr þeirra Hárlockum, þeir eru yfermáta hneigder til Lete og Ydiuleysis, gefa sig efter Horpuslætte, og elska miked Saungliſt; Þiófnadur er hiá þeim eingenn Skom halldenn, segia so hafe Forfedur síner nært sig. Ad sofa á Nóttunne reikna þeir fyrer Omenniſku og Lete, madur ſkule helldur vera á ferle, hnupla og stela.

Skilnadur Hióna er hiá þeim almennur; Þeir brúka miog Kukl og Tofra-Spil, og eru vel fleſter guler á Hárlit. Þegar Nytt Túngl sieſt, falla þeir Irſku Villemenn á Kne og bidia: **Ad so sem Tungled finne þad nu heilbrigda, so vilie þad eirnenn framvegis vidhallda þeim.** Nær madur hrosar einum Heſte, edur odru Dyre, og seger ecke und. ir eins: **Gud giæte þeß**, þá verdur hann halldenn fyrer Toframann, og þegar nú eitthvort af þessum Dyrum kann á þridia edur fiórda Dege þar efter, bilaſt edur verda veikt, má hinn koma þar til, og lesa **Fader vor** í Eyrad á Dyrenu, so því batne aftur.

Nær eirn Siúkur deyr, hlióda þeir upp og hrína so mónnum þiker nær sem Húsed mune hrapa af Ohliodunum; þeir eta á sumdum Kioted hrátt og drecka Brennevín med, gánga almenneslegaſt berhøfdader, vilia ei helldur vita af nockrum Rakhníf ad segia. Þeirra Ríkdómur er innefalenn í Ullarhondlun.

I Druſinn brúka þeir Seckpípur í Stadenn fyrer Trumbur. Þeir sem ecke eru Viller, hafa Reformerud enn þó meſtapart Catholiſk- Trúarbrogd.

# Tölurod Koonganna i Englande.

| | Ár. |
|---|---|
| Frá Egbert I. sem ríkte og do Ao. Christi 828. | 27. |
| 2. Adolph, ríkte | 30. |
| 3. Adalwaldur, | 5. Mánude. |
| 4. Adalbert, | 5. |
| 5. Adalrádur, | 9. |
| 6. Alfrídur, | 28. |
| 7. Játvardur, | 24. |
| 8. Adalsteirn, | 14. |
| 9. Játmundur, | 7. |
| 10. Aldrádur, | 9. |
| 11. Játvin, | 4. |
| 12. Játgeir, | 16. |
| 13. Játvardur, | 3. |
| 14. Adalrádur, | 38. |
| 15. Játmundur, | 1. |
| 16. Knútur, úr Danmork | 20. |
| 17. Haralldur, | 4. |
| 18. Knútur II. | 2. |
| 19. Játvardur, | 23. |
| 20. Haralldur, | 1. |
| 21. Wilhiálmur, eirn Hertóge úr Normandi | 21. |
| 22. Wilhiálmur Rauðe | 1. |
| 23. Hinric I. | 35. |
| 24. Stephan, eiñ Greife, | 19. |
| 25. Hinric II. | 35. |

| | Ár. |
|---|---|
| 26. Rigard I. þesse var til Fánga tekeñ af Keysaranum Hinric VI. þá hañ var ad snúa Steik í einu Þorpe hiá Wien, ríkte | 10. |
| 27. Johannes, Rig: Bróder, | 10. |
| 28. Hinric III. Joh: Son, | 56. |
| 29. Játvardur, II. | 55. |
| 30. Játvardur III. | 19. |
| 31. Játvardur IV. | 51. |
| 32. Rigard II. | 22. |
| 33. Hinric IV. | 14. |
| 34. Hinric V. | 9. |
| 35. Hindric VI. | 28. |
| 36. Játvardur V. | 23. |
| 37. Játvardur VI. | 2. Mánude. |
| 38. Rigard III. | 2. |
| 39. Hinric VII. | 24. |
| 40. Hinric VIII. | 39. |
| 41. Játvardur VII. | 6. |
| 42. Maria Játv: Syster | 5. |
| 43. Elizabeth, Dótter Hinrics VIII. sem átte þær mörgu Konur; | |

ríkte

Ar.

rikte loflega 55.

44. Jacob úr Skottlande; þesse var hinn fyrste Kóngur yfer Skottskum og Engskum, rikte 22.

og dó Ao. Chr. 1625.

45. Carl Jacobs Son, var afhofdadur. Hanns Egta-Kvinna hiet Henrietta Maria, Dótter Hinrics IV. í Frankarike, og Lodwiks XIII. Syster, Anno 1649. þann 31. Januarii, millum Kluck. 2. og 3. Eftermiddag, var fram undann Resídentzenu í **Witthal**, á einu sierlegu, þar til giordu Skaffotte (edur Dráps-virke) á hvort heingt var svart Klæde allt um kríng, og umhverfis med öflugre Vakt ridande og Fótgángande Lids umgirdt, af þessum Carolo, í Vidurvist margra þúsunda Fólks, efter Lands sins Venju, med Oxe Hofuded afhoggved. (Um Orsök til þessa getur mín Cronica.)

Efter hann kom Olivvir Cromvvel, hvor sig kallade Protector yfer Skottlande, Englande og Irlande.

46. Carolus II. hvor ed brúkade í sinn Vopene eina Horpu,

# Um Koongsriiked Ungaria.

Þafnvel þótt þeir Rómversku Keysarar rúmum tíma hier fyrer, hafe vered ásamt Kóngar í Ungaria, þá er hún þó eitt Kongsrike út af fyrer sig, og heyrer ei til því Rómverska Rike. Ung- edur Hungaria hefur sitt Nafn af hinum **Hwttisku** edur **Hwnum**, og verdur sundurdeild í **Efre-** og **Nedre-Ungaren**. Hofudstadurenn er **Ofenn**, sem stendur á einu skravtlegu Platze.

Næstur honum er Stadurenn **Preßborg**, hier adskilur Vatnsfalled, sem kallast **Leyta**, **Efre-** og **Nedre-Ungaren**

 og

og fellur sídann í Flióted **Donau.**

**Stridon** er Fodurland hins gamla Kyrkiunnar Lærefodurs Hieronymi, þad er annars eitt friófsamt Land, Sæded, nær því er i þridia sinne sád, umbreitest þad í eina betre tegund; Þeirra Vín hefur í sumum stodum, so sem Brennesteins Smeck, luktar annars miog sterkt, og er strax áfeingt ad drecka. Hier eru Stoduvotn, heilnæmar Uppsprettur, varmar Laugar og herleg Fioll nafnfræg; Af Nautum og Saudum er þar þykkur Fiollde, ad Mergd þar af flytst út af Landinu; Af Villudýrum er þar og miog margt, sömuleidis Fuglum; Af Málmtegundum fæst þar Gull, Silfur, Kopar, Stál og Járn; þetta Kongsrike hefur og hin stærstu Vatnsfoll sem finnast í heille Evropa, næst um öll rík af Skipum og Fiskerie, þaug fornemstu eru **Donau, Sau, Trab** og **Teyssa.**

I Mare-Marusia er einn Uppspretta, so snart hennar Vatn snerter Jordina, verdur þad ad einum Steine.

Nálægt **Ofen** eru heiter Hverar í hvorium Fiskar fást, hvorier ed deya strax, sem þeir koma í kallt Vatn.

I **Zipserlande** er eitt Vatn, kastemenn Tre í þad, verdur þad strax ad Steine.

Hiá þeim litla Stad **Smolnitz** sprettur Vatn upp í einne Kletta Skoru, ef Járn er í þad láted, verdur þad innann skams so blautt og kramt, sem Leir edur Lím, sie þad sídann smellt í Ellde, verdur þar úr beste Kopar.

Innbyggiararner elska Omennsku og Ydiuleise, ydka sig einasta í Vopnaburde, eru hravster og diarfer, meir hæfer til Strids, enn gódra Handverka. Yngis-

Yngismennerner dyrfast ecke til á medann þeir eru ógifter, ad sofa í Sængur-Rúmum, helldur liggia á Fletium af Hálme edur Heye.

Nær eirn Fader gifter Dóttur sína, gefur hann henne eckert ad Heimann, utann eirn Nýann Klædnad.

Kallmenn og Kvennfólk brúka Stígviel, sem ná ei hærra enn á midiann Kálfa.

Ad nedannverdu raka Kallmennerner allt Skegg í burtu, enn láta á efre Kampinum vaxa lánga Knebelbarta, eru Hofmóduger, og Ovingiarnleger.

Þeirra Ríkdómur er innefalenn í Kvikfe og Matverum.

Þeirra Yfer=Hofud, edur Hofdinge er, næst hinum Róm=verska Keysara, eirn Palatinus edur Pfalzgreife.

Í Trúarbrogdum eru þar fernslags Flockar.

Vid Krýníngu hins Ungariska Kóngs, eru þessar Cere=monier brúkadar:

Fyrst verdur Coronann flutt á einum Kóngsins eigeñ Vag=ne, frá Slótinu í Preßborg, til Ste. Marteins Kyrkiu, þar á verda og bornar 10. Fánur, og eirn Kistill med gyllene Siicke yfirklæddur, þetta allt er nidursett í Kórnum.

Næst Vagnenum gánga 4. ypparleger Ríkisins Senatores, (edur Ölldúngar,) þessum fylgia adrer Landsins Embættismenn, þar efter kemur Kóngurenn í einum Ungariskum Búninge, sitian=de

de á einum fallegum Reidheste, Kónglega skrýddum.

J Kyrkiuna leida hann 2. Biskupar ad Alltarinu, undañ gánga 12. Landsherrar, sem bera Fánurnar, og á efter enn nú siñ adrer. Hinn fyrste af þessum 5. ber eirn **Kross.**
Annar, **Pacem.**
Pridie, **Sverded.**
Fiórde, **Velldissprotann,** og sá
Fimte, sem er Palatinus, **Coronuna.**
Cardinalenn helldur Messuna, smyr Kóngenn, og setur á hann **Coronuna,** enn Fólked hrópar: **Koongurenn life.**

Efter þetta retter sá Cóllniske Marskalk í Ungaria ad Kónginum **Sverded,** med hvoriu Kóngurenn giorer þriú strick í Kross, frañ í Lopted, medtekur H. Krolldmáltid, og dubbar nockra til Riddara, þá verdur líka Gulle útvarpad, sídañ rídur Kóngurenn þadañ, í sínum Kónglega Skrúda, med Coronuna á Hofdinu, afleggur venulegann Eid, og gefur sig í Sloted til Middagsmáltídar.

Pad Ungariska Vopen er eirn **Tvíídobladur Kroos.**

---

# Uñ Koongsriiked Polen.

Nafned **Polen** hallda menn dreged sie af Ordinu Pole, sem merker slettann Flot, því **Polen** er eitt slett Land.

**Polen** verdur sundurdeild í **Stooru-** og **Litlu-** líka eirnenn **Efre-** og **Nedre-Polen.**

Sú **Stoora-** og **Nedre-Polen** liggur meir til Nordurs, og rennur þar ígegnum Flióted **Warta,** hun nær til

**Pommeren**, og hennar Hofudstadur er **Posen**; i þeirre litlu **Polen** er Hofudstadurenn **Krakau**.

**Liefland** er eitt stórt Umdæme, þad heyrer i Dag mestann part til Svia Kónge, þad liggur 125. Þijskar Milur langs efter med Avsturstiónum, og þar sem þad er mióst, er þad 40. Milna breidt

Ad Avstannverdu vid þad liggur **Rußland**.
Ad Sunnannverdu **Samoieten** (forte Smámeyaland)
Vestann fram þad Baltiska Haf, og
Nordur frá Finnland.

Hofudstadurenn i **Lieflande** er **Riga**, hier fellur Fliótid **Dune** i Sióenn.

Næst þessum er Stadurenn **Revel**, og sidann **Derpt**.

**Littau** er eitt stórt Land, nær til **Moscau** avstann fram, ad Vestannverdu er **Masau** og **Polen**, lika eirn Partur af Preussenlande, Nordannverdt er Liefland og Samoiten, Sunnann fram Podolia.

Hier inne eru nockur Fyrstadæme og Herravolld, fáer Stader, enn fiolde af Þorpum.

Hofudborgen heiter **Vilna**, i Þijsku Mále **Wilden**. þesse er med ollum sinum Forstodum, ad Stærdinne lik **Krakau**.

**Samoiten** Land er 50. Milur á Leingd, þar er hart nær eingenn Stadur, enn fiolde af Hoffum og Þorpum.
**Muscau**, þar inne er Hofudstadurenn **Warsau**.

Volhinia heyrde fordum daga til Littauen, enn nú liggur hún under Kóngsríked Polen, og verdur skipt í 3. Hierød, edur Umdæme.

Podolia er næstum því óbyggd, vegna þeirra sífelldu Áhlaupa sem Tartarar giora.

Sá fornemste Stadur þar inne er og heiter Kamineck, hvor ed forundrunarlega, og hardt nær framar mannlegum Skilninge bygdur er millum brattra og hardra Urdarkletta.

Í Russlande, hvors meste Partur tilheyrer Stórfurstanum í Moscou, liggia Staderner Lemborg, Halitz og adrer fleire.

Pommeren lá og eirnenn fordum daga under Polen, enn nú er hún eitt Hertogadæme Ríkisins, hún liggur vid Austursióenn, og nær allt til Mechelnborgar og Preussen, þeir bestu Stader þar inne liggia vid Sióenn, er Stettin Hofudstadurenn næster honum eru Neugart, Lemborg, og adrer: Vid Hafed liggur Wolgast, Colberg, Camin, Cóslin, Usedom, Stralsund.

Vid Pommeren liggia 3. Eyar, fyrst Rúgen þar inne eru 5 Stader; Onnur heiter Usedom, hefur 3. Stade; þridia er Wollin, þar inne liggur Stadurinn, sem kallast og so Wollin.

Preussen nær Nordann fram ad Austursiónum, ad Austann verdu til Littauen og Samoiten, Vestann fram til Pommeren, enn ad Sunnann verdu til Masau og Polen: Hún er hardt nær eins breid og laung: Þad fornemsta Vatns-

Vatnsfall þar, er **Weissel.**

Adur fyrre heyrde hetta Land til **Kroß Herrunum**, enn þeir spilldu so med Undersátana, ad þeir gáfu sig siálfer under Kóngenn Casimirum i **Polen**, under hanns Skiole hielldust þeir stadfastlega, allt til 1525. Sídann selde Stríds-fólked í **Mariuborg**, Stadenn **Marienborg** Kónginum í **Polen**, fyrer 47700. Gylline.

Enn Riddarabrædurner villdu ecke hlídnast **Polen**, helldur færdu þúngt Stríd, hvorier mót ødrum.

Þegar nú ad sídustu villde eingenn ender verda á Strídenu, gaf Margreifenn Albrecht af **Brandenborg**, so sem hinn 43. **Hamneistare í Ordurodinne**, sig under **Forsvar Koongsins** Sigismundi Ared 1557. **Hier am moot lienade Kongurenn honum Hertogadæmed Preussen med kostulegum Fríheitum, ad hann skyllde verda kalladur Hertoge í Preussen, og hafa a Ríkis-dogunum Gang og Sæte næst Kooginum, med sinum Erfingium.**

Nú á Dogum er **Preussen** skipt í tvo Parta, þann hluta, sem Hertoganum tilheyrer, og hinn, sem Kóngsins er.

Hertogenn hefur sitt Adsetur í **Köningsberg**, sem er eirn kostulegur Hondlunar Stadur, liggiande vid Hafed, prydd-ur med einu Universitete, hvort Albrecht Hertoge stiftade.

Í þeirre Kónglegu **Preussen** er **Mariuborg** Hofud-stadurenn. Anno Christi 1626. og 1627. vann Kóngurenn Gustavus Adolphus í Svíaríke, Stadena **Mariuborg**, **El-**

bing, **Pusca**, og hartnærre alla þá Kónglegu **Preussen**, frá Polskum, under sig i openberu Stríde.

**Polen** er eitt Flatlende fullt af Skógum, gefur af sier, vegna Kullda, hverke Vidsmior nie Vín, þó vex þar annars þad, sem menn þurfa: Þar fæst miked Korn, Bigg, Matarjurter og Gros, sem þadann burtflytst til annara Landa: Hefur yfersliótanlegann Kvikfenad og Fiskeri, líka eirnenn fiolda Villudyra, þar skorter ecke helldur Vidarávexte, Smior, Vax og Hunáng i meira lage, Sallt, Blý, Járn, og Kopar, enn eckert Gull eda Silfur.

**Lifflland** er fullt af Forodum og Kielldum, hefur vel þolna Hesta, miked Hunáng, Harpeis, Jurtagards Avexte og Stoduvotn, í hvorium ad er yferfliótanlegur Fiskur edur Silungur.

**Littauen** hefur avngvu minne Forod, og Mýrar, samt þickva Skóga í hvorium ad eru Uruxar, Elgsdýr og Villehestar, úr Þýskalande er þángad fært Vín, og úr **Polen** Sallt.

Podolia er líka eitt frióssamt Land, þad sem madur sáer hier eitt sinn, kann hann ad uppskera þrisvar, þvi þar fellur so miked, nidur af Axinu og Kornstánga Vindinum ad ei þarf nema ad umplægia og uppskera sidann aftur.

Grased i Hogunum verdur so hátt, ad menn siá navmlega Kvikfed i þvi, hvarfyrer þar er ótrúanlegur fiolde Fiár, óteliannleg Villudýr, og á Hunánge alldrei þrot nie skortur.

**Russland** hefur og so eina ávaxtarsama Grund, er ríkt af Navtum, Savdum, Hestum, Hafaladyrum og Refum. Ef madur

madur grefur þar í einu vissu Plätze, Kvist af Furütre nidur í Jord, verdur hann á tveggia edur þriggia Ara tíma ad einum Steine.

**Pommeren** vantar ecke helldur neitt, sem menn þurfa sier til uppheldis, vid Siáfarströndina finna menn Agat-Steina, þó meir af þeim i **Preussen.**

**Preussen** er eitt yfermáta frióssamt Land, so hün tekur sínum Nábüum fraḿ í þeim Efnum, er ecke einasta ávaxtarsöm og giædagód, helldur fogur og falleg; Þad Preussiska Korn hefur stóra yferburde fraḿ yfer þad Polska; Lofted er heilnæmt bæde fyrer Menn og Fenad, af hvorium þar er ei allitill Fiollde; J Skógunum gefast Boffelar, Elgsdýr, Urar og Villehestar, Hunáng í meira lage og fiolde af Fiskevotnum, einkum eitt Stoduvatn, sem er 7. Þýskar Mílur uḿkrīng.

Vid Siáfarströndina verdur samansafnad Mergd af Agat-Steinum, hvoria þeir dyrt selia.

Þegar hiner gomlu Polsku, grófu sína fraḿlidnu, settu þeir Bord yfer Grofinne, og logdu þar Fædu á, meintu vissulega, ad þeir Davdu kiæme á Næturnar og æte Matenn.

Innbyggendurner í **Polen** eru slæger í sinne Hondlun, am̃ars orláter og góogiarner vid Framande, hvad þó skiliast á um̃ þá Fornemstu; til Drýckiuskapar eru þeir hneigder, drecka opt Ol yfer sig, því Vín er dýrt hiá þeim; Þeir gefa sig miked epter latinsku Túngumále, í Klædadragt hallda þeir sig pragtuglega, og brúka marga Þenara, einkum í Gestabodum.

Um þá í **Littauen** segia menn, ad Konurnar med Leife og Samþycke Egtamanna sinna hallde Filgiumenn, því Egtastandeð er hiá þeim í slettre Virdíngu, þavg skilia hvort vid annad þegar þeim þocknast.

Af Víne vita þeir eckert, þeirra Bravd er svart, því óhreininde eru í Korninu; þeir bera Spiót, Skiolld og Sverd, Hesta hafa þeir góda; sem ecke eru einasta vander til Brúkunar, helldur og pragtugheita; Sumstadar í **Littauen** er þad brúkanlegt, ad sá sem forbroted hefur Lífed, má drepa sig siálfur.

Þegar þeir grafa sína Davdu, standa þeir samann í hríng kríngum Grøfina, og drecka hvør ødrum til; Þegar nú sá Davde er lagdur í Grøfina, setia þeir eina Krucku fulla med Øl, Mat, og nockra Peninga til Tæregiallds nidur med honum, og segia: **Far þw í adra Verølld, þar muntu drottna yfer Þyskum, eins og þeir hafa hier drottnad yfer þier.**

Bændurner eru Skylldu þrølar, hlavpest eiru um, Húngurs Vegna, og náest aptur, høggva menn af honum annann Fótenn, so hleipur hann ecke meir; Þeirra Fæda er so løk, ad Svín hiá oß mundu varla snerta á annarre slíkre, þeirra Skór eru af Vidarberke, hepter samann med Baste.

Um Konurnar í **Riga**, sem er Hofudstadurenn í **Liffland** segia menn, ad þær sieu so stolltar og pragtugar, ad þeim þíke Skom ad Spinna og Savma, sie kiærara ad spatzera og ferdast um á Sumrenn í Kierrum, enn á Veturnar á Sledum.

**Russar** eru Limahravster, brúka í Orustum Boga og Pílur, med einu Spióte tólf Feta løngu.

Þeir

Þeir Pommerſku brúkudu þad Vendiſka Túngumál þángad til þeir chriſtnuduſt, þá fóru þeir ad tala Saxverſka Túngu, hvoria þeir enn nú vidhallda.

Preuſſiſker lifa efter Þýſkum Plagſid, þeirra Býggingar eru lángtum fegre og prýdelegre, helldur enn hinna Polſku, líka ſer allt nettara fram̄ í þeirra Húſum, hafa reglulegre Skickun, og lifa í ollu betur, efter Logunum, enn þeir Polſku, og eru framar þeim í ollum Líferniſháttum politiſker, hvad ei er ad undra, þar hin Þýſka Þiód, **tekur fram̄ fleſtum Nordurálfunnar Folke í Kunnáttu og Stickanlegheitum.**

Formegan hinna Polſku er innefalenn í allſlags Kornávexte, í Hunánge, Vaxe, Líne, Hampe, Sallte, Kvikfe, Farva, Járne, Blýe, Agatſteine, og koſtulega tilbúnum Skinnfotum.

Edalfólk þeſſa Lands er megtugt, á mikla Faſtaeign og Lavſa-Gótz.

Stríds magt hins Polſka Kóngsríkis beſtendur meſtann part í Riddaralide, því þegar Ríkiſins Navdſin útkrefur, meiga þeir af Adlenum uppá ſinn eigenn Koſtnad reiſa ut med.

Ríkisſtiórninne í Polen er ſo vared, ad hún er líkare eirne Ariſtocratia (þad er nær hiner yppurſtu hafa oll Yferrád) helldur enn eirnre Monarchia, (edur Einvalldsſtiórn, þegar eirn einaſte er Herra og Yferrádande,) því Landsherrar og Edalmenn hafa ſo miked Valld, ad þeir velia ſier ſiálfer Kóng, og fá honum ſo mikla Magt í Hendur, ſem þeim gott þiker, og ſtilla þar uppá árlega, ad Kóngsvalldenn verde afkliped nockud helldur en̄ vidavked. Millum Senatores og þeirra af Adlenum er ſífelldt Stríd

og Deining, fierdeilis í Kóngsins Fráfalle, þar Rikisstiórnin kemur uppá Utvalníng, þvi þá kiósa þesser eitt, hiner annann fyrer Kóng.

Þavg Polsku og Preussisku Trúarbrogd eru margslags, gefa orsok þar til þeir morgu framande Kaupþondlarar: Preussenn var hin allrafyrsta sem forliet Rómversku Trú.

I Lifflande, þeim parte, sem Svenskum tilheyrer eru þeir Lutherske.

## Tolurod Kooganna í Polen Anno Christi 824. Var

1. Cracus, efter hann kom
2. Piastus, þá
3. Ziemovit.
4. Lesco.
5. Ziemomisle.
6. Mieslaus, þesse var christenn.
7. Boleslaus, Miesl: Son Þennan giorde Keysarenn Ottho III. ad hinum fyrsta Kónge í Polen, og sette siálfur í Gnesen Coronuna uppá hann.
8. Miesco, Bol: Son.
9. Casimirus, Miesc: Son.
10. Boleslaus II. Cas: Son.
11. Uladislaus, Bol: Son.
12. Boleslaus III. Ulad: Son. Þesse kom Pommerskum til christelegrar Trúar.
13. Uladislaus II. Bol: Son.
14. Boleslaus IV. Ul: Bróder.
15. Miecislaus.
16. Casimirus II.
17. Lescus, Cas: Son.
18. Boleslaus V. Lesc: Son. I þessa Tíd voru uppfundnar Salltgrafernar í Polen.
19. Uladislaus III.
20. Casimirus III. Ulad: Son.
21. Jagello, Stórfurste í Littauen, var nefndur Uladislaus, hann kom Littauen til christelegrar Trúar,

og

og stiptadé Universitetit í Krakau.
22. Uladislaus IV.
23. Casimirus IV. Ulad: Son. Til þessa fell Preussen frá Rikenu.
24. Joannes Albertus, Casim: Son.
25. Alexander, Alb. Bróder.
26. Sigismundus I. Alb: og Alex: Bróder.
27. Sigismundus Augustus II. Sigism: Son.
28. Heinricus, úr Frankarîke, þesse kom sier heimuglega burt úr Polen, og vard Kóngur í Frankaríke, epter Bródur sinn Carl IX.
29. Stephanus Bathorius úr Siebenborg, komst til Kóngsríkisins fyrer þad, ad hann giftest Systur Sigismundi Augusti.
30. Sigismundus III. Sonur Johannis Kóngs í Svíaríke.
31. Uladislaus V. Sigism: Son.

Anno 1648. geck þesse Uladislaus V. Veg allrar Veralldar, og let efter sig tvo Sonu, Herra Brædur, sá elldre hiet Johannes Casimirus, hinn Yngre Carl Ferdinand. Þesser villdu báder, hvor í Kapp vid annann ná Coronunne og Rikis-Stiórninne. Enn þad vard ad sídustu fyrer Medalgongu, ad sá Yngre (só sem billegt var,) liet þeim elldra Coronuna efter, og veik frá.

32. Johann Casimirus Kóngur í Polen, giftist med sierlegu Leife hinns H. Fodurs Páfans, síns burtdána Bródurs Uladislai efterlátinne Eckiu, þann 20. Maji 1649. hvor ed sídan dó 1667. þá lagde hann af Coronu og Velldis-Sprota á openberum Rikisdege í Warschau 1668. og gaf sig burt til Frankaríkis, hvar hann feck af Kónginum adskillanlegar Geistligar Veitingar, og dó þar ad sídustu 1672. þann 6. Decembris.
33. Hier epter vard 1669. til Kóngs útvalenn Furstenn Michael Tomas Korybuth Wisniovvitzky, sem komenn var af því Littauiska Affspreinge, og Ætt Stórfurstans Jagellonis,

Hvór og so útvaleinn var til Kóngs í **Polen**. Þesse giftist Hañs Keysaral. Majsts. Systur, Erke-Hertoginnuñe Eleonora Maria, úr Avsturríke.

Vopen hins Pólska Kóngsríkis er **Ein hviit Örn i Ravdum Felde.**

## Um Koongs-Riiked Danmörk.

Under því Nafne **Danmörk** skilst eirn stór Hlute Lands, eigenlega heyrer hier til **Jutland, Fyn, Skaaney, Halland, Selland,** so og **Ditmerschen.**

Kóngurenn rædur eirnenn yfer Ríkenu **Norveg,** Honum heyrer og til Hertogadæmed **Slesviik** samt Eyenn **Island.**

**Danmörk** hefur ad Vestannverdu, þad Stóra Þýska Haf, Avstannfrañ þad Baltiska Haf (edur Avsturstóenn) Nordanverdt Noreg og Svíaríke, og ad Sunnannverdu Holstein, Michelborg og Pommerenn.

Annars verdur **Jullande** skipt í 4. Stipte, sem eru: þad **Ribiska**, af Hofudstadnum **Ribe, (Riipar)** þad **Arhwsiska**, af Stadnum **Arhws**, þad **Alborgiska**, af **Alborg**, og þad **Viiborgiska**, af **Viiborg.** Hier hefur Adallenn árlega sína Kavpstefnu, eins og hiner Holsteinsku í **Kiel.**

Í **Viiborg** hiellt Sveirn Danakóngur eitt sinn eirn Herradag, og liet medal annars þar tractera uñ þá Heidnu Trú,

þá

þá, gaf sig eirn fram, sem ádur hafde vered Diaconus, edur Diákne í Bremen ad Nafne Poppius, ættadur úr sydra Jullande, hann spurde hina Heidnu ad, segiande: Ef hann liete sína Hond, í Guds Nafne, inní eirn glóande Járnhandska, hiellde henne þar nockra stund, og drage hána sídann út aftur óskaddada, Hvort þeir villdu þá Forláta sinn Heidindóm, og taka aftur hanns Trú, so sem þá rettu? Þessu samsinntu þeir; Og Poppius stack í Guds Nafne, Hendinne í Handskann, og dró hana óskemda út aftur. Þar med kom hann Kónginum, ollum hanns monnum, og hardt nær heila Landinu til christelegrar Trúar, vard og líka af Kónginum settur til Biskups í Arhwsum.

Vid Julland liggur sú litla Hálfey Vendsyssla kollud, hefur í sier 6. Hierød. 3. Stade og 1. Slot.

Sydra Julland innebindur í sier 2. Hertogadæme Slesviik og Holstein.

Slesviik hefur nafn af Stadnum Slesviik hiá hvørre þad Furstalega Residentz Gottorp stendur, hvar menn hafa eirn ríkuglegann Toll, því hier verdur árlega Tollur golldenn í hentugre Tíd, af vel so 5000 Navtum, sem þángad reken eru frá Danmørk til Solu.

Flensborg, sem næst Kappenhavn, er Kóngsins beste Handlunarstadur, liggur millum hárra Fialla, gegnt Austurhafenu, úr hvøriu ad gengur ein diúp Hofn ad Stadnum, í hvøria menn kunna ad leggia med hlodnum Skipum, só sem í eitt Hús.

Tvær Mílur hiedann liggia þav fogru adallegu Hús, Seegart og Grafenstein, tilheyrande þeim af Alefeld í Holstein.

**Holstein** liggur ad Avstanverdu vid Avstursióenn; Vestaunn fram vid **Stóre**; Sunnann vid hana er **Elfan**; enn Nordannverdt **Eyder**.

Henne verdur annars sundurskipt í fióra Parta, sem eru **Ditmerschen, Holstein, Stormaren** og **Wagria.**

Staderner í **Holstein** eru: **Sågeberg** í **Wagria**, 4. Mílur frá **Lübeck. Itzohohe**, vid eitt Skiparíkt Vatn sem heiter **Stóra**, hiá þvi er eitt Adallegt Jómfrúr-Clavstur.

**Kiehl** liggur vid eina Høfn, sem geingur úr Avstursiónum; er eirn Stadur, hvar þeir Holsteinsku af Adlenum hallda árlega á Þrettánda dag Jóla sinn Markad, edur Kavpstefnu, og koma þar samann í stórum Fiolda.

Þar verda allar Obligationes (edur Handskrifter) innleyst, ar, og adrar aftur útgefnar uppá lánad Gialld; Þeirra Obligationer eru allar stíladar uppá **Innsetningu**, þad er: Ad sá sem ecke betalar á þessum Markade, so sem Skildaga, hann má ecke fyrr útfara úr sínu Lossamente fyrr enn hann hefur betalad. Og þetta er þad Medal sem þreinger þeim til ad betala, þvi þad hallda þeir sier fyrer stærsta Spott og Skam ad verda setter inn, þar fyrer rekur hvor efter siálfum sier, so sem honum er mogulegt ad hallda ecke Betalíngnum inne, þar á Stefnunne eru samannkomnar í eitt sinn, hartnær aller Holsteinsker Edalborner.

Ecke lángt hiedann liggur sú nýbygda Festíng **Christians Príis**, vid Avstursióenn.

**Krempe** og Festingen **Luckustadur** liggia vid **Elfuna.**

I **Holstein**, af þvi þeir verda ad vera med, ad gefa til Rómfarar, filgia þeir Keysarans Logum.

Enn hinir í **Slesviikur** Partenum, sem einúngis tilheyrer þeirre Donsku Cronu, retta sig efter þeirre Logbók.

**Skáaney** er eirn hinn ríkaste Landspartur af **Danmork**, hún nær til fasta Landsins í Svíaríke, og er med **Eirarsunde** fráskilenn **Sellande**, hefur 23. Hierod, og 15. Stade.

Hofudstadurenn er **Londen**, honum næstur er **Ellenbogen**.

Vid Sunded liggur **Helsenør**, (Helsingia Eyre) hier er þad Kónglega Slót **Cronuborg**, sem Kóng Fridrich II. let Ao. 1537. uppbyggia.

A hina sidu Siáfarins liggur Slóted **Helsenborg**.

Siórenn, sem eina Mílu breidur flytur hier í millum, kallast **Eirarsund**, hvar opt sinnis yfer 300. Skip, edur meir samannkoma, úr ollum stodum Christendómsins, hvor ed fella Segl, og láta úte sinn veniulega Toll til Kóngsins, sem áviñur honum ei allitenn Ríkdóm.

**Selland** (**Sæland**) er tvær Dagferder á leingd og breidd, hefur 15. Stade, og 12. Kóngleg Slót.

**Kaupmannahofn** er Hofudstadur heila Kóngsríkisins, og þad Konúnglega Adsetur, eirn stór ríkur, og ásiálegur Stadur, med eirnre miog hagkvæmre Hofn.

Midt í Sellande liggur Staðurenn Roskild (Rooarskellda), þar er Kónganna Greftrar-Pláts, hvört að er kostulega bygt og prýðelegt á að sjá.

Á Alltarinu í þessarre Kyrkiu er ein Tabla oll af Gulli gior, í hvöria miøg hønduglega innsettur er eirn Diamant að stærð sem Nyt.

Það vollduga Abóta Clavstur Sorey, liggur og so í Sellande, hvört Absalon Biskup stiptade.

Nú er þetta Clavstur, eirn Konúnglegur Háskóle, til hvörs Christian IV. lagde enn meire Inntekter frá Nunnuklavstrinu í Lalande.

Í Kyrkiunnar Hákór, sunnann fram við Alltared, er Grof Absalons Biskups, hálfrar Alnar hátt frá Gólfinu með Marmara Steine yferlogd.

Á nyrdre síðu Alltarisins, er eitt kostulegt Monument, giort af Kopar, líkt sem Rúmstæde, í hvörin Christophorus II. Danakóngur liggur steiptur, með Konu og Bornum, til sýnis.

Annars liggur þesse Sorey 2. Mílur frá Staðnum Slagelse, í einum rett prýðelegum Skóg, við eitt stórt Stöðuvatn.

Tiú Mílur þar frá, liggur það skrautlega Slot, Friderichsborg, hvört af Fridrich II. byggt var, og af Christian IV. storum útvíðkað.

Í Kyrkiunne er Predikunarstóll, Fontur, Alltare og Organ af klára Silfre, þar er og inne eitt kostulegt Sigurverk með Kluckum,

Kluckum, hvört ed Dag og Nótt, vid oll stundamót spilar marga Psálma, hvorn med sinum eigenlegum Tón.

J þeim stóra Sal á Slotenu, eru Tiolld og Sparlok sett med Perlum og Edalsteinum.

Under **Selland** liggur ein Ey, heiter **Wena**, (edur **Hvedna**,) hvar Tycho Brahe, hinn nafnfrægaste Stiórnumeystare í ollum Heime, háfde sinn Bústad, á Slotinu **Uranieborg**, hver Anno Christi 1597. gaf sig frá Danmørk, til Hoffs Rudolps Keysara, hvar hánn var so sem eitt Heimsins Fúrdyverk medtekenn, og setteſt ad í **Prag**.

Eylanded **Fyn** (edur **Fioon**) gengur næst **Sellande**, er umgyrdt af Sió, tólf Mílna lángt, og átta breidt; Hofudstadurenn liggur á því midiu; og kallast **Otthensee**, [edur **Odinsey**] næster honum eru **Schwenborg** og **Foborg**, **Asnes**, sem horfer ad **Hadersleben**, og **Medalfart**, sem snýr ad **Coldingen**, eru tveir Stader, hvar menn reysa yferum, nær þeir vilia ferdast frá **Holstein** til **Fioons**, er vid **Asnes** tveggia Mílna breidd yfer, enn vid **Medalfart** ecke nema eitt Skótmál.

**Nyborg** liggur vid **Bellted**, hvadann menn hafa 4. Mílur yfer ad fara, til **Casseyrar** í Sellande.

Yfer um þetta **Bellte** er so mikla Straumar ad fara út og inn, ad þar er hættulegra med Skip, helldur enn nockurs stadar út á eide Hafe.

**Fioon** hefur 6. Slot, af hvorium þad í **Nyborg** er hid fornemsta.

Under

Under **Fioon** liggia 8. smá Eyar, af hvørium hin, hellsta heiter **Alsen**, 7. Milur á leingd og 2. á breidd, liggur hart nærre Furstadæminu **Slesvíık**.

Staderner þar eru á sydre sìduna **Sudurborg**, hvar ad er eitt Furstalegt Residentz; enn á nyrdre sìduna **Nordurborg**, og so eitt Fursta Adsetur.

**Noreg** hefur ad Sunnannverdu vid sig **Danmørk**, ad Vestannverdu hid stóra Haf, Avstannfram **Sviarííke** og til Nordurs **Lappland**, þar skilia Háfioll á mille, sem alltíd eru med Snió og Iokle þakenn; Landsins leingd er 400 Milur Vegar.

Adur fyrre var þad Kóngsrike útaf fyrer sig, hefur 5. Kóngleg Slót, hinn fornemste Stadur er **Biorgvin**, einn prýdelegur Hendlunarstadur, og so sem Kornhlada heila Norvegs.

Þessum næst geingur **Þrandheimur**, hvarvid Sloted **Vardhws**, þar fiskast Silld og Þorskur, einna hellst í Januario, þvi, þeß kalldara sem er, þvi ríkuglegre og feitare gefst þar Fiskur.

**Island** er 100. Milur á leingd, og 60. á breidd, þad liggur under Kóngenn af Danmørk, og verdur sundurdeilt í 4. Fiórdúnga; Þar eru avngver Stader, þó samt eru þar tvø Biskupsdæme.

**Nordur-Iotland**, hefur ótrúanlega miked Korn, so og kostulega Hagbeit, sem siá má af Navtum þeim sem í stórum Hópum rekenn eru þadann úr Lande, þvi þad er víst, ad til efra og nedra Þýskalands verda árlega rekner yfer Hundrad og Fimtíu Þúsund Uxar, og þar selder.

Sydra

Sydra-Jotland er likа vel rikt af Kvikfenade og í Holsteín eru blómleg og nýtsamleg Tre, þó meir af Beike helldur enn Eik; Vínvidur fæst þar ecke, enn yfeirfliótanleg nægd af Villudýrum og Hestum; Pad fornemsta Vatnsfall í Holsteín er Eyder, þar er Landslaged slett og Fiallalaust.

I Skáney gefst Silfur, Kopar og Blý, í Fiollunum.

I Gavtlande gefst hávaxenn Furuvidur og stórer Steinar, þienanleger til Byggínga.

I Sellande og Fioone, fæst gott Korn, likа Fiolde Kvikfiár.

I Lalande er ótrúanlega miked af Hasselnytum; Falstern hefur góda nægd Kornávaxtar.

Alsen fiolda Villudýra; Malmey heil Stód af Hrossum.

Heila Kóngsríked Danmörk, verdur sundurdeilt í 184. Hierod, yfer hvor setter eru velreinder og logspaker Embættismenn.

Kóngsríked gengur ad Ætt og Erfdum.

Kóngurenn er Coronadur í Mariu Kyrkiu í Kavpenhavn, þar er hann leiddur ad Alltarinu af Olldúngum og Embættis-Herrum.

Eirn gengur úndann honum med Sverded, annar med Epled, þridie med Coronuna, og eru þesser í hvort sinn tilkiorner, enn hafa ei þad Embætte ad Erfdum.

Fyrst leggur Kóngurenn sinn Eid af, ad hann vilie hallda alla fyrerlagda Articula, forsvara Trúarbrogdenn, Log og Rett.

Sidann er hann smurdur af Biskupenum í **Roskild.** Rádherrarner setia Coronuna á hanns Hofud, og sveria honum veniulegann Eid.

Efter þad dubbar Kongurenn nockra af Adlinum til Riddara med veniulegum Ceremonium.

I Kóngsríkinu **Danmørk** eru Persónur af fimslags Stande; **Høfuded er Koongurenn**, og þeir sem af Kóngsins Ætt eru; Þar næst filger Adallenn, hvar med og á stundum reiknast Greifar og Fríherrar.

Nær einhvør af þeim deyr, verdur þeirra Eignum so skipt: Sonurenn tekur 2. hlute, og Dótturenn ecke nema eirn Part, Slót og Hús heira alltíd Sonunum til.

Stóre **Hófmeisterenn** hefur Adsetur í Kaupenhavn, hanns Embætte og Yferrád er likt eins **Stadarhalldara.**

Næst honum filger **Marskalken**, sem Daner kalla **Riikis-Mars**, honum er Strídsvesened á Hendur faled.

**Admirallenn** hefur ad bióda og befala til Siós, hann hefur Rád yfer Hofnunum og Kóngsins Skipum.

Hann hefur sinn **Under-Admiral**, og er á hvøriu Skipe eirn **Capteirn** af Riddaraskapnum.

**Riikis-Cantzeleren** hefur stórann Myndugleika, þvi menn meiga frá øllum Rettum appellera til hanns, og frá honum til Kóngsins.

Þad þridia Stand þessa Rikis eru hiner Geistligu, medal hvorra ad eru 6. Biskupar: Eirn í **Roskild**, annar í **Odensey**, þridie í **Riipum**, fiórde í **Wiborg**, fimte í **Arhwsum** og siette í **Slesviik**.

Hid fiórda Standed eru **Borgararner**.

Hid fimta Standed eru **Bændurner**, millum hvorra sá Mismunur er, ad nockrer eru Fríbændur, sem einasta giallda og greida sín árleg Giolld, eru ei ødrum háder og þurfa ei neinum daglega ad þiéna, adrer meiga hvern dag vera í Þiónustu til Hoffa.

I **Holstein** gengur allt Adalsgóds ad Erfdum, frátekṅu nockru litlu, sem Lienunum filger.

Hinar fierlegustu Ætter þar eru: **Rantzovs-Ætt, Alefelds- Sesteds- Reventlaws- Pogwiskens- Buchwalds-** og **Blums** Ætt.

Agreinings Saker millum Adalsinns í **Holstein**, verda fyrer því háa Ráde, hvors eins Furstadæmis, urskurdadar, þó má Saksóknarenn, ef hann stiller Caution, appellera fyrer þad Keysaralega Cammer í **Speyer**, því **Holstein** er eitt Hierad þeß Rómverska Rikis.

Rettargángs Saker Bændanna í mille, eru yferheirdar út á vidavange, og eru þeir af Adlenum almenelegast siálfer Dómarar og gefa úrskurdenn, og þad í þeim Slesvíksku Eignum epter Logbókinne, enn í Holstein efter þeim Keysaralega Rette.

Trúarbrogd í heila Rikinu eru hin Evangelisku.

Er so útsagt um̃ Danmork.

## Nøfn Danakoonga, so sem þeir finnast uppteiknader, hvør epter annann a þeim stoora Sal i Cronuborg.

Anno 1073. fyrer Christi Fæding var

1. Dan I. epter hann kom
2. Humle, Dans Son.
3. Hlödver, Dans Son,
4. Skiölldur, Hlödv: Son.
5. Gramur, Skiöllds Son.
6. Svipdagur, Norskur.
7. Gunnar, Grams Son.
8. Haddingur, Grams Son.
9. Fróde, Haddíngs Son.
10. Hálfdan, Fróda Son.
11. Hróar, Hálfdans Son.
12. Helge, Hróars Son.
13. Hrólfur, Helga Son.
14. Hrærekur.
15. Wígleifur.
16. Vermundur, Vígl. Son.
17. Ubbe, Verm. Son.
18. Dan II. Ubba Son.
19. Hugleikur, hinn Litle.
20. Fróde II. hinn Sterke.
21. Dan III. Fróda Son.
22. Frídleifur hinn Snare, Dans Son.
23. Fróde III. Frídl. Son.
24. Hiarne.
25. Frídleifur II. Fróda Son.
26. Fróde IV. Frídleifs Son.
27. Ingialldur, Fróda Son.
28. Olafur, Ingiallds Son.
29. Haralldur I. Olafs Son.
30. Fróde V. Olafs Son.
31. Haralldur II. } Haraulds Syner.
32. Hálfdan II. }
33. Ingvar.
34. Sigvallde, Ingv: Son.
35. Siggeir, Sigvallds Son.
36. Sigvallde, Siggeirs Son.
37. Þetta skeid voru sum Stiórnendur, undereins í Danmork.
38. Hálfdan III.
39. Haralldur III.
40. Jómfrú Heita.
41. Olafur II.
42. Ogmundur, Ol: Son.
43. Sigurdur, Ogm: Son.
44. Budle, Sigurd: Bróder.
45. Jamrekur, Sigurd: Son.
46. Bróder, Jamr: Son.
47. Sigvallde II.

48.

48. Snær, Sigv: Son.
49. Biörn
50. Haralldur IV. Biörns S.
51. Gormur, hinn Gamle.
52. Gudfredur, Gorms S.
53. Olafur III. Gudfr: Son.
54. Hemingur, Gudfr: Son.
55. Sigurdur II.
56. Ragnar.
57. Sigurdur III. Ragn: S.
58. Eirikur.
59. Eirikur II. þesse var hiñ fyrste Christenn Köngur.
60. Knútur I. Eiriks Son.
61. Fróde IV.
62. Gormur II. Engelskur.
63. Haralldur V. Gorms S.
64. Gormur III. Haralldssó.
65. Haralldur VI.
66. Sveirn I. Haralldssó.
67. Knútur II. Sveins Son.
68. Knútur III. hinn Harde.
69. Magnús Góde.
70. Sveirn II.
71. Haralldur VII. Sveins S.
72. Knútur IV. Sveins Son.
73. Olafur IV. Sveins S.
74. Eirikur III.
75. Nicolás.
76. Eirikur IV.
77. Eirikur, Lamb.
78. Sveirn III.
79. Knútur. V.
80. Valdemar.
81. Knútur VI. Valdem: S.
82. Valdemar II.
83. Eirikur VI. Vald: II. S.
84. Abel, Eiriks VI. Bróder.
85. Christoffor.
86. Eirikur VII. Christoff: S.
87. Eirikur VIII. Eiriks S.
88. Christoffor II.
89. Valdemar III. Christ: S.
90. Margret Valdemars D.
91. Olafur, Margret: Son.
92. Eirikur IX. Hertoge af Pommerenn.
93. Christoffor III. Hertoge af Bäyeren. Þesse lieute Slesvík Greifanum Adolph.

94. Christian I. Greife af Oldenborg, var krýndur Anno Christi 1448. Dó - - 1483.
95. Johannes, Christ: Son, dó - 1513.
96. Christian II. Joh: Son, var útrekeñ, og dó í Fángelse 1559.

97. Fridrich I. Christ: Son
98. Christian III. Fridr: Son, þesse var krýndur af Johann Bugenhag. Hann gifteſt Dóttur Churfurſtans Augusti, af Saxen 1551. og dó - - 1559.
99. Fridrich II. Christ: III. Son, var fæddur 1534.
Coronadur - - - 1559.
Grafenn - - - 1588.
Þesse byggde Cronuborg vid Sunded.
100. Christian IV. Fridr: II. Son, var fæddur í Sudurborg, 26. Novemb: - - - 1570.
Krýndur í Kaupenhavn 29. Augusti - 1596.
Hiellt sitt Bryllaup í Hadersleben, med Frú Anna Catharina, Dóttur Joachims Fridrichs, Churfursta af Brandenborg - - 1597.
Christian V. hanns sá elldre Prinz fæddest 1603.
Fridrich, hinn yngre Prinz, Biskup til Bremen var fæddur - - 1609.

Anno 1648, þann 28. Februarii, burtleiddest fyrer Sálu-hiálpleganu Dauda Christian IV. Kóngur til Danmerkur og Noregs, ꝛc. á 78. alldurs áre; Enn af því hanns elldre Son, Prinz Christian V. burtkalladest 1647. áre fyrr enn hanns Fader, þá var hanns Yngre Son Friderich til Arva-Prinz útvalenn, og Anno 1648. efter hanns Fodurs Dauda, til Kóngs tekenn, og kalladur Fridrich III.

Þesse ríkte allt til 1670, þá hann af snögglegum veikleika dó, þann 9. Februarii, og liet efter til Erfíngia Ríkisins, sinn Son Christian V. hvor sídann vid Stiórnenne tók, var hanns Egtafrú, Drottníng Charlotta, fædd Landgreifinna til Hessen.

Danmerkur Ríkis Vopen, eru 3. bláer **Leopardar** í gulum Felde, og 9. raud Hiortu ytann um̄ þá.

# Um Koongs-Velldeð Sviiþiood, edur Sviia-Riike.

Swiaríke innebindur í sier þesse Lond, edur Umdæme: Finnland, Góthland, Nordland, Ingermanland, mikenn Part Lapplands og Finna, so og Landeð Carelia, eirnenn Part af Liflande og Preussen.

Þeß Takmork ad Vestanverdu er Noreg, Nordanfram Lappland, ad Austanverdu Moscav, enn Sunnann fram Gottland og þad Baltiska Haf.

Hofudstadur heila Rikisins er Stockholm, eirn vel grundvalladur Stadur, hefur sitt Nafn af Stólpum edur Stockum, sem hann er bygdur á.

I Gothen liggur Stadurenn Uppsaler, hvar ad er eirn Háskóle; Nykiöping er eirn Sióstadur.

Staderner í Gotlande eru Lothus, Visborg, Sloteð og Stadurenn Calmar.

Finnland nær til Moscow, annars er þad ad Austann- Vestann- og Sunnannverdu med Sió umfloteð.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Bravd | Kalla þeir | Leipa. | Kóng | Kalla þeir | Koing. |
| Hús | | Honch. | Skip | | Latwa. |
| Stad | | Caupungi. | Gud | | Jumala. |
| Mann | | Ichminen. | Jörd | | Ma. |
| Ost | | Justho. | Dag | | Petwa. |
| Hund | | Coira. | Vondur | | Paha. |

Annars

Annars verdur **Sviaríke** skipt í 11. Hierod, og í eins mörg Hertogadæme.

**Svíþiood** er rík af Húmánge, Silfre, Kopar, Járne, Stále og allslags Fiske, þar hiá er þad hrióstrug- og Fiallamiked Land; Hiá **Salborg** finna menn hreint og klárt Silfur.

Vid þad Konúnglega Hoff hafa þeir ecke nema 2. Medicos (edur Læknara) og eirn Apotekara, halda þeir þurfe þá ecke fleire, því þeir reida sig uppá þad hreina og heilnæma Lopt í þeirra Lande.

**Lapplendsker** hafa aungva Hesta, enn í þeirra stad brúka þeir Dýr, sem þeir kalla **Ranger**, (Reinsdýr,) ad stærd sem Mular, enn ad lit sem Asnar; Þesse Dýr draga so fliótt Sledana á Isinum, ad þeir kunna á 24. Kluckutímum ad renna 100. Mílur.

**Sviar** eru góder Strídsmenn bæde til Siós og Lands, vid Framande eru þeir liúfer og orláter, og giora þeim allt til vilia.

Þeir brúka tvo Túngumál, þad eina er sú retta Svenska, enn hid annad Finska, þó tala þeir í Hofgordum og stóru Stodunum eirnenn Þýsku.

Svensker eru næmer og fliótskarper, þó, hvad viddvíkur Fronsku og Vallendsku Túngumále, þá gengur þad hiá þeim, eins og Þýskum, ad þeir geta báglega úttalad þaug rett. Þeir eru í sinu Lande ánægder med þad sem Gud og Náttúrann þeim afskamtar, og keppast ei efter hárre Vidhofn, þeir byggia ei meira af sinne Landareign, helldur enn þeir naudsýnlega med-

medþurfa; það sem þeir sá í Majo, er fullvaxed, vegna þeirra longu daga, í Augusto, því Nóttenn er þar ecke yfer 3. eda 4. Kluckustunder.

Þeir Geistlegu á Landenu gefa, efter Reglu-Skickun Postulans Páls, yferreisande Fólke Mat og Dryck, fyrer góda þeck á móte.

Þeir Svensku í Stodunum bada sig oft, sierdeilis gifta Fólked; Kvennfólked er skickanlegt og Sidsamt, Forstandugt og Hússtiórnargott, hallda sier aldeilis frá Dryckiuskap.

Þeirra Korn, af hvoriu þeir baka Bravd, er tvennslags, því eina er sád í Novembri, odru í Majo, og er þó hverttveggia fullvaxed í Uppbyriun Augusti Mánadar.

Af Kiøte og Fiske hafa þeir yfe fliótanlegt, med Oste og Smiore byria þeir Máltíd sína, og enda hana med því sama, á Eiku Avoxtum hafa þeir aungvann skort.

Almúga Fólk klæder sig slett og einfalldlega, eins líka Kvennmenn, enn þeir sem eru af Adlenum og meire háttar, klæda sig uppá Þýska vísu.

Þeirra bústader eru mestann Part byggder af Timbre, þó betur helldur enn í Polen, Badstofur eru þar í Brúke, meir helldur enn Ofnar.

Lappar eru Smávaxner, þó miúker og snarer. Bordenn í sínum Skipum negla þeir ecke, helldur binda þavg samann med Baste og Reimum.

Þeir brúka hvorke Bravd nie Sallt, helldur einasta Kiøt og Fisk. A a Rik-

Ríkdómur hinna Svensku er mest innefalenn í Bergverkunum, þeirra Stríðsmagt til Siós og Lands er eirnenn allríð til reiðu.

Fyrr um var Svíaríke eitt Utvalníngar Ríke, enn nú geng-ur það að Erfðum.

I Religions Sökum hafa þeir mest yfer allt það Evangeliska Trúarbrögð.

# Tölurod Sviiakoonga Anno Christi 1168.

## Ríikte.

1. Carolus, þá Eirikur úr Danmörk var slegenn. Þennann sló aptur í hel
2. Knútur Eiriksson; Efter hann kom
3. Albert, Hertoge af Mechlenborg.
4. Margret í Danmörk tók Albert fángenn.
5. Steirn, Staðarhalldare í Svíþioð.
6. Gustav Eirikur, sem vidrette Föðurlandeð, þesse var í Fángelse halldenn í Danmörk, enn losaðe sig siálfur og komst aftur í Svíþióð.
7. Eirikur, Gustavs Son.
8. Johannes, Eiriks Bróðer.
9. Sigismundus, Johanns Son; Catholiskur var ásamt Kóngur í Polen.
10. Karl, Johannis Bróðer.
11. Gustav Adolph, Karls Bróðer, hann var fæddur í Stockhólm, 9. Decembr: 1594. Hanns Frú Móðer var Christin, Dótter Adolphs, Hertoga í Slesvík. Hann kom til Ríkisstiórnarinnar, á sínu 17. alldurs áre, 1611. Var krýndur . . . . 1617.

Hiellt

Hiellt Bryllaup med Maria Eleonora, Dóttur Sigismundi Churfurstans af Brandenborg, enn Churfurstans Georg Wilhelms Systur, - - = 1620.

Honum fæddest ein andvana Dótter, 24. Júlii 1621.

Efter þad fæddest honum ein onnur Dotter, hvørre í H. Skýrn, var gefed þad Nafn Christina I. áred 1623.

Enn þesse burtkalladest og so - 1624.

Ad sídustu fæddest honum Dótter nefnd Christina II. þañ 8. Decembr: - - = 1626.

Hún var í Stockhólm, ad Fráfollnum þeim Sál. Herra sínum Fodur, kiorenn til Mey-Kóngs efter hann, 1637.

Sá Sál. fyrrnefnde Kóngur, kom á Þýska Grund til Penemunda, (rett þann sama Dag, sem Jubil-Hátíd var halloden) = = 1630.

Þadann reyste hann til Pommeren, Mechelborg, Nýu- og gomlu Brandenborgar, í Furstadæminu Anhalt. Sídann í Chur-Saxen til Wittenberg.

Þegar Studentarner samastadar komu fyrer Portdýrnar, til ad siá hann, sagde Kóngurenn: **Þad eru þeir riettu Lutheri Syner.**

Hañ liet kalla Professorana iñ í sitt Tialld, og sagde til þeirra: **Þier Herrar, Vier hofum fenged Lioos Evangelii frá þessum Stad, til vor í Sviiariike. Enn af því þad vill vera þar nockud dimt, er eg komenn, til ad hallda því upp vid Liooséd, med Guds hiálp.**

Hann giorde í þessum Stad, í Persónulegre Nálægd Churfurstans af Brandenborg, eitt Samband vid Chur-Saxen, dró so yfer Elvina til Leipsig, - 1630.

Hier sló hann Tyllen, 7. Septembr: = 1631.

Sídann fór hann til Francken og kom so í Augsborg, sette Evangeliska í Ráded og liet hylla sig þar . . . 1632.
Efter þad hann hafde nú hier og þar lagst um fornemma Stade, og med Lofstjr innteked þá, reiste hann med Lide sínu til Lützen.
Hier hiellt hann slag þann 6. Novembris vid Ovine sína, hlaut Sigur og dó siálfur þar, á 38. áre síns Alldurs.
Hvad annars áhrærer hanns Utrettíngar í Þýskalande, og hvad fleira er af honum ad segia, má lesa í minne Historysku Cronicu.
Hanns Líkame var til Stockhólm í Svíaríke hiá hanns Kon-únglegu Forfedrum nidursettur med veglegre Grafskrift.
Efter þeß Sál. Kóngs Afgáng var hanns efterlátenn einka Dótter Christina II. til Mey-Kóngs útvalenn, . . 1642.
Hún ferdadest aftur og fram um sitt Kóngsríke, til ad yfer-skoda þad, einkum Bergverkinn, . . 1643.
Hún upphóf til Greifastands hinn gamla Ríkisins Cantzelera Ochsenstirn, og Generalenn Leonard Thorstenson 1647.
Hún giorde Hanns Háheit Hr. Pfaltz-Greifann Carl Gustav, ad sínum Generalissimo, og sende hann med nýtt Fólk til Þýskalands.

Hún liet fyrer þann Þýska Frid, hallda eina Packlætis Hátíd, og krýna sig á þessu áre, somuleidis liet hún úthrópa Hanns Kóngl. Háheit, Herra Pfaltz-greifann og hanns Afkomendur í Karllegg, fyrer Prints og Arva-Fursta Svíaríkis, því hún hafde dýrt vidlagt, ad giftast alldrei.

Hún efterliet sínum Frænda, ádurnefndum Arfaprintz Carl Gustav Ríkissprotann, Coronuna og alla Kónglega Tign, og gaf sig burt úr Ríkinu, til Wißmar og þadann til Hamborgar.

Þar hvílde hún sig í Julio, 14. daga, fór tvo Sunnudaga til S. Peturs Kyrkiu, reid og oftsinnis gegnum Stadenn.

Þadann fór hún til Brüssel, so til Augsborgar sídann í Valland og allt inn í Róm.

Þann 16. Junii, var Carl Gustav krýndur, og í Octobri trúlofadur Frú Hedewig Eleonora af Gottorp úr Holstein, 1654.

Hann dó í Gottenborg 1660, þann 13. Februarii, og liet efter sig eirn úngann Prinz Herra Carl, fæddann 1655. þann 24. Novembris, hann var fyrst siálfur til Ríkisstiórnarinnar innsettur og krýndur 1672. því þángad til var Ríkisstiórnenn under Formindaranna tilsión, sem var hanns, Kónglega Frú Móder, og annad Ríkisins Ráð.

Þad Svenska Vopen eru þriár gular Krónur í bláum Felde: Og fyrer Gothen, eitt Lión med Gull-Coronu í gulum Felde yfer 3. þvert um rennande bláum Vatns-Lækium.

---

# Um Lond og Herradæme Stoor-Furstans í Moscov.

Af því hinn meste Hlute Landsins og Hofudstadurenn Moscov liggur í Evropa, þá filger hier strax, ad segia frá þeß Afstigkomulage.

Nú, þótt ad þesse Furste í Moscov, sie kalladur eirn Hertoge, þá hefur hann þó so mørg Lond og Líde under sier, sem eirn hinn stærste Kóngur í heila Heiminum, já, hann yfergengur ad Vallde og Landanna Vídáttu marga Kónga í Christindóminum.

Hann er eirn Herra alls **Ruslands**, hvar iñe Stadurenn **Moscov** stendur.

**Hviita-Russland** heirer **Moscovitum** til, enn **Svarta-Russland** liggur under **Polen.**

Midt í Stadnum **Moscov** liggur Sloted allt um̃ kríng um̃flóted af Vatne, þad er so stórt, ad þad mætte kallast eirn lítell Stadur, þad hefur 17. Turna, og 3. Skansa.

Hier helldur Stórfurstenn sig med sinne Hyrd, sem eru 25000. Manns.

Efter því, sem Landed er stórt til, þá er þad þó ecke Avaxtarsamt, hefur annars fiølda Villudýra, Ylge, Ura, Byrne, Hyrte, Ulfa og Hiera, yferfliótanlegt Hunáng, Hamp og Hor, þeirra Sauder eru smávaxner, eins og hiá Þýskum, eingenn Naut eru þar hirnd.

Eitt sinn fór eirn Bónde þar í Skóg, til ad leita efter Hunánge, fann nockud af því, í einu Tre sem var holt innann, steig uppí þad og vilde fá nockud úr því, sock hann í því hola Tre ofann í Húnánged upp fyrer midte, so hann komst ei upp aftur. A þridia Dege kom þar eitt Biarndýr, sem hafde þar sína Næríngu, eñ þegar Dýred seildest med Hrammenn þar inn í, tekur Búrenn í Fótenn á því, og liet þad so draga sig út, so hann komst sinn Veg.

**Moscovitar** eru Líkamahraustier, enn þó þar med miúker; Þeir brúka sída Kyrtla med þraungum Ermum, hvíta edur blá ad lit, og hafa raud Knie-Stígviel; Þeirra Vopn eru Pílur og Bogar, ein Øxe og lángur Hnífur, fattur Korde og ein

Kilfa

Kilsa fyllt med Bly; Þeirra Dryckur er Vatn edur lakur Biór; Þeir drecka sig ecke druckna utann þrísvar, edur fiórum sinnum á Are, þeir eru halldner sem Þrælar, og jafnvel Edalfólked, af Storfurstanum; Hatur og Osamlinde er almennt hiá þeim, enn eingenn Trigd, þeir hlæa ad því þegar þeir giora ødrum Skada.

Þeir bera sitt eiged Góß inní eins annars Hús, og seigia sídann hann hafe stoled því so þeir fáe Orsok til ad rifast.

Retturenn gengur hiá þeim í Kaupum og Solum, og vinnur sá sem mest Gialld hefur; Eingenn Fátækur má vænta þeß, ad koma fram̃ fyrer Furstann, já naumlega fyrer Ráded.

Stórherrarner láta skialldann siá sig, segia þetta þiene til ad auka Virdíngu sína, (rettara sagt; ad auka Hofmód sinn og Mikilmensku.)

Þeirra Túngumál er Slavoniskt, enn þó stórum blandad; Hórdómur er hiá þeim eingenn Skom̃ halldenn.

Þeirra Ríkdómur er innefalenn í Skinna-tilbúninge, Hunánge, Hamp og Líne.

Þegar Legate Keisarans Ferdinandi I. Herra af Herbenstein, kom aptur þadann, sagde hann frá Pragt og Herlegheitum Storfurstans í Moscov á þennann Hátt:

Fyrst hafe Groß-Furstenn haft eina Coronu á sínu Hofde, sem af Gimsteina prýde, hafe yfergenged og teked lángt fram̃, því þrefallda Páfans Mýtre, og eins þeim Keisaralegu, Sponsku og Fronsku Coronum.

Hanns

Hanns Kyrtill hafe alþakenn vered med Rubina, Diamanta og Smaragda, af hvorium sumer hafe so störer vered, sem ein Hassel-Nyt.

Hanns Sonur hafe og á sama hátt skrýddur vered.

Þá hann sat til Bords, hafe 100. Edalmenn, eins marga Rette, á Fotum edur Skálum, af eintomis Gulle, á Bord bored; A Bordenn og umhversis þad, hafe so morg Silfur og Gullkier vered, ad menn, (seger sá Author,) hefde ei kunnad ad flitia þaug á 20. Vognum, þvi á hanns Inntektum sieu eingenn þrot, þar hann aleinn drife alla Kaupheondlan, og þar hiá, hafe aungvum útgiftum ad svara.

I Strídsbúnade kann hann einnsamall ad fá Riddaralidinu 300000. Hesta.

Og af þvi eitt Land kann á þrefalldann Hátt nockurnvegen óhullt vera, so sem 1. ef þad er med Dýkium og Forodum, edur 2. med Vatnsfollum; og ad sídustu med þickvum Skógum umgirdt, þá láta Moscovitar sín ytstu Lands Takmork vera óbygd, og oll Skóge vaxen.

Stór-Furstenn hefur Valld yfer Lífe og Góße allra sinna Undersáta, stendur þeim þvi yfermáta mikell ótte af honum.

Hertogenn kallar sig Zar, og þad þrísvar í sinum Title; Hann drífur stóra Hondlan; Allt Víns- og Ols-Safn í hanns Lande hefur hann fyrer sig einann, hvad hann leiger vissu Fólke, og meiga þeir sonnu, sem þad lient er, láta so miked úte, sem hann gyrnest. Hann lídur ecke, ad Gialld gánge út af Landinu. Sú fornemsta Vara sem Moscov gefur af sier, er fólgen í Korne, Hamp, Hunánge, Vaxe, Bikej og Pottosku; og

verdur

verdur allt þetta í stórre Gnægd burtflutt af Hollendskum, frá Archangel, sem er ein Hofn liggiande vid **Hvíta Sioenn.**

Eingenn þorer under Lífsstraff út úr Landenu, nema hann gefe þad ádur til Vitundar.

Groß-Furstenn ber í sinne Vinstre Hende 1. Gullkroß, settann med Gimsteinum, er klæddur einum sídum Kyrtle, í hægre Hendenne helldur hann á Líkneske Christi; Efst á hanns Sól stendur Mariu Líkneske; J hanns eigen Herberge, hlavpa nockur 100. fram og aftur, í gyllene Stickium klæddir; Eingenn má lærdare vera enn Furstenn, þarfyrer gefur Rádid Utlendskum Legatum eckert annad Svar, helldur enn þad, sem þeir hafa heirt af Furstanum.

Nær Moscovitar fyrr á Dogum villdu útvelia sier nýann Stiórnara, báru þeir eirn stórann ferkantadann Stein á Torgid, stigu so, hvor eirn efter annann þar uppá, hvor sem nú so gat vared sig, ad honum yrde, ecke útaf Steininum hrunded, hann vard þeirra Hofud.

Mennerner pískudu Konur sínar hvern dag í frekara lage; og þad af Elsku, þar fyrer ef eirn dagur fell undann, hielldu Konurnar, ad Menn þeirra være þann dag reider vid þær, og voru þeß vegna so leinge hriggvar, þar til þær voru pískadar aftur.

Þeir haga sier í andlegum efnum efter Grískra plagsid.

Þad Fólk sem kallast **Mordui**, hvorier ad búa í hinum ytsta Hluta **Rísalands**, brúka Umskurnina, eins og Judar og Tyrkiar, og láta ecke skýra sig.

Rikisins Vopen er ein svort Orn, med tveimur Hofdum i gylltum Felde, sem hefur eirn raudann Skiold med Riddaranum Ste. Georg á Brióstenu.

Sá CZar, edur Groß-Furste, sem rikte 1645. hiet Alexius Michaelowitz, hvored kom efter sinn Fodur Michael Fedorowitz.

---

# Um Hertugadæmid Lothringen.

**Lothringen** hefur sitt Nafn af Syne Keysarans Lotharii, sem og so hiet Lotharius, (edur **Hlodver**) og var hiñ fyrste sem skrifade sig Kóng þessa Lands, þeir Þýsku, so sem hanns Afkomendur, kalla þad **Hlodvers Riike**; Gegnum þetta Land rennur Aeñ **Maaß**, somuleidis **Mosel** og **Saar**.

**Nancy** er Residentz-Stadur i **Lothringen**, næstur honum er S. Niclas, eirn Folkrikur Stadur.

**Lothringen**, er frióssom af Kórne og Víne, hefur darmar Laugar allslags Máim, Sallt, Málara Farva, fiolda Fiska, einkum Karfa, sem eru þriggia feta lánger.

Hier eru Glasbúder og Smidiur, i hvorium þeir Calcedoniske Steinar verda tilbúner, og hier fá menn þá bestu Speigla.

Innbyggiararner eru hálf Þýsker og hálf Fransker, góder Soldátar, sem vita vel ad fást vid Ovine sína, eru uppriktuger, enn þó slæger; þeir af Adlenum eru vel Resolut.

Þad Lothringiska Hof, er aldeilis i sama móte skeipt, sem hid Franska, þvi þar er ei allfátt af Fronskum Edalmonnum.

Þeirra Rikdómur og Formegan, er innefalenn í Kaupmannsskap, því þeir hafa í Hondlun bláann Farva, Perlur, Speigla og Glos, Lín- og Ullarvefnad, Silfur Bergverk og Salltbrunna; Þeirra Hestar eru hart nær sem hiner Tyskneſku, fyrer hvoria þeir fá og miked Gialld.

Inntekter Hertogans reikna sumer uppá 500000. Cronur, hvorra meste Partur kemur fyrer Salltsudu.

Hertoge sem þar rikte 1673. hiet Carl, ádur Greife til Vandemont, hafde fyrst til egta Nicolaam, Dóttur þess frá-dána Hertóga Hinrics, sem var hanns Fodurbróder, enn sídar átte hann Dóttur Greifans af Aspermont.



# Um Hertogadæmed Savoyen og Furstadæmed Piemont.

Til Savoyen nær Greifaskapurenn **Burgund** og einn Partur af **Schweitzerlande**, þó liggur Genffer Sióreun þar í mille, og þetta ad Nordanuverdu, enn Austanfram̄ er **Piemont**, til Sudurs og Vesturs **Delphinatenn**; Hofudstadurenn í **Savoyen** er **Cambery**, liggur í einum Dal med Fiollum um̄girdtur, og hefur miog prydeleg Hús.

**Piemont** liggur millum̄ **Alpen**, **Montferrat**, **Milano** og **Genua**, ad Austannverdu er **Po**, Sunnanfram̄ þad Genuesiska Fiall, ad Vestann þav Fronsku Fioll, og Nordann til Vatnsfalled **Doria**. Þeirra Hofudstadur er **Taurin**, eitt Furstalegt Adsetur og Háskóle, hiá hvorium ad er einn pragtugur Dyragardur.

Landed ber marga Avexte í Dolunum, enn á Fiollunum er góð Hagbeit, þad hefur og Fiskrík Votn.

**Piemont** hefur Vín, Hveite, Eple, Villebráð, Kvikfe, Lín, Castaniu og Málm.

Piemontisker elska gódar Lister og Stúderíngar, eru fróm̃er, liúfer og vingiarnleger vid Framande almennelega, þar gefast góðer Soldátar, enn Handverk eru þar fá.

Þeirra Ríkdómur er fólgenn í Bergverkum, eirnenn Kaupshondlan, Kvikfiár eign, og Pignerolskum Klædum.

Þar ríkiande Hertóge 1673. hiet Carl Emanuel, Hertogans Victoris Amadei Son, fæddur 1634.

---

# Um Lond og Herradæme Stoor-Hertogans í Florentz.

J Hertogadæminu **Florentz** verda talder 15. Stader, medal hvorra **Florentz** er hinn fornemste, hann er umhverfis 6. Valskar Mylur, og í honum 90000. Innbyggiarar; Þar rennur Vatnsfall midt ígegnum.

Hertogans Pallatz (edur Slot) má med ollum Rette teliast med þeim prydelegustu Byggingum í Evropâ.

Þar eru meir enn 50. fierleg Herberge, sett reglulega og allt um̃ kríng Stonarstoten hvar Comædiurnar verda spiladar.

I þessum Herbergium verda og Framande Herra Sendebodar hýster.

Byggíugarnar gefa og ecke[r]t efter neinu Keysaralegu, edur Kónglegu Slote í Christendómenum, þegar menn álíta þeirra konstugt Smíde, og Herlegheit Gardanna.

Þegar Hertogenn Carl af Austurríke, reyste þar eitt sinn í gegnum, sagde hann: Þetta være eitt Stadur og Slot, sem menn skylldu ei láta sia, nema á Hátídum.

Lystehúsed hiá **Florentz** heiter Pratolino, í hvoriu ad eru Uppsprettu-Brunnar.

Stadurenn **Písa** hefur Mura af Marmarasteine byggda.

Enn Kyrkiann hefur Dyrabúnad og Hurd steipta af Kopar, med einum hagleiks Turne, sem útann til er ad siá, sem hañ hánge, og ætle þá og þá ad falla, enn innann til reina menn ad hann er bygdur uppí Topp; Molldenn í þessum Kyrkiugarde hefur þá Náttúru, ad Líkamenn fortærest á 24. Stundum.

Landed umhverfis **Florentz**, er miøg ávaxtarsamt af Korne, og vel ílíkt af Garda-Jurtum, Pomerantze og Citronum.

Uñ kríng **Pistoriam**, verdur Alabastur uppgrafenn, sömuleidis Láfur-Steirn og Victril.

Innbyggiararner eru Hugvitssamer og skarper, næmer ad læra allar Konster og Hússtiórn.

Florentiske[r] eru so undraverder Byggíngameistarar, ad navmlega finnast þeirra líkar, vilia giarnann hafa Frihet og siálfræde.

Þeirra Ríkdómur er innefalenn í Silke, Ullarvøru og gyllene Styckium

 Stóre-

Stóre-Hertogenn sem þar rikte 1673. var Cosmus III. Sonur Ferdinands II. Hvor ed dó 1670. og Victoriæ sidustu Hertuginnu af Urbin.



# Um Hertogadæmed Mantua.

Efter Groß-Hertogann i Toscana, edur til Florentz, má maklega talenn verda Hertogenn af Mantua, af því hanns Herradæme breider sig lika vídt út, því hann hefur ad stiórna Margreifaskapnum Montferrat, sem stærre er helldur enn hanns eiged Hertogadæme.

Akurlonden umkring Mantua eru vel gyrdt, þaug gefa af sier Korn og Eikaávexte, menn siá varla nockud prívelegra helldur enn Vegenn frá Mantua til Marmolino; þar spretta upp úr Jordunne heiter Hverer.

Mantua er eirn Stadur, bygdur fyrr enn Trojuborg, hefur skrautleg Hús, einkum Sloted, sem byggt er framundann Stadnum, og heiter Marmirolo.

Innbyggiararner hallda af Hebresku Túngumále framar ödrum; brúka ei pragtugann Klædnad, eru vel Hugdiarfer, þeim Framande giora þeir ecke miked gott, þeirra Kvennfolk er óvidfelldeð.

Hertogenn sem rikte 1663. hiet Carl III. Carls II. Son, hann dó 1665. og liet efter sig eirn Son, Carl IV. sem fæddur var 1652.

Um

## Um Hertogadæmed Urbin.

Urbin er eirn af þeim elldstu Stødum í Vallande, Jardlaged þar um̃ krîng, er ÿfermáta gott og friófsamt, gefur af sier góda ávexte, Vín, Vidsmior og Fíkiur, þeirra ríkdómur bestendur í Fíkium og Vínhondlun.

Hertogenn er þar frádáenn, og Urbin, so sem Aukaliens komed til Geistlegra aftur.

## Um Hertogadæmid Modena.

Þetta Hertogadæme hefur þá af Este fÿrer Hertoga, þar vex allt sem til manna upphelldis naudsÿnlegt er, sierdeilis Vín. Innbÿggiárarner eru miøg slæger og underførulir.



## Um̃ Nedra-Þÿskaland, sem skiptest í 17. Nidurlendsk Hierød.

### Fyrst um̃ þau, sem undergefinn eru Hinum Spanska Koonge.

Nidurland er so nefnt til Adgreiníngar frá Efra Þÿskalande; Ad Nordannverdu vid þad, er Hid stora Haf, sunnann vid þad Lothringen, Champania og Piccardi, til Austurs Aenn Rin, og Maas, Vestannfram̃ aftur Hafed.

Heila Nidurland hefur í sier 17. Hierød, nefnel. 4. Hertogadæme, Brabant, Limborg, Lützenborg og Geldern.

Atta Greifadæme: Holland, Seeland, Flandern, Artoys, Hennegau, Namur, Zutphen og Margreifadæmed Antorph.

Fim̃

Fimm Herradæme: **Utrecht, Mecheln, Friesland, Efre-Issel** og **Gröningen.**

I Heila Niðurlande finnast 200. Stader, með Múrum umgirdter, og enn að auk 150. Pláß, sem hafa Stada Rettugheit, og meir enn 6000. Þorp.

| Hertugadæmeð. | hefur Stade | Þorp. |
|---|---|---|
| Brabant | 26. | 200. |
| Lützenborg | 23. | 169. |
| Limborg | 5. | 123. |
| Geldern | 24. | 300. |
| **Greifadæmid** | **hefur Stade** | **Þorp.** |
| Holland | 23. | 400. |
| Seeland | 10. | 101. |
| Flandern | 35. | 1178. |
| Artoyß | 12. | 754. |
| Hennegau | 24. | 950. |
| Namur | 4. | 184. |
| Zutphen | 1. | [illegible] |

**Margreifadæme Rikisins Antorff.**

| Herradæmid | hefur Stade | Þorp. |
|---|---|---|
| Utrecht. | 5. | 70. |
| Frießland | 11. | 345. |
| Efre-Issel | 11. | 101. |
| Gröningen | 1. | 145. |
| Mecheln. | 1. | 9. |

Niðurland er eitt frióssamt Land, enn Vín vex þar ecke, það hefur góða Jurtagarðs Avexte. Af Málme fá menn hier Blý og Járn, líka Marmara og Steinkol, og það í Greifadæmunum **Artoyß** og **Namur.**

**Lützenborgar** Landeign er full af Skógum, og hvad Jorden ecke af sier gefur, þad bæter Jagten edur Dýraveiden, þvi þar er Mergd Villudýra.

Innbyggiararner eru almennelega hávaxnar Persónur sierdeilis í þeim Þysku Hierodum, þeir lifa innbirdes fridsamlega, eru ecke ærughruger, enn af því þeir eru godtrúa, verda þeir opt hæglega prettader.

Þeir elska sína eigen Þiód, enn agta ei miked fyrer Framande, þeir eru miog hneigder til Savnglistar; þar fyrer finnast ecka hiá þeim hiner bestu Musicantar.

J Stríde þiena þeir betur ad vera Fótgongulid helldur enn Riddarar, til Siáfar eru ecke þeirra líkar í Heiminum, því þeir reisa á Skipum sínum hart nær til allra Kanta Verallðarinnar.

Til Hondlunar og Kaupskapar eru þeir so vel lagader, eins og þeir være fædder til þess; Þeir hafa so hreinlegann Umbúnad í Húsum sínum, og allt so nett og prýdelegt, sem nockurt Fólk kann ad hafa, þeirra Hús í Stodunum eru hart nær oll med einu Forme, so sem þaug heirde einum Húsfodur alleina til.

Kvennfólked hefur líka Hondlun, sem Karlmennerner, þad dreckur þar hiá giarnann, þó helldur Vín enn Ól, jafnvel snemma á Morgna.

Þegar einn Framande kemur i eitt Hus, þá er Bóndadóttirenn strax til stadar, ef hún er ei miog óálitleg, og bídur hinum Framanda ad drecka, já, helldur vel ad honum.

J odrum Stodum reiknudu menn þetta fyrer Manngyrne, enn hier hefur þad ecke neitt ad þýda, og finnast hier færre losæd-

is Konur, helldur enn i þeim Stodum, hvar Kvennfólk dreckur sig alldrei drucked.

Frumgetnu Bornen, so vel Dætur sem Syner, eru i meira afhallde hiá þeim, helldur enn hin onnur.

I Málara Konst hefur þesse Þióð Prís, fram yfer allar adrar.

Johann von Eichen er sá fyrste sem fann uppá Oliufarva.

Þeirra Ríkdóme, sem er hart nær ómælande, verdur hier ecke fráſagt.

Stiórnena i þessu Lande áhrærande, þá hefur Landsfurstenn Staats-Ráð, þar næst Geheime-Ráð, (edur heimuglegt) og i þridia lage Finantz- edur Inntekta-Ráð.

Staats-Ráðed hefur eirn Præsident, (edur yfersagnara,) Assessoranna tala er óviß, hiá þeim verdur rádslagad um þad, sem heirer til almennelegrar Velferdar.

Geheime-Ráðed hefur 12. Assessores, (edur Rettsitiendur,) hiá þeim verdur hondlad um Rettar- og Politie- Saker.

Yfer Finantz-Ráðed eru þrír menn setter, vel Vite borner, og af Adalsættum.

Sá fyrste verdur kalladur Superintendens Finantzanna; Annar Tresorier, hinn þridie, General-Inntakare, og eru honum tillagder nockrer Commissarii.

Oll Reiknings-Cammer meiga koma fram fyrer Finantz-Ráðed i Brüssel, því þar er þad efsta Cammer og Cantzellie.

Valldstet-

Valldstetternar eru: fyrst þeir Geistligu, þar næst þeir af Adlenum, og sídann Staderner, þessa kallar Fürstenn til Brüssel, þegar eitthvad er fyrer hende ad sýsla.

Furstenn proponerar, (edur setur í Rett,) Valldsmennerner Votera, (leggia á sína úrskurde,) þar af skiedur Slútningenn, hvor, þá Furstanum ecke gedfelld verdur, ber hann sig ad koma Dómsmonnunum til ad giora adra, því Navdþreinging edur Frekia hefur þar ecke stad.

Þegar Rádeð í einum Stad skal útveliast, kýs Furstenn til 18. af fyrrskrifudum Persónum, þesser 18. útvelia sídann 2. Borgemeistara, sá eine ber fram fyrer Volldenn þad sem horfer til þess almennelega besta, hinn annar er fyrr í Stadnum, og seger Log yfer útlendskum, sem Innlendum.

Hvad áhrærer Execution í Rettargángs Sokum, þá hefur Furstenn tvo Embættismenn, þann eina í Stórmælum, sem kallast Schultze, hinn annann í Borgaralegum Sokum, sem nefndur er Amptmadur.

Í Mecheln er Rádinu líkt skift, því þar eru 6. af Adle og 6. Borgarastands, af Formeisturum Handverkanna, medal hvorra þar helldster eru: Fiskarar, Sláturssmenn, (edur Kiotmángarar) Jurtagardsmeñ og Ölbruggarar.

Edalmennerner, þótt þeir eige Slot og Landgótz, þora þeir ecke ad þýngia á sínu Underfólke med nockrum Tollum edur Alogum, án vilia Furstanns og Leifis.

Í Trúarbrogdum eru þeir, sem tilheyra hinum Spanska Kónge, Rómversk-Catholsker, enn hiner adrer mestann Part af Calviniskre Religion.

# Um það Foreinudu Hierod i Nidurlande, sem Herrar Staatarner hafa nw Raad yfer.

Til þeirra Foreinudu **Nidurlendsku Hierada**, sem er eitt Stiórnarvellde út af fyrer sig, heyra þesse Lond:

**Seeland**, **Holland**, Stifted **Utrecht**, Stadurenn og Landed **Gröningen**, **Efre-Issel**, Greifadæmed **Zutphen**, þrír Fiórdúngar Hertogadæmisins **Geldern**, samt nockur Stycke af **Brabant** og **Flandern**.

I **Seelande** eru sio Eyar, hinn stærsta af þeim er **Walcheren**, 7. Mílur umhverfis, þeirra fornemstu Stader eru: **Mittelborg**, **Flissingen** og **Veer**.

**Holland** hefur ad Vestanverdu sier, hid Þyska Haf, til Austurs, Sudur-Siöenn, Nordannfram Stifted **Utrecht** og **Geldern**, ad Sunnanverdu **Seeland** og **Brabant**, er ummáls 60. Mylur, enn er ei miog breidt, Staderner þar eru: **Dortrecht**, **Harlem**, **Delfft**, **Leyden**, **Amsterdam**, **Enckhws**, og adrer fleire.

**Dortrecht** er halldenn Hofudstadur í **Hollande**, er bygdur mest á Leingdina, hefur, fyrer utann þær smáu, tvær vænar lángar Gotur.

**Harlem** hefur þá prydelegustu Kaupkorgs Kyrkiu í heila Hollande.

**Leyden** er eitt Universitet.

**Amsterdam** er einn hinn elldste Kaupstadur í Heiminum, hart nær oll Hús þar eru á Pelum, edur Stólpum byggd,

eins og í **Venedig**, já hann er sem ein lítil Verolld, því þángad kemur Folk frá ollum Heimshornum, til Kaupþondlunar.

**Graffenhag**, er Adseturs Stadur Printzens, og Hús Státanna, hvar þeir aller samannkoma.

Hollendsker sigla heila Jardarhnottenn ígegnum, eru hiner ríkustu Kaupþondlarar, og bestu Sioferdamenn.

**Gelderland**, hefur til Nordurs vid sig **Friesland**, Austannfram **Cleverland**, Sunnann til **Gülich**, og ad Vestanverdu **Brabant** og **Holland**.

Þetta Hertogadæme hefur í sier 24. Stade, íbland hverra fornemster eru **Rurmund** og **Zutphen**.

Hinn Spanske Kóngur helldur enn nú Þridiúngenum af þessu Hertogadæme.

**J Utrecht** búa marger Hollendsker af Adlinum.

Jardlaged og Grunndenn í **Holl**- og **Seelande** er feit og Grasgefenn, hvar fyrer þar er góð Hagbeit, þar vaxa þá Laurberiatre, Eika áuexter eru þar nóger, enn Vín ecfert.

Nær menn ferdast um Jordina í Hollande, þá bifast hún, líkt sem hún være á huldu, og þótt Grunndenn sie frióssom, þá gefur hún vídast hvar, ecke áuexte, sem Innbyggiurunum næge.

Af Kvikke er þar yfersliótanlegt, hvar um þeir Hollendsku Ostar bera Vitne.

Til **Geldern** færa menn mogur Naut úr **Danmork**, til ad feita þaug þar.

**Frießland** uppelur hin vænstu Naut í allre Evropa, þeir græda fyrer sitt Kvikfe, so miked Gialld, ad þeir fyrer þad fá nóg Korn og Vín, sier til Nauðþurftar.

Innbiggiarar í **Hollande** eru skarpsinnuger og slæger í Hondlun, stórvaxner, Kvennfólked þickleitt og frídt enn ei so vidfellded og þægelegt, sem þær í Einglande.

Þeir í **Haag** og **Utrecht** eru vel politiſker, og hinir hoifleguſtu bland Hollendſkra.

Frieſſlandar eru hrauſter og hugader menn.
Hollendſkra Ríkdómur er innefalenn í Kaupghondlun til Siáfar, Kvikfiáreign og Fiſke aſla.
Menn ſeigia þeir fáe árlega eina Million fyrer Smior og Oſta.
Þeir Fríſiſku Heſtar verda fyrer þeirra hrauſtleika Saker ſelder um̃ heila Evropam.

Hverſu foſt og ſtirk þeſſe Lønd ſieu, ſumpart af Náttúrunne, ſumpart af Manna Hondum, kann eingenn ſegia nie trúa, nema ſá þad ſied hefur, því Landed liggur allt í Sió, og þorer eingenn án Innbyggiaranna vilia þar ad høfnum leggia.

**Dortrecht** liggur øll í Vatne.
**Utrecht**, ſo fogur ſem hún er, ſo ſtirkt og grundløgd er hún vel.
**Fliſſing** hefur ſo mørg Sticke á Vøllunum, ad Borgarmeñ geta hallded frá ſier úte heilum Ørlogs Skipa=Flóta.

**Grønningen** í **Frießlande** kann leinge vidſtandaſt, þó ſim̃ hana ſie lagſt af Ovinum.
**Schenckenſchantz**, lofar og ſo vel ad ſlá ſig. Stát=

Staatarner af Holl- og Frießlande hafa alltíd vered Fríherrar, Riddarar, Edalmenn og þeir fornemstu Stader, þeirra Samkoma skedur í Haag, sem er eitt herlegur Stadur, hier um fim- edur sex sinnum á Are.

Grafenhage er ecke ummúrud, enn þó hinn listelegaste Stadur, í þeim 17. Nidurlendsku Hierodum, hefur ríka Borgara, skrautlegar Bigginngar, prýdelegar Gotur, herlega Jurtagarda og eru fiolde Innbúenda þar af Adle, so eru þar og yfer 2000. Hús, med ótelianðe Jurtagordum, Printzens Hoff er eitt af þessum Stad.

Printzenn af Oranien verdur almennelega útvalenn fyrer Gubernator edur Yferrádara Hollands, General-Statarner koma þar og samann.

Hier hallda sier uppe Valldamennerner úr Umdæmunum, Præsidentenn og Herra þeß stóra Ráds, og þeir sem Rentu-Cammerenu tilheyra.

Hier er Hoffed af Brabant, fyrer Stadena og Þorpenn sem Staatarner hafa Valld yfer í Brabant.

Trúarbrogd i þessum Nidurlands Hierodum eru þad Reformerudu.

Til skilliar Undervísunar, má Lesarenn vita, ad heila Nidurland skiptest í 17. Hierod, þar af tilheira Kóngenum í Spanien 10. medal hvorra ad eru Flandern og Brabant, hin onnur eru under þeirra Hámegtugu Herra Staatanna Vallde.

Hin Foreinudu Nidurlondenn, medal hvorra Holland er hid stærsta Hieraded, eru nú þaug sem Herrar Staatarner yferríkia

erríkia, hvorra hinn fremste Medlimur er Printzenn af Oranien; og í Stríðsríó allra þeirra Hofud.

---

# Um þad Eidsvarna Umdæme, sem eirnenn kallast Schweitzerland, og þess Bandamenn.

Þetta Umdæme, sem nú skal fráságt verda, kallast hid Eidsvarna, fyrer þá Skulld, ad þess Fólk og Innbyggiarar hafa med Eide og Svardaga skulldbunded sig til, eingenn vid annann ad skilia, hver orsök sem tilsielle, annars verdur þad líka kallad **Sweitzerland**, af Stadnum **Sweitz**, hvar þetta Samband og Brædralag giort var; Landed er af Náttúrunne umgirdt og forvarad med þeim háu Alpesfiollum, med vidum Sió, og nafnkendum Vatnsfollum.

Til þessa Umdæmis heira og Landspartarner, þeir þríer almennu Puntar, kallader **Grapuntar.**

Þeir sem búa í Landinu **Wallis**, verda og talder med þessum Eidsvornu **Bandamönnum**, og verdur so þessu Landsumdæme nefnelegast skipt í þriá Hofudparta, þad **Eidsvarnaland, Puntana** og **Wallis.**

Landed **Uri** hefur aungvann Stad.

**Altorff** er þar hid vidfrægasta Stadarþorp, kostulega bygt og vel grundvallad, hier er og so, sá nafnkende Ferdavegur, frá Þyskalande inn í Valland, yfer um Ste. Gotthards Fiall, sem hiner gomlu kolludu **Taurus.**

I **Sweitzerlande** er Hofudstadurenn sama Nafns **Sweitz.**

Basel

**Basel** er í bland Stádanna þeirra nú verande **Bandamanna**, hinn stærste og herlegaste, verdur af Anne **Rin** sundurdeilldur i tvo Stade, enn med eirne skravtlegre Brú yfer umm Ana, aftur samteingdur.

Þad er eirn Frý-Stadur Ríkisins, med herlegum Privilegiis, edur Fríheitum af Keisurum og Kóngum begáfadur, og med einu Universitete prýddur.

**Schaffhws**, liggur og so vid Rín, eirn skravtlegur Stadur, hvar Skip kunna eirnenn ad Lande leggia.

**Puntarner** byggia þad Pláts, sem er vid Upptökurnar á Rín, hiá Alpes Fiöllum.

Greifadæmed **Cleven** er Landamære millum Þýskalands og Vallands.

**Velteliin** er öll med Fiöllum umgirdt.

**Wallis** er eitt herlegt Land, og eitt Biskupsdæme út af fyrer sig.

**Rothweil** er eirn Stadur Ríkisins, liggiande vid **Neckar**-Fliöted, miog vel byggdur.

**Mülhus**, er líka eirn Ríkisins Stadur, liggiande vid Fliöted **Ihl**.

**Biel** liggur nedst vid Sióenn.

**Genf** er líka eirn gamall nafnkendur Stadur vid Sióenn, hann er sem Likell Bandamannanna Umdæmis, gengt **Savoyen** og **Frankariike**, kostulega vel festur, so vel af Náttúrunne, sem fyrer manna Hendur, Vegna Academiesins í stóru Áliite.

Fiöllenn í þessu Lande eru full af Málme og Metall, sem

þó er ecke uppgrafenn, fyrer utann Járn og Stál; Landed er fullt af Fenade, so vel villu dýrum, sem tömdum; þad hærsin Fiöllum hafa Steingeitur, Skogargeitur, Greifingia, Otra og Bifra, af Fuglum er þar allslags Kyn, af Avoxtum ei helldur skortur; Þeirra Vín er mestann Part nýtt, sem batnar og tekur sig, þá þad elldest.

Landed **Wallis** er vegna Gróda, Avaxta og Dýra eitt rett undrunarland, af Víne hafa þeir þad kostulega Muscatell-Vín.

Innbyggiararner hafa Hróß fyrer þad, ád þeir sieu af Náttúru hiner hraustustu, og þar med hugader, þeir brúka liettvægann Klædnad; eru góder og tigger Soldátar, hvar vid þeir eru vander frá Ungdóme.

Ríkdómur þessara Landa, er mest innefalenn í Jardar ávoda, af Korne, Víne og Málme, líka Tollum, því í nöckrum Stödum þessara Landa, er reisande Fólks Vegur, og jafnadarleg Ferd á.

Í **Basel** er ein stór Bóka- og Pappírs-Hondlun.

**Schaffhws** hondla med Sallt og Vín.

Þad Verdsliga Stiórnarform **Bandamannanna**, er sum part Aristocratiskt, sumpart Democratiskt, samblandad, og hafa þeir Eidsvornu Stader, eitt sameigenlegt almennt Ráđ, edur og í hvorium Stad úraf fyrer sig.

Þad almenna Ráđ þeirra Eidsvornu Umdæma skedur fyrer Sendemenn, edur Fullmegtuga, hvorier samankóma á einum Dagsettum tíma, og skedur þesse Samkoma almennelegast í **Basel**.

Hvor Stadur og Landspartur, hefur sína sier í lage, fyrer sig.

Londenn hafa eirn Land Amptmann.

Staderner sína Borgmeistara, hvorier ed frambera fyrer Ráded, allt þad sem fyrerfellur, og fá Urskurd þar á.

Stadurenn **Chur** hefur sinn Borgmeistara.

Landed **Wallis** eirn Biskup, og

Stadurenn **Beil**, sinn Borgmeistara.

Hvad Religionena áhrærer, hafa sumer Protestantisk, nockrer líka Rómversk-Catolsk Trúarbrogd, og brúka mestann part þad Þýska Túngumál.

---

# Um Herradæme og Stiornarvalled Venedig.

Ríked **Venedig** hefur til umráda á þessum Dogum **Lumbardiam** og **Trevíser=Mork**, 7. stora og prydelega Stade, fyrer utann þá smáu, af hvorium ad er mikel Mergd.

Staderner eru, Bergamo, Crema, Brixia, Verona, Vicentia, Padua, Tervis, og adrer fleire. Nordannverdt vid sig hafa þeir næstum alla **Friaull**, sommleidis **Istka=Rike**, sem er hid ytsta Hierad af Vallande.

J Dalmatia vid Sióenn, eiga þeir Stadena Zara, Spalato, Cataro og adra.

Af Eyunum heira þeim til; Corfu, Zafalonia, Zante, Cerigo, sú nafnkenda Ey **Crit** edur, Candia, ad helmínge, edur hálf.

Stadurenn **Venedig** er ecke einasta hinn prydelegaste í Vallande, helldur í ollum Heime, já vegna þeirra morgu

Slota eitt Furduverk, þeirra Kyrkiur eru innann til glansande af Marmara, Alabastre, Jaspis og Porphyr-Steinum, Sperrur Hvelfingarinnar, edur Ræfursins, standa allar á Marmara Stólpum, hin kostulegustu Likneske og málađar Minder fá menn hier ad siá.

S. Marci Kyrkia er so prýdeleg, ad menn finna ecke hennar líka í Christindóminum, innann til er hún af eintómuis skiгndum Marmarasteine byggd, Gólfed er lagt med Topasio og Porphyr-Steinum, Ræfred og Veggerner eru af Steininum Ophite, og ødrum kostulegum Gimsteinum.

Kyrkiu-Ræfred stendur á 36. Marmarastólpum; hver sem kemur í þessa Kyrkiu, og sier þavg margfølldu Bilæte af Koppar og Marmara, hann má segia þad sie eitt Heimsins Furduverk.

Tablann yfer því háa Alltare, sem þángad var flutt frá **Constantinopel**, er af klára Gulle og Silfre, øll med Perlum og Edalsteinum sett, so madur má forvidá verda þar á ad hórfa.

Bak vid þetta háa Alltare er ein litel Capella, hvar inne þad Háverduga Sacramentum handterad er, hún stendur á 4. Stólpum af hvítum Alabastre.

J bland allra Helgradóma, er þar Ste. Marci H: Líkame, og þad Evangelium, sem hann med eigenn Hende skrifad hefur.

Hvad í Sacristienu (edur Kórnum) er ad siá, hvørs Hurd ad er yferslegenn med ánegldum Gullplotum, viliumm vier einasta hid fornemsta ávíkia.

Hier eru mørg Bilæte Heilagra, med Cronum á sínum Høfdum, í hvorium ad eru stórer Rubinar, Diamantar, Topastar, Chryso-

Chrysolithar, Hyacinthar, og adrer Gimsteinar, likа siást hier heil Kier af Agat=Steine, Onyx og Jaspis.

Sú Furstalega Húfa, sem hinn nýútvallde Hertoge setur uppá sig, og þær Skeinkíngar sem gefast af framande Potentatum, eru eirnenn geimdar í þessu Sacristie.

Húfann, sem er af klára Gulle med Gimsteinum sett, hefur í Toppnum eirn so stórann Carbunculum, ad hann vegna sinnar stærdar er ómetanlegur, so menn mættu segia ad hier være ecke eins Stadar, helldur alls Heimsins liggiande Fe ad siá.

Af Silfur- og Gull=kaleikum, Lyktum, Lompum, Bikurum, og kostulegum Messu=Skrúda, er so miked, ad ei verdur tolu á komed.

Kyrkiann hefur so vel innann til sem utann, 500. Stólpa, og ofann til er hún med yfergylltum Kopar þakenn, so nær Sol=en skín, og menn koma á Skipum frá Dalmatia til Venedig, gefur hún stórkostlega byrtu af sier.

I Stadnum Venedig telia menn 450. Brúr og 8000. Feriur til yferferdar, sem alltíd eru til Reidu.

Heile Stadurenn Venedig er umhverfis 7000. Skref.

Ad þesse Stadur hafe í fyrstu vered af Fiskurum bygdur, so sem Almúgе seger, þar skrifar Cassiodorus á móte sdrumfs, sem var eirn Rómverskur Rádherra, því í Tíd Kóngsens Didrichs af Bern, nefner hann Venedigska í sínum Skrifum Edalmenn, því þeir hafa ótolulega mörg Skip under sínu Vallde.

Þetta skrifade Cassiodorus Anno Christi 495. hier um 90. árum efter þad Stadurenn var fyrst bygdur; Hvernenn kunnu

þá fátæker Fiskarar, án stórra Efna og Formegunar, útbúa so mikenn fiølda Skipa, á so fáum árum.

Plátzed hvar Ste. Marci Kyrkia stendur, er allt í kríng umgirdt med herlegum og pragtugum Byggíngum, og allstadar med sínum Spátzerunar-Flotum framundann.

Hier kemur, ecke úr Evropa alleinasta, helldur úr Asia og Africa ótølulegur fiollda Fólks samann, og þar heira menn allslags Túngumál, menn siá hier og allrahanda framande Dragt, so þetta Pláz mætte kallast ein ný Verolld.

Gegnt Siónum standa tveir stórer Stólpar, vel digrer af Marmarasteine, úr Phrygia, hvorier úr Constantinopel voru þángad færder, nær menn sigla á Skipum til Venedig, sier madur þessa Stólpa lángt til af Siónum, á odrum stendur Vængialión S. Marci, enn á hinum Ste. Theodors Líkneske; Millum þessara Stólpa eru Illvirkiar aftekner.

A þessu S. Marci Plátze, er eitt Bibliotek, af allrahanda kostulegum Bókum, sem finnast í Heiminum.

Hálfa Mílu frá Venedig, liggur ein Ey, kollud Muran, í hvørre ad eru nafnfrægar Glasbúder, hvar þad Venedigska, edur Chrystalliska Glas er tilbúed.

Hier um 500. Skref frá Stadnum ligggur Eyann Ste. Gregorii, hvar ad er eitt Clavstur og Kyrkiann þar inne af eintomis Marmara.

I Stadnum Venedig eru 66. Sóknar-Kyrkiur, 26. Stifte, 54. Clavstur, 17. Hospitol, og 18. Capellur.

Þar

Þar eru og í **Venedig** 50. Þíngstader, edur Dómssæte, hvar Rettur er halldenn.

Framar eru þar 140. Klucknaport, 10. steipter Hestar, og 185. Lystegardar.

Þad Þyska Hús þar, er ecke lítils verdt til ad siá, þar eru inne 200. Kamers, í hvorium þeir Þysku Kaupmenn herbergia.

Menn finna líka í **Venedig**, heila áred ígegnum 200. Tegunder af Eika-Avextum, fyrer utann Matar-Jurter, Fiske-fáng, og ønnur god Matvæle, sem hiner efnagódu, af hvorium þar eru ei allfáer, hafa á sínu Borde.

J **Treviser**-Mork er Jardlaged frióssamt, og Lofted heil-næmt, þar er gódur Kvikfiár Afle, og kostulegt Vín, morg Vatns-foll, og á Fiollunum vaxa Jurter, til Lækninga nytsamlegar.

Innbyggiararner í **Venedig** eru hofdíngleger og alvorugef-ner, og á stundum nógu stránger, yfer Bordum tala þeir ecke margt, giora allt med Umþeinkíng og gódum Rádum.

J **Venedig** er mikill fiollde af allslags Handverks-Meisstu-rum, þar hallda sier líka uppe, Grísker og Judar, hvor med sin Trúarbrogd.

Um Kvennfólked segia menn, ad þær í **Venedig** sieu stóllt-ar og hofmodugar, í **Crema** kókar, í **Vincenza** stoduglindar, í **Verona** vingiarnlegar, í **Bressa** idnar, í **Trevis** snogg-lindar, og í **Bergamo** slægar.

Jafnvel nú þott þeir Venedigsku hafe stórann Ríkdóm, þá eru þar líka aftur á mote, eins og annarstadar, otolulegar Utgif-ter.

Hvílík þeirra Stríðsmagt sie, þarf ecke um ad skrifa, þvi þeirra

þeirra Magt til Lands og Siáfar, er alkunnug og deginum lióſare, ſo er og án þarfa ad ſegia frá þeirra Tiahúſe, hvors líke ecke finnſt í Heiminum.

Alltíd er þar ad finna 200. Galeidur, fyrer utann þær 40. ſem alltjafnt eru á Siónum.

J þierra Arſenal edur Tiahúſe, er til Utbúnadur fyrer 1000. Galeidur, þar eru til Erfidis hvorn dag 300. Manns, þeir kunna á 10. Døgum ad giora 30. Galeidur ferdugar.

Sá Venedigſke Stiórnarháttur, ſem bæde er umþeinkíngar- og undrunarverdur, hefur til þeſſa leingur ſtødugur ſtadeſt, helldur enn nockur annar ſem menn um leſa, og þad fyrer þá gódu Stiórnſeme, ſem þeir færa og hallda, því Hertogenn er miøg høfdínglegur, jafnvel þótt hann hafe ei meire Myndugleika, helldur enn eirn af þeim elldſtu Edalmonnum, í Rádenu hefur hann ecke nema eitt Votum, fyrer utann þad, ſem hann hefur á hende Rádſins Vegna, ad gefa Svar þeirra Utlendu Potenta Sendeherrum.

J Fridar og Stridsſøkum þorer hann eckert giora fyrer utann Vitund Rádſins, Aftur á mót má Rádet giora, og eru Forórdningarnar ſo under hanns Nafne publiceradar.

J Yferrettinum eru 10. Herrar, vid hvoria ad bætaſt 15. Ráds-Herrar, og 6. Conſiliarii, þeirra Foríngi og ædſte Rettſitiare er Hertogenn, og má ecke frá þeirra Dóme appellera.

Einuſinne í Viku hverre, koma þeir ſamann Sunnudags morgnninn, enn eingenn má takaſt til Yfervallds-Stiettar, nema

hann sie ádur af helminge Rádsherranna, þar til hæfur álitenn, og fara þeir ecke efter Ríkdóme, helldur Skickanlegheitum.

Venedigsker hafa nú meir enn 1200. ár hallderst vid í sínu stande, og kunna ei avdvelldlega sundurtvístrast, edur undergánga.

Enn af því eingenn hlutur er so fullkomenn, ad þar finnest ecke neinn brestur edur áfátt, so gengur þad eirnenn fyrer þessare Velldisstiórn, á þann hátt, sem filger:

Fyrst eru Innbyggiararner so marger, ad til þeirra verdur ad færast Underholdning úr Tyrkeríenu og Spanien, hvörs vegna Venedigsker þurfa ad siá sig vel fyrer, ad þeir umgángest vareigdarlega vid Tyrkia og Spanska.

Þad annad, ad þeir hafa mestannpart Vallendskt Strídsfólk, sem ecke duger neitt til Bardaga-Framkvæmdar, so ad betra være, þeir leigde sier Þyskt Fólk; og

Í þridia lage, ad þeir trúa framar útlendum helldur enn sínum eigenn, og fá þeim Stríds-Umsvifenn á hendur, reida sig eirnenn allt of miøg uppá Styrkleika sinna Stada og Slóta.

Þó kann hier á móte ad setiast þad, ad hinna Venedigsku Asetningur er, ad hallda sínu Stiórnarvellde í Fríheitum og Fríde.

Í Trúarbrøgdunum eru þeir helldur Rómversk-Catholsker enn Grísker.

Í Vallande hafa Venedigsker og so fasta Stade og Kastala, medal hvorra er Stadurenn **Bressa** í **Lumbardia**, **Verona** eirn frægtlegur Stadur, **Bergamo**, **Crema** og **Vincenza**.

Landed **Friaul** hefur Titil af Hertogadæme, þad Land er allstadar med Hálsum og Hædum umgirdt, so sem eirn Siónar-Flotur med Girdíngum.

Anno Christi 1420. komu Venedigsker þessu Lande under sitt Valld, og jafnvel þótt þar finnest Greifar og Herrar, þá vidurkenna þeir þó hina Venedigsku fyrer sína Yfermenn.

Þetta Land gefur af sier góda Avexte og herlegt Vín, líka kostulega Steina, so sem Marmara Berilla, Calædona og Chrystalla.

Vid Flióted **Idria** eru Silfurgrafer, og skamt þadañ, heitar Hvera Uppsprettur.

Hofudstadur þessa Lands er **Udena**, í hvorium ad er yferfliótanlegt af ollum hlutum. Næst **Udena** er **Aqvilegia**, hier hlíode Augustus Keysare á Klogumál Gidínga yfer **Herode.**

**Trient** er eirn prídelegur og nafnkendur Stadur.

I Vorrar Frúrkyrkiu þar, liggur grafed Barn Simeonis, sem Gydíngar fordum píndu og deiddu.

Stadurenn er med gódum Múrum umgirdtur.

**Tervis** er eirn frídur, og ecke allítill Stadur, vidlíkt lagdur og **Padua**, hann er hartnær allur umgirdtur med Vatne, hefur þar med sterka Múra med Skotvopnum vel setta.

## Um Eyarnar í Midjardarhafenu, sem heira under Vellde hinna Venedigsku.

Fyrst er Eyann **Criit** edur Candia, sem hin fornemsta, frá hvorre menn kunna hentuglega ad sigla til Evropam, Asiam, og Africam, er 270. Mílur á leingd, 50. á breidd, og umhverfis 588. Mílur, Landsgrundenn hefur morg Fioll; Þeirra Stader eru **Candia**, **Canea** og **Retima.**

Malvasie, sem hier vex, verdur úr Eyunne flutt út um alla Evropam, af Miólk og Kiote er hier yferfliótanlegt; Cyprus-

vidur

blður þeg hier so kostulega, sem i nockrum Stad ødrum, þar gefast Ráðhr, Geitur almennelegar og Steingeitur, hvoriar sídann ecke stærre eru helldur enn eirn Hatur, dockravdar á Hárlit, og hafa eitt sidt svart Skegg; Þegar Steinhafurenn er gamall kañ hann ad hlaupa meira enn Hiortur, hann finnur lugtina af Veidemønnum og Hundum um 100. Skref, verdur ef hann er úngur avdvelldlega fánaadur, sie hann skotenn med eirnre forgiftugre Pílu, læknar hann sig siálfur med eirnre Jurt.

Innbyggiararner á þessare Ey, venia sig frá Barndóme vid Bogaskot, so þeir í því taka jafnvel Tyrkium fram.

Eyann **Corfu** liggur í þvi Joniska Hafe, er rík af Hunange og Vaxe, Vidsmiøre, Víne, Citronum og Pomerantzer. Innbyggiararner brúka Grísk Trúarbrøgd.

J Eyunne **Cephelonia**, er eckert Vatnsflíót eda Brunnar, so ad Dyrinn hvorium menn gefa ecke ad drecka af tilflutu Vatne, sverra munnenn upp Kvølld og Morgna til ad taka vid Náttdøgginne.

Eyann **Zante** gefur af sier mikil Rúsin.

Þegar eirn nýr Hertoge er kiørenn í **Venedig**, þá koma aller Patricii og Edalmenn tilsamans, sem nád hafa 30. ára allder, sídann er Herbergisdyrunum læst, og sett nidur eitt Kar edur Stál, þar í eru so margar Kúlur, sem Herrarner eru nálæger, af þessum Kúlum eru 30. forgylltar, hinar adrar hvítar edur ógylltar.

Af þessum Kúlum tekur hvor fyrer sig eina upp, þeir sem fá þær hvítu, gánga samann í Hóp, enn hiner sem fá þær gylltu, eru færder í eitt sierlegt Herberge, þar verdur settur eirn Pott-

ur edur Skál, í hværre ad eru 30. Kúlur, þar í bland 9. gylltar, hinar hvítar, þeir Herrar sem grípa upp þær 9. nefna til 40. menn, sem þeir kalla hina fyrstu Utveliara, þesser kasta 40. hlutfallskúlum í Skálina, þar af eru 12. gylltar, þá sem grípa þær upp, kalla menn hina adra Utveliara, þeir tilnefna 25. af hinum, þeir grípa og só Kúlur upp úr Skál hvar íbland 9. eru gylltar, þá sem þær fá, kalla þeir þridiu Utveliara edur Kiøramenn, þesser tilnefna 41. menn, sem útvelia skule þann tilkomande Hertoga í **Venedig**, á þennann Hátt:

Hvør eirn skrifar þeß Nafn, sem hann med siálfum sier útvaled hefur, á eirn Sedel, stíngur honum so í eina Kistu edur Stock, þar í er líka hinum ødrum stúnged, úr henne verda þeir aptur upptekner, vafder samann, og hrister til og frá í einum Hátte, sídann í rød lagder nidur á eitt Bord.

Ad sídustu verdur sá sem af þessum 41. Utvalníngarmønnum, hefur 25. sier filgiande, þeir ed tilnefne hann, útvalenn til Hertoga og upphrópadur.

Sá sem rikte 1673. hiet Franciscus Contarenus.

Þad Venediska Vopen er eitt Lión med Vængium sem helldur á Sverde í Hramminum.

---

# Um Stadenn og Velldid Genua.

Landed **Liguria**, hefur ad Vestanverdu vid sig þavg há Fiøll, sem adskilia Frackland og Valland, Sunnan til þad Genuesiska Haf, Nordannverdt Fialled Apenninum, ad Avstannverdu adskilur þad Flióted Macra, frá því Toscaniska Lande.

Vid Strøndina á því Liguriska Hafe, er sá vídfræge Stadur **Genua**, sem er Høfud heila Landsins, reiknast ad vera um-

umhverfis 6. Valskar Mílur, hefur pragtugar Byggingar, so ad þeir Volsku brúka þad ordtak: **Su drambsama Genua;** Þeir høfdu fyrst Greifa, sídann Hertoga fyrer Yferherra.

**Savona** er einn hinn elldste Stádur í **Liguria.**

Ur þessum Stad voru ættader og Barnfædder þrír Páfar, Gregorius VII. Julius II. og Sixtus IV.

Øll **Liguria** er hrióstrug og Fiallamkil, gefur þó af sier miked Vidsmior, Citronur og Pomerants, gott Vín, sem er líkt Malvasie, ogso mikla Bómoliu, ad nockur þúsund Fot edur Kier eru fyllt þar af, somuleidis Dattelur, Granat og Limoniur.

Eyann **Corsica** hefur Hunáng, Vax, Vidsmior, Vín, Fíkiur, Alun, Coraller og Beikevid.

I Eynne **Gallinaria**, er mikell fiolde Hænsna, enn eru miøg vill og ótamenn.

Þeir gomlu Innbyggiarar voru Sióreifarar, og líkare Villudýrum enn monnum, enn nú á Døgum eru þeir skarpsinnuger, og þar hiá hofmóduger, slæger í Kaupþondlun, og góder Stridsmenn til Sláfar.

Til **Genua** eru í því stóra Ráde 400. Borgarar, og í því minna 100. Edalmenn.

Þeirra Hofud er Hertogenn, hann halldа þeir í miklum Virdingum og Mindugleika, enn þad varer ei leingur enn í 2. ár, um hvorn tíma passad er uppá hann af 50. Þýskum Soldatum; Hertogans útvalning skedur á efterfilgiande hátt;

Þann 3. Januarii, kemur þad minna og stærra Rád saman, þó er Hertogenn þar frá útelluktur, sem ad afsiødnum sínum Vall-

tatíma, vikur frá þessu Embætte, og lifer heima hiá sier, sem önnur Embættislaus Persona, þo behelldur hann þeim Title ad heita Rikisins Procurator.

Sídann útvelur þad stærra og minna Ráð, 28. af Adlinum, eirn úr hvore Ætt, þeir verda færder í eitt Herberge, og í einum sierlegum Stad innelukter, ásamt þeim af Rádherrunum sem vissa orsaka vegna meiga ecke til Hertoga útveliast; Þesser velia aptur 18 hvorier ásamt hinum fyrr umgetnu 28. gefa til vitundar fyrer Ráðinu, hvöria þeir hallde hæfa til þessarar tignar, enn þar meiga ei tilnefnast fleire enn 4. Persónur, hier uppá gefa Rádherrarner sína Atkvæde, hann sem nú fær flest Vota, edur Medmæle, hann verdur Hofuded, hefur hann sídann sier næsta 8. Gubernatores, hvorier og so epter tveggia ára frest meiga aptur taka sitt Afskeid.

I Religions-Sokum eru þeir Rómversk-Catholsker.

---

# Um Stadenn Luca, og hanns Stioornar-Raad.

Luca er eirn prydelegur og stor Stadur, hann liggur í því Toscaniska Lande, hefur sterka Múra, skrautleg Hús og Slot.

I Hofudkyrkiunne, sem nefnest hins H: Kross, er eirn Kross af eintomus Gulle, sem kostar 15000. Cronur.

Innbyggiararner eru skarpleikamenn, og miog vingiarnleger, hafa þar hiá lof fyrer þad, ad þeir lese giarnann heilagar Bækur, og ad þeirra Kvennfólk sie framar ödrum skyrlíft, í tale sínu er, so sem þeir sýnge edur kvede vid raust; Þeirra efne og formegan

er innefalenn mest í Silkehondlun; Ráded er þeirra Hofud; Vegna Letíngia og Ydiuleysinga, er þar eirn sierdeilis Rettur halldeñ, á þann hátt:

Þar stendur openberlega ein Kista á Torginu, í hana kastar hvør, sem vill einum Sedle, (á hvorn Letíngans nafn er skrifad,) þegar nú eins nafn finst á hinum og þessum Sedlum, má su Persóna koma fram, verdur sídann hanns nafn úthrópad á þremur stodum, og honum í útlegd vísad um þriú ár.

So eru og 8. menn tilsetter sem skule gefa giætur ad þeim Herbergium, í hvorium framande Menn verde vel og skickanlega hýser.

## Um Stadenn Genff, og þeirra Stioornarvellde.

Stadurenn Genff, sem reiknadur er med Savoyer-Lande, er miog gamall, og liggur í einu lystelegu Plätze, hvar ed Flióted Rhodan rennur aftur úr Siónum, og skipter Stadnum í tvo hlute, Landslaged er gott og ávaxtarsamt, gefur af sier allslags til navdþurftar.

J Rhodan hafa menn Silúngsveide.

Jnnbyggiararner eru nockud ónetter, gefa vel giætur ad framande Monnum, elska meir þeirra Gialld, helldur enn Persónuna, þeirra Kvennfólke er, framar odru, fyrer hreinlífe hrósad, þeir fornemstu af þeim tala Fronsku, enn alþídann Savoyisku.

Þavg herlegu Bókþryckerí og Silkehondlun þeirra, aflar þeim Ríkdóms.

Þeirra Rád bestendur af 25. Persónum, sem hvorndag gánga í Rádhúsed; Þeir hafa lof fyrer þad, ad þeir í Rettargángs-

Sokum

Sokum hallde meir med sínum eigenn, helldur enn Utlendum, hvad hinum framande þiker nockud þúngt.

Þeir hafa þad Reformerudu Truarbrogd, og lída, aldeilis aungvann Rómversk-Catholskann hiá sier.

Anno 1539. hofdu þeir Johannem Calvinum fyrer Predikará.



# Um Stadenn Ragusa.

Stadurenn Ragusa, liggur í Slavonia, edur þó helldur í Dalmatia, hann gelldur árlega til Tyrkians 14000. Ducata, er byggdur í einu lystelegu Plátze, ecke lángt frá Sió, grundenn í kríngum Stadenn, gefur af sier herlegt Vidsmior, Avexte og Vín.

Þar er eirn Dalur edur Láglende, í hvorn ad safnast so miked Vatn á Veturnar, ad þad verdur eins og Siór, og gefur úr sier so feita Fiska, ad menn kunna ad sióda þá í þeirra eigenn Fitu, edur Smollte; A vorenn þornar Vatned upp, er þá sád Hveite og Korne í Farvegenn, edur Vatnsstæded, hvort so tidlega sprettur, ad þad verdur sama ár uppskored.

Af þeim Triám, sem standa vid Sióskouna taka Innbyggiararner Greinernar, binda stóra Steina þarvid og kasta í Sióenn, þar á fester sig mikell fiollde Skelfiskiar edur Kudúnga, sem gefur Landsmonnum herlega Fædu.

Þeir gomlu Innbyggiarar voru blódþyrugt Fólk, nú lída þeir ecke ad eirn take sig upp yfer annann, þeir heilsa hvor odrum

ödrum med óhrærdum Hatt og Hende. Kvennfólked lætur ecke sitt Hár sídt vaxa, eru miked gefnar fyrer svörtum Lit.

I Klædaburde brúka þeir góda Reglu, eingenn þorer þar Silkeklæddur ad vera, nema Rectores og Doctores.

I Egtaskapar=Sökum gengur þar so til: Brúdgumenn fær Giftingaleifed, edur Samþicked, ádur enn hann sier Brúdina, þad er líka þeirra Lög og Regla, ad eingenn skule leggia hönd um Háls Kvennmanne, edur kyssa, nema þad sie Brúdur og Brúdgume.

Þeirra Ragusisku Ríkdómur er innefalenn í Kauphöndlun; Enn þeirra Stríds-afle er lítilvægur; Þeirra Stiórnarform er í mörgum hlutum samlíkt hinna Venedisku.

I Trúarbrögdunum eru þeir Rómversk=Catholsker.

Og er so útsagt um Ríke og Stiórnarvellde Christindómsins.

---

# Um Stoor-Tyrkians Magt og Vellde i Evropa.

I Evropa hefur sá hartnær óyfervinnanlegaste, Tyrkneske Keysare, Austannverdt vid sig þad Egeiska Haf, **For-Sioóenn** og **Svarta Hafed**, Sunnannfram Midjardarhafed, ad Vestannverdu þann Venediska Fiord; Nordaunfram **Ungaren**, **Siebenborg**, (Siooſtadina) og **Moldagey**.

Þesse Lönd eru umhverfis, sem Siáfarströnd rædur, 10500. Valskar Milur.

J Africa er Tyrkenn Herra yfer heila Lande og Sió, undanteknum fáum Plátzum, sem liggia under hinn Spanska Kong; Hann hefur Kongsríked **Algier, Thunis, Tripolt**, samt heila **Barbaried**, líka **Egyptaland**, af **Alexandria** allt ad **Siene**, sömuleidis **Troglodytaland**, hinumegenn árinnar **Nil**, allt ad Rauda Hafenu.

J Asia hefur hann, Pontum, Bithyniam, Landed Asiam, Phrygiam, Lyciam, Paphlagoniam, Galatiam, Pamphyliam, Cappadociam, litlu Armeniam og Ciliciam; Enn nú hefur hann Cypern, Syriam og þad H: **Land**, Jtem þá gryttu Arabiam, Mesopotamiam, Chaldea Land og **Babylon**, hann er líka Herra yfer Amásia, eirnenn til Trebisonda.

Hvad nú áhrærer Herradæme Stór-Tyrkians í Africa og Asia, þá filger þad hier sídar á efter, vier vilium fyrst tala um hanns Lond í Evropa.

J **Thracia**, sem nú kallast Romani, liggur **Constantinopel**, Hofudstadur hins Tyrkneska Ríkis, honum er næstur **Adrianopel**.

**Constantinopel** hefur sitt Nafn af Keysaranum Constantino, hún er rík af Folke, Giallde og Godtze.

Mustere Stæ. Sophiæ er so herlegt og hefur so mikenn Ríksdóm til ad bera, ad þad lytur so út, sem Justinus Keysare hafe viliad herma efter Salomon Kónge.

Sá skravtlege Stadur, var af Mahomet, hinum fyrsta af því Ottomanniska Slegte, med strídande Hende inntekenn; Stadzurenn

urenn liggur í einu hentugu Pláße, þar sem hid svarta Haf reñur í Propontidem, edur Fór-Sioodenn, í soddann þreingslum, ad gamler Menn skrifa, þar hafe eitt sinn Uxe yferum sindt; Hann hefur fasta Múra, og innebirger í sier sio há Fioll.

A einu Fiallinu stendur eitt gamallt Stot med sio Turnum, so kunáttusamlega tilbúnum, ad þad sem madur talar í þeim eina Turninum, þad heirest í øllum sio.

I Múrnum kríngum þennann Stad, eru hier um 2000 Tyrknesk Mustere og Capellur.

Niáfred á S. Sophiæ Kyrkiu, stendur á 16. kostulegum Stólpum, fiórer eru af gömlum Marmara, sem glansar eins og Jaspis, fiórer af snióhvítum Marmara, fiórer af Porphyrsteinum, og fiórer af annarsslags kostulegum Marmara.

Framar stendur þesse Hvelfing á odrum 45. Stólpum, af líku efne giordum, til Knappsins edur Toppsins á þessare Kyrkiu, verdur ei skoted med Bissukúlu, hvár af ráda má Hædina á Bygginguune.

A Plátzinu stendur eirn Stopull, sem af Marmara er samansettur, fyrer utann allt Kalk, midt í honum eru Vindil-Steintroppur, epter hvorium madur kann ad gánga upp í efsta Topp.

Hvört Handverk hefur sína Gotu edur Stræte utaf.

A Torginu er ein lavng Hvelfíng, sem stendur á 24. stólpum, þar under hafa allslags Kramarar sínar Vorur ad selia, af hvorium nockrer gefa Tyrkium 500. Ducata, einasta til þeß ad meiga bióda þar Varníng sinn til kavps.

Ecke lángt hiedann er þad ógiæfupláʒ, hvar Manneskiur, bæde Kallmanna- og Kvennmannapersónur eru á Bodstólum til kaups; Þeir sem eitthvad kunna, edur lært hafa, standa í skrautlegum stad, enn þeir sem eckert hafa lært, á einu ödru ríngara Pláʒe, Kaupendurner yferlíta og skoda þessar Vörur allsnaktar, hvort þad sie allt heilbrigdt, líka vel í þeim stodum, sem Náttúrann siálf vill hafa hulda, þær fríduſtu Stúlkurnar kaupa hiner svörtu Mohrar, til ad misbrúka þær, hinar adrar eru seldar til þeß, ad veita þeim Tyrkneſku Matronum, óhreinlega Þiónustu, (sem ei sómer frá ad segia.) Sú ólucka sem þetta sellda Fólk verdur út ad standa, kann valla án Tára í Rit ad færast, þad stendur í Járnhleckium, og bídur efter þeirre Þiónustu, sem verre er enn Daudenn.

Fyrer allt hvad menn kaupa, meiga menn fyrerfram Penínga útleggia, og so vel fyrer Mannfólk, sem adrar Vörur Toll gefa.

Sína Studenta kalla þeir Softhi, þesser skrifa allar Tyrkneskar Bækur, (því eckert Prentverk hafa þeir,) fyrer hvad þeim er ríkuglega betalad.

Í þeirra Södla-Smidiu, hvar hiner skrautleguſtu Södlar eru tilbúner, ervida 4000 Manns.

Eitt er lofsverdt hiá Tyrkium, ad þeir giora meira gott Fátækum, jafnvel á einum dege, helldur enn vier Christner á einu heilu Are.

Fram undann Stadnum Constantinopel, siá menn prýdeleg Bænda Hoff, hvar þeir Sponsku, Fronsku og Venedisku Sendebodar uppehallda sier.

I Stadnum **Constantinopel** eru 3. Konúngleg Hoff.

Pad fyrsta heiter á Tyrknesku Escii Saraii, **hid gamla Hof**, liggur midt i Stadnum, pad er umhverfis priár Valskar Milur.

Hier inne hafa nú á dogum sitt Adsetur, fornemme Kvinnur og Barnfóstrur, sem Kóngsbornenn uppfostra.

I hinu odru Hoffinu verda 400. Stór-Tyrkians Edalborner Pilltar uppfóstrader, og í allrahanda ydkunum uppfrædder.

Pridia Hoffed heiter Briach Saray, **hid stoora Hof**, og petta er Stór-Tyrkians Hof siálfs, pad er umgyrdt med háum sterkum Múrum.

Pad er umhverfis 5000. skref, edur hálf pridia Fronsk Mila.

Sum Herbergenn eru med hreinu Silfre, sum med forgilltu Silfre beslegenn á Hlidveggiunum, og Gólfed yferbreidt med Persiskum Tiallodúkum.

I pví stóra Hoffe eru 9. Kockhús. Pad fyrsta er fyrer Stór-Tyrkiann siálfann, annad fyrer Sultaninnuna, hanns eigenn Kvinnu, edur pá, sem hann af ollum Hiákonunum kiærasta hefur; Pridia fyrer hinar adrar Kvinnur, fiórda fyrer **Capi-Aga**, Stór Hofmeistarann; fimta fyrer Divano, Hof Rettenn; siotta fyrer Sultansens Kammer-Pienara; siounda fyrer Hof-Pienarana; áttunda fyrer Kammer-Stulkunar; og pad Níunda fyrer hitt annad Herbergia-Folked, sem í lægre Nótunum er.

Súltanenn hefur ei fleire Hesta í sínu Stallhúse, helldur enn 30, enn yfermáta fallega, prýdeleg eru og oúrsegianleg peirra Reidtýe, Sodlar med Gulle og Gimsteinum setter, Beitsle og annad par ad lútande.

Þar eru til siónar tvo Beitsle, sem virdt eru fyrer eina Million Punda, fráreiknudu þvi, sem þar tilheyrande Sodull kostar.

Keysarans Herberge er ecke samjafnande vid nockurs Potentata i Heiminum.

Veggerner eru þiliader med einu miøg dýru Ebenholte, og med Perlum og Gimsteinum setter.

Groß-Tyrkians Sæng er af Purpura raudu Silketøje.

Hvilurúmed siálft, med sinum Bríkum og Stólpum, er allt af forgilltu Silfre.

Sparløk og Tiølld med Perlum og Gimsteinum sett og prýdd.

Gólfed i Kamersinu med Babiloniskum Dúk yferbreidt, Lampar og Liósastiakar, eru af Gullbeslegnum Chrystall.

Hanns hellsta Leikspil er, ad hann hefur marga Gicke og Hoffnarra, hvørium hann gefur mikla Peninga.

I hanns Bibliotheke finnast Bækur hins gamla og nýa testamentis, i gyllt Silfur-Spiølld innbundnar, med Edalsteinum settar, og eru þar i miklu gillde.

Tuttugu yfermáta skrautleger Lystegardar eru i kríngum hañs Hoff, þrir fyrer Keysarann, hiner adrer fyrer Frúrnar.

Strax, sem hinn Tyrkneske Keysare deyr, verdur hañs Sonur, edur Erfinge, heim úr einu Landshierade, hvarinne hann ríker, sem eirn Stathalldare, sóktur, (þvi Keysarenn getur ei lided ad hanns Succeßor, edur Efterkomare, hafe Adsetur hiá hønum,) er hann sidann nidursettur á Stólenn og kysst á hanns Klæde.

Sidann ríður hann um þær sierlegustu Gøtur Stadarins, fellur

fellur þá Fólked til Jardar og hrópar: Vivat.

So rídur hann í Kyrkiuna, og giører sína Bæn, er sídann gyrdtur Sverdinu, og fylgt til Hoffsins aptur,

Hann nefner sig Kóng allra Kónga, og Drottenn allra Drottna, hvør Titill í þeim Franckfurtisku Fráſøgnum, Ao. 1645. frá Páſkum til Michaelis-Meſſu, pag: 10. ſtendur ſoleidis:

Súltan Ibraim, Son hins Almáttugaſta Keyſara, þeß óyfirvinnanlega Guds Sonar-Son, Kóngur yfer Tyrkium í Grickslande, Baltica, Sarmatia, Damaſco, Frigia, í Stóru og litlu Egypten, Alexandria, Armenia, Arabia, Kóngur allra Kónga í þeßum heime, Høfud hins heilaga lands, Paradíſar Innbiggiare, Biſkup allrar Aſiæ, Africæ og Americæ, og Helgare hins meira parts Evropæ, Høfud í Jericho, Vørdur Mahomets grafar, Guds grafar og hans verka, ſtærſte Lióſaſtiake í þeſſare Verølld, frá uppgaungu allt til nidurgaungu, Innbiggendanna Drottenn allra Drottna, Kóngur allra Kónga og Furſte allra Furſta þeſſa Heims, þeirra Otthomanniſku og ummſkornu von, og ómetanlegt Clenodium, hinn helgade Háverdugaſte.

Hans Klæde eru af Gyllineſtickium, ſo mikillega med Gimſteinum ſett, ad menn valla ſtandaſt kunna ad horfa þar á.

Hanns Bord er miøg lágt, á hvøriu allur Búnadur er af haglega ſmídudu Gulle; Hanns Brayd er hnodad úr hreinu Miøle og Geitamiólk.

Aller Retter eru í tvøfolldum Skálum af klára Gulle á Bord borner, og ei færre í eitt ſinn, enn 30. þeir ſem honum þiena til Bords, ſitia á Kniánum. Mat-

Maturenn er alleinasta med Sallte tilbúenn enn hvorke med Kriddjurtum edur Edike, hanns dryckur er Limoniu- og Citrónu-Saft, med Sikre blondud, Vín er þar ecke drucked.

A Föstunne, sem varer í 30. Daga, verdur allt á Leirsfotum frambored, og ecke fyrre, ábreidt enn Stiornurnar eru uppkomnar á Himninum.

Þegar hann sefur vaka allitíd fiórer Edalsveinar, og standa morg Liós á Silfur Stiokum í kríngum hann.

Hanns Rúm-Sparlok eru af Bómull giord.

Tveimur er einasta um sinn, lofad vid hann ad tala, og þad med nidurslegnum Augum, og beigdum Kniám, enn ad eirn upprettur mege þora ad siá hann, þad er ein sierleg Nád.

Þegar eirn Legáte kemur, þá er honum næsta dag efter sendur eirn sidur, þó kostulegur Tyrkneskur Kyrtill edur Kióll, og látenn þar med vita, ad ef hann vill kyssa á Groß-Tyrkians Klæde, mege hann koma í hanns Augsión.

So verdur hann af tveimur Bassium og fiolda rídande Edalmanna færdur í Audientz, og settur under hann eirn kostulegur Stóll.

Þar er fyrst halldenn Veitsla, og Legátenn í henne giordur lystugur; Efter þad kemur Stór-Tyrkenn, og setur sig í ósegianlegre Pragt á sinn dyrmæta Thrón, þá hneiger Legátenn sig, kysser á Keysarans Kiól, og afhender honum í diúpustu Audmykt, sitt Fullmagtarbref, edur Passa, uppá hvort Keysarenn

enn svarar einasta tveimur Ordum, verdur honum so aftur filgt í sitt Herberge.

**Formular** Hanns Eids, þá hann giorer Samband vid adra Potentata, hliódar þannig: *Eg sver og lofa vid hinn stóra Gud, sem skapad hefur Himin og Jørd, so og vid Sáler þeirra 70. Spámanna, vid mína og minna Forelldra og Forfedra Sáler, ad eg vil þann Sáttmála, sem eg giørt hefe vid N: N. í øllum Punctum og Articulum fast og óbrigdanlega hallda, og vitna, ad eg vil ei í hinu minnsta þar frá víkia epter því sem skriflega stílad er, og med mínu Innsigle stadfest.*

I heillre Verølld er eingenn Potentate, so sem hin Tyrkneske Keysare, hneigdur til Hiákvenna Filgelags, og kynnu menn maklega kalla Landfógetana þar **Sporhunda**, því nær þeir geta uppnasad eina fríða Jomfrú, meiga þeir færa hana til Groß-Tyrkians, edur hinna annara Fursta, hvar fyrer þeim verda gefnar kostulegar Skeinkíngar.

Stór-Tyrkenn lætur hvern Dag koma fram̃ fyrer sig nockur þúsund, af hvorium hann útvelur þær, sem honum gediast, og helldur Herberge med þeim somu Nótt efter, gefur þeim líka sína Lífsnavdþurft, þángad til þær verda giftar einum Stórherra.

Hin fornemsta medal þessara Kvenna, nær hún fæder eirn Son, verdur heilsad med Dróttníngar Nafne og Virdíngu, hefur og líka Keysaralega Uppvartníng, edur Þiónustu.

A 13da. áre verdur hinn únge Prinz um̃skorenn, og er þad halldenn ein hin ædsta Hátíd, í heila Tyrkeriennu; Þad skedur í **Constantinopel** á **Renneplatzenu**, sem er 80. Klaffter á leingd, (þad er 480. Fet) og á breidd 40. Klaffter, (þad er 240

Og Fet,

Fet, Klaffter Germ: eru 6. Fet,) med efterfilgiande Ceremoni-um:

A tilsettum dege verdur Keysarenn med sinum Syne, i ein-tómis Gyllinestickis Klædum, til fyrrgreinds stadar færder, hvort aller Vezierar, Bassar og Herrar lika koma

Janizararner og heila Lifvaktenn filger Keysaranum; So snart sem þeir koma á Renneplátzed, eru Pipubláfararner tilstadar, og Fólked hrópar: Groß-Fursten life, og hanns Son.

Undann Prinzenum verda borenn 15. álna laung Blis, med Gimsteinum prýdd, nær þeir stiga af bake, gánga þeir i þaug upp-reistu Arabisku Tiolld.

Mufftí byriar Verked, honum filger eirn Ulfalde, hvor ed ber eitt Tialld á Bakinu.

Prinzen helldur á eirne Bók i sinne Hende, i hvóre hann er sifelldt ad lesa, kríngum hann stendur Hópur Tyrkneskra Múnka og Presta, sem eru ad murra i sinum Bókum.

Mufftí, þad er hinn ædste Prestur, hvern Keysarenn helldur fyrer sinn Skólameystara, skeinker Prinzenum nockrar Bækur, i hverium Mahomets Logmál stendur skrifad, vikur sídann med sinum Geistlegum tilbaka.

Þar eru og tilstadar 2 Christner Patriarchar, eirn Grískur, annar Armeniskur, ásamt þeirra Klerkum.

Kaupmennerner skeinkia þeim únga Keysara allslags Vorn, somuleidis hvor Handverksmanna Selskapur.

Sidasta

Sídaſta atrid Verkſins ſkedur med Fírverke og ódrúm Gledſkap, ſídann helldur **Nuffti** Bæn, og endar þarmed.

Stór-Tyrkians viſſu Inntekter árlega, erú 20. Millioner, og avngvu minne hinar óviſſu.

Þegar undergefner Potentatar deya, fellur allt þeirra epterláted Góß under Groß-Tyrkiann.

Hanns Fiárſiódu og Dýrgripe meigia mállavſer meñ bera í hanns Herberge, uppá þad þeir kunne ecke ad ſegia frá, hvad þeir ſied hafe.

Þeir hallda helgann Foſtudagenn, eins og vær Sunnudag, á þeim dege lætur Keyſarenn ſig ſiá í mikellre Prágt á þeim fornemſtu Gotum, enn reyſe hann yfer Landed, þá er honum med eirne ſierlegre Próceſſíu heim aftur filgt.

I Kyrkiunne lætur hann ſig ſiá, meir af Pragt, helldur enn Audagt.

I Divano, þad er Ráds Salnum, framkoma Sækiande og Veriande, halldaſt í Hendur þar inn, og framfæra ſiá ſer Sok ſína, því þar verdur eingenn Procurator, edur Talsmadur lídenn; Sá ſem præſiderar, edur fremſtur er í Rettinum, kallaſt **Primo-Vizier**; honum gengur næſt Cantzelerenn, ſídann Notarius, og Poſtmeyſtarinn, þeſſer ſitia aller med í Rettinum.

Efter Máltíd kunngiorer Cantzelerenn Stór-Tyrkianum allt þad ſem markverdugt hefur framfared í Rettinum.

**Checoja** er Hoff-Skrifare; **Boſtangi** Jurtagardsmadur, tala þeirra ſem þióna Keyſaranum og Frúnum, er 14000.

Þegar hann ferdast yfer Land, þá er hanns Filgdarlid 100000. Manns.

Næst Keysaranum meigum vier yferlita Bassana, sem gánga í so stórre Pragt út og inn, sem nockur Furste í Evropa kann ad giora, þeir hafa líka margar Konur og Fridlur.

Enn sierdeilis eru þar 4. Bassar yfer hinum ødrum, þeir ed ríkia næst Stoor-Tyrkianum, nefnelega Oberst-Vezierenn, Admiralenn til Siáfar, Janitzarenn Aga, og Stadar Fogetenn í Constantinopel.

Primo-Vezierenn er General-Leutenant yfer heila Riked; Feld-Oberstenn er Groß-Cantzelere og hærste Herra í því stóra Ráde; Admiralenn hefur Siófeder og Skipa útreidslu í sínu Vallde, Janitzaren Aga Commanderar yfer øllu Strídsfólkenu; Stadar Fógetenn Stiórnar øllu Stadarins Vesene einasta; og þesser Bassar hafa Magt til ad setia Swltanenn af, og útvelia einn annann aftur.

Þegar Swltanenn deyr, gengur um hanns Utfør soleidis til: Múnkarner og Prestarner gánga á undann med logande Liós, og syngia efter sínum Plagsid, sídann filger einn, sem ber Keysarans Húfu, med einum stórum Fiadra-Skúf, á einne lángre Stavng, vid hvøria bunded er eitt Hroß-Tagl, sídann filgest ad í rød allt Hoff-Folked, sídann kemur Liked, hvørt nidur er sett í eirne Capellu.

Hvørn Føstudag verdur hanns Grøf med einum nýum Dúk yferbreidd, og bedt fyrer hanns Sál.

Landed

Landed **Thracia** áhrærande; þá er þad eins líka ávaxtarsamt, gefur af sier Korn og Vín, þad hefur eirnenn Málmgrøft, og avngvann Skort á Fiskafine.

Þeir gomlu Thraciskú, þegar Reidarslog gengu, skutu þeir uppí Lofted, og villdu þarmed skióta Skelk í bríngu sínum Afgude.

Þegar eitt Barn fæddest, gretu Forelldrarner yfer Eimd sinne, sem fyrer þeim læge, enn nær eitt dó, grófu þeir þad med Hlátre og Kiæte, af því þeir være fríader frá sinne Olucku

Þegar eirn Madur dó, vard Agreiníngur millum Kvennanna um̃ þad, hvor honum hefde kiærust vered, sú sem þeckt var fyrer þá somu, hún var færd til Legstadarins, hoggved af henne Hofuded, og grafenn med Manne sínum, enn hinar adrar urdu fyrer vanvirdu alla sína daga, og þeirra Born voru seld,

Þá þeir hielldu Bryllaup, settu þeir sig kríngum Elld, kostudu í hann eirne Jurt, af hvoriu þeir urdu druckner og galder.

Ad gánga í Ydiuleyse og stela, var hiá þeim ærlegt Handverk.

Þegar eirn meireháttar dó, brenndu þeir hann, og grófu Oskuna, giordu sig þar efter lístuga og káta af siálfs síns.

Jñbyggendur nú á dogum í **Thracia**, eru Líkamahravster, nær þeir fá sier Mat, sitia þeir rettum Beinum á Jordu, eins og Skraddarar í Nidurlande; J stadenn fyrer Bord, breida þeir eina Uxahúd á Jordina, þar á leggia þeir sinn Borddúk; Þeir hafa avngvar Kluckur, og ecke geta þeir lided þær; Nær þeir gegna Þarfindum sínum, snúa þeir ecke Andlite sínu til Sudurs, af því þeir giora Bæn sína í þá átt. Og 3 Þeir-

Þeirra mesta Fæda er Kiot af gelldum Hofrum og þar vid hafa þeir miked Corduan, þeir eta helldur steikt enn soded, frá Svínakiøte hallda þeir sier olldúngis, þeirra Braud er almennelega svart; Under Sólune finnst eckert stolltara og ótugtugra Fólk, helldur enn Tyrkiar, Trigd og Trúskapur er hiá þeim einkis verdur hlutur. Þegar framande Sendemenn koma, og hafa ecke nógar Skeinkíngar med sier, eru þeir helldur foragtader enn virdter.

Þá Christnu kallá þeir, af Hatre, **Hunda**, þeir eru yfer allann máta Algiarner.

Sú H. Grøf, hvør enn nú er heil til sínis, være fyrer laugu unnturnud, ef hún áynne þeim ecke so stórann Rikdom af þeim, sem koma, og gyrnast ad siá hana.

Eingenn brúkar Famdløg vid Konu sína, í nálægd eins framande.

Þad er líka rart ad siá mann og Konu talande samann.

Nær einn Madur ferdast út, setia þeir Gelldínga til ad vakta Konur sínar.

Nockrer kalla Landed kríngum **Athenuborg** Grickland, adrer reikna þar med **Macedoniam, Epirum,** og **Achajam.**

J Stadnum **Pella** í **Macedonia**, var Alexander hinn mikle fæddur.

J Stadnum **Stagyra**, var Aristoteles byriádur og barnfæddur.

J Landenu **Lacedemonia** er **Sparta** Hofudstadurenn.

**Macedonia** er ávaxtarsom; **Albaria** lysteleg og frióf-som; **Thessalonia**, hefur skrautlega Hesta, þar er hid nafnfræga Fiall Olympus, med Laurberiavid þaked; Fialled Athos er ad

ofann

ofann Jokle huled, sem alldrei uppleyser; **Tempe** er eitt lystuga-sta Pláts í Heiminum; Hiá **Valona** vex hid kostulegasta Vín í Evropa; Fialled Parnassus er þad hærsta.

Sú Hálfey **Morea** er ávaxtarsom, í **Arcadia** vex Vín, sem gierer Kvennfolk frióssamt, og Kallmenn afsinna, líka er þar eitt forgiftugt Tre, ef nockur hviler sig under því, deyr hann strax.

Macedonisker eru góder Strídsmenn; Thessaloniskar falsker og svikuler, þar med Horkallar; Atheniskar hafa lof fyrer þad, ad hiá þeim finnest hiner lærdustu Menn; Hier skulu og líka fyrst, Klædavefnader, Akurgierde og Vínstockar uppfundner vera.

I Stadnum **Chæronea** var Plutarchus fæddur.

I **Veneris** Mustere til **Corintho** er openber Hórulif-nadur framenn, og til þeß hallda sier þar uppe 1000. Horur.

Spartaniskar hofdu þann lofstír framar ollum Grískum, ad þeir være fromlindt Folk; Þeirra Dætur máttu líka sem Syner-ner, venia sig vid ad fiqta, danza og skiota, so þær yrdu því sterkare, og kynne þeß betur ad útstanda sína Barnburdar þiáning, enn þær ydkudu sig í því ad skoda Karlmenn og Unglínga alnakta; Þegar alldrader Menn voru odugleger ad afla Barna, gáfu þeir sínar úngu Konur Edalbornum Herrum, so þeir fenge því ypparlegra Afsprenge, því þaug Born sem þannig fæddust, heirdu ecke Fod-urnum til, helldur hinum gamla Manne.

Þeir nú verande Innbyggiarar Gryckland, lifa under Tyrk-ians Yfirrádum; Þeir raka sitt Hár af Framhofdinu, enn láta þad á bak til vaxa ofann á Herdar; Þeir eta helldur Fisk enn Kiot.

Lacedemonisker hofdu þavg Log, ad þegar tvær Persónur giftust hiá þeim, máttu þav ecke samann hvíla jo opt sem þavg villdu, helldur urdu ad skiótast ad því so-sem á lavn, þegar ei var á, so ad þavg ecke af oftídum Samvístum, yrdu máttar síns ad midur, edur giorde sier neirn Kvilla.

Þeirra Born máttu alltíd gánga berfætt, og hlavpa Skólavs, hofdu eins háttadann Klædnad Sumar og Vetur, so þavg vendest vid ad þola bæde heitt og kallt.

Menn lietu ecke helldur Bravded liggia fyrer Nosunum á þeim, helldur máttu þavg med Hripse og Ráne komast yfer þad, so þav af ómennsku, vendest til Mannskapar, þar fyrer nær eirn vard uppvís ad Þiófnade, lietu þeir slá þann sama, ecke fyrer þad hañ hafde stoled, helldur fyrer þad hañ hefde vered sá Gickur, ad láta hitta sig ad Verkinu.

Eingenn fríborenn Borgare mátte á nockru hræra til síns eigenn Avinnings, því allt skyllde ollum vera sameigenlegt.

Grisker hafa sína eigen Religion, og heira under Patriarchann í Constantinopel.

J því Egæiska Hafe, hefur Tyrkenn ogso nockrar Eyar, sem eru: Tassus, Samothracia, Lemnus, og adrar fleire.

Ur Eyuñe Coo, sem nú kallast Longa, var ættadur sá nafnfræge Lækner Hippocrates, og sá kunnáttusame Málare Appelles.

Eyann Stalamí, hvor ad er miog frióssom, gefur af sier Terram Sigillatam, (einslags Petursmolld,) sem er gód á

ámóte Citre, þesse Mollð verdur med sierlegum Ceremonium uppgrafenn, og þad hellst 6. Augusti hvers árs, af henne hallda Tyrkiar so miked, ad þeir skeinkia hana útlendskum Potentatum.

Hafs-Armurenn edur Fiordurenn millum Griklands og Eyarinnar **Negroponte**, streymer hvern dag 4. sinnum út og ad, so Skip, jafnvel med gódum Vinde, kunna þar ei um ad fara; Hvors Orsok Aristoteles gat ecke uppfunded, og þeßvegna líka dó af Angurseme.

I Eyunne **Negroponte** finna menn Stein þann sem Amantus heiter, hvorn spinna má í Garn, og sídann giora Vefnad úr, hvor, þá hann verdur óhrein, verdur hann ecke med Vatne þvegenn, helldur er honum kastad í Elld, í hvorium hann tekur aungvann skada, og so verdur hann hrein.

Eyann **Milo** hefur so feita Jord, ad Hveited kemst þar til fullkominnar hædar á 40. Dögum, og verdur ecke laungu sídar uppskored; J einn Pláße þar, hefur Jordenn þá Náttúru, ad grafe madur Gröf þar í, fyller hún sig siálf upp aftur.

Eyann **Scio** hefur so miked Pomerantz, ad þar úr verda heilar Tunnur fullar pressadar med Saftina, og flutter til **Constantinopel**; Mastix vidur vex hier og, hefur Blod sem Buxbóm, (edur Sortulýng,) er ecke miog Hár, Borkurenn verdur 12. sinnum á áre hvoriu rifenn af Stofninum, þá drypur, Mastix út, eins og Harpeis; so er líka giort vid Terpentin-Tre; Malvasie hier, gefur ecke stórt efter því, sem fæst í **Candia.**

Þeir gomlu Innbyggiarar í Eyunne **Scio**, þá þeir af Elleburdum veiktust, druncku þeir Eitur í sig, so þeir ættu ei so

lenge fark. Enn þad voru og Log hiá þeim, ad þegar eirn hafde miog líted vid ad lífa, þá mátte hann helldur deya ærlega sierdeilis ef hann var yfer 60 ára alldur, so ad Plátzed yrde rýmra fyrer þá ýngre, og þeir hefde frekara til Uppheldis; Þeir sem nú villdu lietta sier af Fædinu, offrudu fyrst, þar efter voru þeir kyhuder, sídann druckn þeir Eitred í sig, og dóu.

Þeirra Sider eru hartnær eins og hinna Tyrknesku, utann þad, ad þeir í Eyunne Coo hafa þá hiátrú: Ad þar siáest á stundum eirn stór Hoggormur, um hvorn þeir segia, ad þad sie Dótter þess gamla Læknis Hippocratis, hvor enn nú life, og skule hafa vered ein mikil Galldra-Kona.

Í Ungaría hefur Tyrkenn **Bossen**, **Bulgari**, **Syrfen** og **Ratzen**.

**Bossen** er fiallamikel og ófriófsom, so og líka **Bulgari**, þó hefur hún Silfurberg og prídeleg Þorp, **Syrfen** hefur Gullgrafer.

Innbyggiarner hafa marga Side eins og hiner Sclavonisku og Polsku, elska drickiusvall og eru menn miog tortriggver.

## Registur allra Keysara, so vel Christinna sem Tyrkneskra, er rikt hafa i Constantinopel, fra þeirre tid, þegar Austuralfunar Rike var adskiled fra Vesturalfunne, og Karla Magnus rikte i Vestur-londunum.

1. Constantinus VI. Leonis IV. Son, kom efter sinn Fodur til Ríkisstiórnarinnar Anno Christi 770. hann rikte 9. ár í úngdóme sínum, med sinne Modur Irene. Ao. 798. dó hann í Fángelse. Irene rikte efter hann 5. ár. Um þann tíma

tíma vard **Karla Magnus** krýndur til ad vera Róm-
verskur Keysare, áred 801. Efter Irene kom til Stiórnarinnar
2. Nicephorus Patricius, enn efter hann
3. Michael Curopalates, Anno 811.
4. Leo V. Michaels Strídsoffurste.
5. Michael Traulus, Leonis Þenare.
6. Theophilus, Mich: Son.
7. Michael, Theoh: Son. 8. Basilius.
9. Leo VI. Philosophus, þesse visiterade eitt sinn Vagtena, og vard pisskadur þar fyrer af þeim og færdur til Prófoss-ins, edur Strídshøfdíngans, til efterkomande Morguns; Enn þegar hann þeckteft, liet hann Vagtarana þeß ecfert gialldа, helldur gaf þeim enn nú Skeinkíng þar á ofann.
10. Alexander, Leonis Bróder.
11. Constantinus VII. Leonis VI. Son.
12. Romanus, Constant: VII. Son.
13. Nicephorus Phocas. 14. Zimisces.
15. 16. Basilius og Constantinus, ríktu báder undereins.
17. Romanus. 18. Michael.
19. 20. Zoe og Theodora tveir Kvennmenn ríktu under eins samann.
21. Constantinus IX. 22. Michael. 23. Isaacus Comnenus.
24. Constantinus Duca.
25. Evdoxia, Constantini Eckia: þesse tók til egta aftur
26. Romanum Diogenem. 27. Michael Parapinaceus.
28. Anno 1081. vard Alexius Comnenus, Isaacs Son, Keysare.
29. Calo Johannes, Alexii Bróder.
30. Manuel Comnenus, Cal: Joh: Bróder.
31. Alexius, Man: Son. 32. Andronicus.
33. Isaacus Angelus. 34. Alexius Isaacs Son.
35. Anno 1250. kom Baldvin, Greife af Flandern til Ríkis-stiórnarinnar í Constantinopel.

36 Henrich, Baldvins Bróder.
37. Petrus Cortenæus, Son Lodviks Digra Kóngs í Frankarike.
38. Robertus, Peturs Son.
39. Baldvin II. Roberts Son, þegar þesse var eitt sinn siarlægur med Strídsflota sinn út á Hafe, skyllade á medann
40. Michael Palæologus þad vid Innbyggiarana í Constantinopel, ad þeir tóku hann til Keysara, og komu so Geistleger aftur til Stiórnarrádanna.
41. Andronicus, Michaels Son. 42. Johannes.
43. Palæologus II.
44. Cantacucenus, þesse færde í fyrsta sinne Tyrkia inní Evropam, og vann Constantinopel.
45. Manuel, Cantac: Son. 46. Johannes, Man: Son.
47. Constantinus, Joh. Bróder.
48. Mahomet II. Amuraths II. Son, hann vann under sig Constantinopel med Bardaga. Constantinus villde med ødrum slýa út um Ported, enn trodst under af þeirre mikslu Mannmergd 29. Maji Anno Christi 1453. Hanns Høfud var í Herbúdum fest á einum Spiótsodde, og bored so um kríng.

Á þennann Hátt vard Stadurenn Constantinopel, hvorn Constantinus Fyrste byggde, enn Constantinus Sídaste miste, ad Høfudstad og Adsetre hins Tyrkneska Keysara. Og er þad eitt markverdugt, ad Móder Constantini hins Fyrsta, og Móder Constantini hins Sídasta, hietu bádar Helena.

**Nw vilium vier byria at þeim Tyrknesku Potentatum allt fra Ottomann, hvors epterkomendur enn nw í Dag hallda Avsturalfunnar Keysaradæme.**

Þesse Ottomann var Ortoguli Son, og Kóngur Tyrkia Ao. Christi 1300.

Anno

Anno 1008. inntóku Tyrkiar Jerusalem. Enn Hertogeñ Gottfred af Bullion rak þá út aftur, síðann fóru þeir til Nicea. Hvorier nú vered-hafe Kóngar hiá þeim, um næst filgiande 290. ár, allt til þessa Ottomanns, á hvorium Tyrkiar siálfer byria sína Historiu, finna menn hverge. Efter Ottomann kom hanns Son Orchan, áred 1328. honum filgde á efter, Sonur hanns Solymann. Amurath I. Solymanns Bróder. Bajazet, Amuraths Son. Þesse inntok Bulgaria, og lagdest um Constantinopel, enn vard fángadur af Greifanum Tamerlan, og var fluttur umkríng, híngad og þángad, í Járnhleckium, þar til hann do af Angurseme. Ciriscelibes Son hanns, kom efter hann enn vard af Bródur sínum Mustapha í hel slegenn; Mose rak hann út aftur. Anno 1408. vard Mahometh I. Kóngur, kom efter hann, Son hanns Amurathes. Mahometh II. Amurats Son, þesse inntok Constantinopel, og giorde so uppbyriun Ríkisstiórnarinnar þar aftur, efter hann kom Son hanns

49. Bajazeth II. Anno Christi 1481.
50. Selym, hanns Son, liet drepa Fodur sinn med Eitre, og tók Stiórn siálfur.
51. Solymann II. Selyms Son, þesse vann under sig Gran, Ofen og Weissenborg. Hann lagdest um Wien, eñ Carl V. rak hann burt aftur, hann do í Herbúdunum vid Sigeth, Anno 1565.
52. Selym II. Solymans Son, þesse dó Ao. 1584.
53. Amurath III. þesse liet drepa fim̃ Brædur sína áte 100. Born, og dó Anno Christi 1595. á 50. alldre.
54. Mahometh III. liet drepa 19. sína Brædur. Do úr Pestinne 1604.

55. Acomath hanns Son. 56. Osman, Achmats Son.
57. Mustapha, Osmans Bróder, þesse ríkte ecke utann 1. ár, og kom epter hann Bróder hanns.
58. Amurathes IV. þesse giørde Ao. 1627. frid vid Keysaranu Ferdinand II.
59. Ibraim, Amurats Bróder
60. Mahometh, Ibraims Son, hann hafde Rikisstiórnina 1673.

Pad Tyrkneska Vopen er eirn Jardarhnottur, og uppyfer honum hálft Tungl.

Og er so útsagt um Evropam, sem hinn fyrsta Part Heimsins, efterfilger ad segia frá

# Koonga-Riikiunum og Furstadæmunum i Asia og Africa.

Nú gefum vier oss burt úr Evropa, yferum þad' þravngva Hafssund, sem er imillum beggia Slotanna, Sestus og Abysus, yferum hvert hin gamlu Skálld skrifa, ad Leander sindt hafe, til Filgekonu sinnar Hero, í Asiam, og vilium vier fyrst yferlíta þad Ottomanniska Vellde í Asia.

Enn breidd þessa' þravngva Siáfarsunds er ecke meire enn 3000. Skref, og liggur Sestus í Evropa, enn Abysus í Asia, á bádum þeim er ein sterk Festíng; þesse Slot eru kollud Lás ad Constantinopel, og kann eckert Skip leisislavst þar i gegnum sigla til Stadarins, helldur mega þavg oll fella segl, eins og vid Eyrarsund í Danmork, og med nockrum Skotum gefa sig til vitundar, ad þeir vilie leise fá; þegar þeir fara burt aftur, meiga þeir Akkere kasta, edur kyrru hallda, og láta allt yferskoda hiá sier.

Sú

Sú minne Asia verdur nú í Dag kollud Natolia, edur hid háa Tyrkerí, hefur til Austurs Flióted Euphratem, ad Sunnanverdu Midjardarhafed, Vestannfrá þad Egeiska, og Nordannverdt hid Svartahaf.

Breidd þessa Lands er 200000 Skref, edur 5. Dagreisur.
Í Landenu **Phrygia** lá sá nafnfræge Stadur **Troja**.
Í Landinu **Jonia** var Mustere Dianæ, sem taled er eitt af þeim 7. Heimsins Furduverkum.

Í Landspartenum **Doris** liggur Stadurenn **Halicarnassus**, hvar Mausolus Kongur í **Caria**, bygde sier Adsetur, og hvar hanns Egtakvinna liet tilbúa þá herlegu Gröf síns Egtamanns, sem og so talenn er í bland þeirra 7. Furduverkanna.

Í Stadnum **Sardes**, sem liggur í **Lydia**, bió sá yfermáta ríke Köngur Cræsus.

Eyann **Cyprus** meina sumer ad allra fyrst hafe byggd vered af Japhet Syne Noa, sídann af Assyriskum, og þar efter af Grískum.

Enn Ao. Christi 1570. inntók Selim Tyrkia Keysare hana, hún hefur í sier 12. Hierod.

Landslaged í þessarre Ey er miog ávaxtarsamt, gefur af sier Vidsmior, Korn, og Vín, sem ecke lætur sig edur dofnar í 70. ár, kostulegt ad smeck og lugt, úr þessarre Ey koma til vor, þavg stóru Rosin, Sikur, brátt Saffran, Coriander og Dattelur, Hunánged er hier aldeilis hvítt, Terpentin, Colloqvinter, Scammonia, Rhabarbar, Victril og Chrysocolla. Af Gimsteinum

fást

fást þar Smaragdar, Diamantar, Christallar, hvít og rauð Kuriel, líka finnst hier Steirnenn Amiantus, úr hverium tilbúenn er Línvefnadur, sem ecke brennur í Elldinum, helldur hreinsast í honum.

Innbyggiararner vefa æred miked Schammeloth, eru liúfer og vingiarnleger vid Framande.

I Eyunne **Rhodis** vár þad yfermáta stóra steipta Koparbílæte Colossus, edur Sólarbílæted sem er og so eitt af þeim 7. Heimsins Furduverkum, hvad stórt þetta Líkneske vered hafe, má þar af ráda, ad eirn Kallmadur gat varla fedmt yfer um þumalfingurenn á Colossi Hende, þad fiell um koll í einum Jardskiálfta, liet hinn Tyrkneske Sultan flytia burt Koparenn úr því, á 900. Ulfolldum.

I þessarre Ey er nú alleinasta sá eine Stadurenn **Rhodis**, hann hefur 3. Múra og 5. Kastala; Grundenn er frióssom, gefur Citronur og Olivur; Innbyggiararner tolldu fyrrum ad nockruleite Gríska, þeir æfa sig í Stiriølld og Ránskap, Tyrkiar sem nú byggia þar, lída aungvann Christenn í Stadnum á Náttartíma, enn á Dagenn má þar hondla hver sem vill.

I **Arabia** liggur Fialled **Sinai**, á hvoriu Drottenn af hendte Mosi Løgmáled, þad er eitt hátt og hardt Biarg, sem, sem bágt er uppá ad komast.

Þad nafnkenda Fiall **Horeb**, liggur hier og, somuleidis Stadurenn **Medina**, í hverium ad er Grof Falsspámanns Mahomets, í kríngum hvoria siá má meir enn 3000. Lampa.

I **Syria** liggur **Palæstina**, sem er tvennslags, þessum megenn og hinum megenn **Jordanar**, því Rubenitar, Gaditar

bitar og hálf Manassis Ættkvísl settu sig nidur á hina Sídu **Jordanar**, enn allar hinar á þessa Síduna, Landed fyrer hiedann hana skipteſt aftur í **Gydingaland, Samariam** og **Galilæam.**

Judæa edur Gydíngaland, liggur millum Davdahaffins og Midjardarsiáfarins, og er **Jerusalem** Hofudstadurenn þar inne.

**Jericho** liggur í einum skravtlegum Dal. Staduren **Nazareth** liggur þar midlendis;

Stadureñ og Kóngsríked **Jerusalem**, hefur medal allra' añara útlendra Þióda í heila Heiminum, allríd haft hina meſtu Virdíngu, af því Gud hafde ſier þeñañ Stad útvaled, hvar fyrer þetta Hierad verdur kallad **Landed Heilaga**, því **Sonur Guds** er hier **Madur ordenn**, og Fyrerſagner Spámannanna eru hier uppfylltar, hier er Fialled **Zion, Olíufialled** og **Hofudſkelía-Staðurenn.**

Anno Christi 1099, kom Hertogenn Gottfred af Bullion, med eirn mikinn fiolda Christinna Riddara inn í Asiam, vañ þad H: Ríke, og var þar krýndur til ad vera hinn fyrſte Christenn Kóngur í Jerusalem.

Enn Anno Christi 1187. iñtóku Saracenar þad aftur, og ad sídustu, komſt þetta Ríke under Tyrkians Vallð, hvors Yferrád þad hlýtur enn nú ad þola á vorum dogum.

Staðurenn **Jerusalem** hafde um þær munder ecke yfer 5000. Innbyggiara, og hefdu ecke vegna Heilagleika Stadarins, so marger Pílagrímar ferdaſt þángad árlega, þá hefde þar eitthvad bágt genged hiá þeim. J i Lands-

Landenu skipter **Jordan** í sundur, sem hefur sitt Upptök vid Rœturnar á **Libanon** Fialle, úr tveimur Brunnum, af hvörium sá eine heiter **Joor**, enn annar **Dan**.

I **Phœnícia** liggia Staderner **Tyrus** og **Sidon**.

Natolia edur hin minne **Asia**, hefur heilnæmt Loft, og aungvann skort á naudsynlegum Hlutum:

I **Bythinia** vex miked Korn, enn Landareignenn í kríngum **Trojam** er þurr og mogur.

I Klettaskorum og Giám þessara Stada, finna menn enn: nú heila manna líkame, sem sig hafa einhvorn tíma faled í þessum Biargsprúngum, hvorier nú eru ad Steine ordner.

**Hierapolis** hefur varmar Laugar, hvorra Vatn sier og so umbreiter í Steina.

I **Caria** fæst Segulsteirn.

**Mysia** hefur gódann Víuvidarvöxt.

**Lydia** hefur Vatnsfoll, hvorra Sandur ad hefur Gull í sier, Grunden ber gott Saffran.

I **Lycia** er Fialled **Taurus**; í **Pamphilia** og **Cilícia** eru Geiturnar hvítar.

I **Cappadocia** finnst Jaspis, Alabastur og Alun.

I **Amasia** er betre Vínvöxtur, helldur enn í heillre Asia vera kann.

I **Arabia** vex mikell Pálmavidur, er af sier gefur gódar Dattelur: Hier verdur og safnad Manna, og vid Strondina Kuyel, Steirnenn Amethystus verdur hier og fundenn.

Judæa hefur miklar Dattelur, Granateple, Olivur, Fíkiur, Rísveple, Perur og Nytur hafa þeir ecke, enn nægd af Citronum, Pomerantz og Paradísareplum, Jordenn er þakenn af Melonum, og Svefngrase. Sleit-

Slettlendeð í kríngum Siórenn Genezareth er óbyggt.
Grundenn í Galilæa er frióssöm og ber marga Eika ávexte.
Samaría hefur fiolda Víngarða og kostulegar Olívur.
Akurlendenn kríngum Jerusalem, í Judæa eru vel bygd, bera Fíkiur, Mandelur og Olívur.
Landeð í kríngum Sidon, gefur mikla nægd af Sikur-Reir, það besta Vatnsfall þar, er Belus, þess Sandur gefur Venedískt Glas úr sier.

Þeim gömlu Arabísku var ei mikeð gefeð um Stiórnseme edur Aga; Þeir brúkudu sidt Hár, rökudu þó Skeggeð af að nedanverðu.
Hiá Skilldmennum og Ættíngium voru aller hluter sameigenleger, líka eirnenn Konurnar, þeir hielldu sier ecke frá sínum Mædrum og holldlegum Systkinum, það var Hórdómur hiá þeim, ef eiru hiellt ecke við Skilldmenne sitt.

Um sína dauðu hirdtu þeir ecke mikeð, því Kónga sína gröfu þeir í Taðhaugum; Nockrer af þeim höfðu til Fæðu, Höggormakiöt og Ulfalldamiólk, tvö Pund Gulls sellðu þeir fyrer eitt Pund af Kopar, þeirra Bórðbúnaður var allur af Gulle; Allt var hiá þeim sameigenlegt, og eingenn hafðe neitt úraf fyrer sig; Prestarner hielldu sig vel, og pössudu uppá sína Afguðaþiónustu.

Þeir Hebresku, sem bíuggu í Samaria, Judæa, Galilæa og öðrum nærliggiande Stöðum, höfðu sitt Lögmál að lifa efter, fyrer Spámannenn Mosen af Guðe medtekeð, sem H. Ritníng vottar.
Þeir í Phrygía, er sagt, fyrster hafe Spásagnar-Konst uppfundeð, líka Pípnablástur og Hlióðfæra-Slátt.

Þeir í Phœnicia segia menn fyrst uppfunded hafe ad skrifa Bókstafina, og Siófercda Kunnáttu á Skipum.

Stærste hlute Natoliæ er byggdur af litilmótlegu Fólke, og eru þeir innfæddu Tyrkiar þar lángtum einfalldare, helldur enn þeir Christnu Trúarníidíngar, Adallenn hefur hier ecke neina Yferbunde, þeir eru aller Tyrkians skulldbundner Þrælar.

**Cappadocia** er nú á dögum byggd af Grískum, Tyrkium, Judum, Arabiskum og Armeniskum.

J Idumæa búa Egyptsker frá **Alkair**, sem temia Dúfur, og venia þær til þess ad láta þá sem heima eru í **Alkair** vita hvad vidber hiá þeim, því þeir binda Sedla under Vængina á þeim, og láta þær fliúga med þá til þeirra kunnugu Húsa, og er þetta nú þó ein 6. daga Reysa, Eide-Jord og óþæg yferferdar.

Þad H. Land byggia nú á dögum Tyrkiar, Judar, Arabisker, Grísker, Sýrlendsker, Armenisker, Georgisker, Indianisker og Egyptsker, enn fierdeilislega er í Galilæa fiølde af Arabiskum, sem er Fólk miøg smávaxed.

Sierhver Framande, sem gánga vill í þá Heilögu Grøf, má betala 9. Cronur, og tekur hver einn sier Herberge hiá þeim, sem eru somu Trúar og hann

Þeirra í Natolia besta atvinna er Bómullar Høndlun.
Þeir í **Bythinia** ávinna sier Gialld og Penínga fyrer Operment.
Þeir í **Caria** fyrer Segulstein.

I **Galatia** fyrer Kopar.

I **Pamphilia** verdur þad besta Schammelot, og Tyrkneskt Grovgræna tilbúenn.

Þeir í **Cappadocia** verda ríker af sínum Málmgrøfum, hvar þeir fá Silfur, Járn, Alun, Christall, Jaspis og Alabastur.

Þeir i **Cilicia** selia miked Camelhár og Geitahár, hvar af fallegt Tøy verdur tilbúed.

Þeirra í Judæa mesta Avinnfugur er, af Pílagrímum, sem þángad ferdast; úr **Arabia** kemur allslags Reikelse.

I þeim Asiatisku Hierodum, jafnvel íbland þeirra Christnu siálfra, eru margslags Trúarbrøgd.

Sumer Christner nefna sig Melchita, adrer Nestoriska, Dioscuriska, Armeniska, Jacobita, Maronita, og fleira slags.

Og er so útsagt um̃ Stór-Tyrkians Vellde í Asia.

I Africa, þad er hinum þridia Hluta Heimsins, hefur Tyrkest fyrst, Landed **Mauritaniam**, sem sundurdeilist í 4. Hierod edur Um̃dæme, hvarinne ad voru þesser Hofudstader, **Tremesen, Tunis, Bugia** og **Algier.**

Grundenn er í sumum stødum friófsøm gefur Korn og Eikaávexte, í Skógunum uppehallda sier morg þúsund Uxa og Hesta, enn þó meira af Hosrum, og Geitum

Þeir gomlu Innbyggiarar lietu sitt Hár sídt vaxa, hofdu sin̄ Koparhríng um̃ hvern Fotlegg, Þeir bitu Lýsnar hvor af odrum, hvad ed var eitt fínt útvortis Skick.

Ein Þióð medal þeß Africaniska Fólks, brúkade þann Sid, ad þeir færdu Kónginum sínar trúlofudu Dætur, so hann skyllde sofa fyrst hiá þeim.

Þeir hafa ei adra savuglyst helldur enn Trumbur, hvoriar so stórar eru, ad þeir þurfa 4. menn til ad draga þær, setia þær sidann á Jord, og slá þær med lavngum Staf.

Þeir Africanisku nú á dögum, eru Tyrkianum aldeilis afundner, og vellta giarnann því Tyrkneska oke af sinum Hálse.

I Trúarbrogdunum eru aller Africaniser filgiande þeim Mahometiska Villudóme, og haga sier efter Mahomets Alcoran, sem er ein skrifud Logmálsbok, hvoria þeir virda, eins og vier vora Bibliu.

---

# Um Koongs-Riiked Egyptaland.

Egyptaland liggur efter Ptolomæi Meiningu í Africa, því þad Ravdahaf skilur Asiam og Africam hvoria frá annare.

I Stadnum Alcair er eirn Turn, á hvorium merke er sett, til ad siá hvort Aenn Nil vaxe so ad hún náe því, edur ecke, hvar af ráda mege Arferded, hvort þad verde gott, edur Tídenn dýr; Þesse Stadur hefur 22000. Kyrkiur og Capellur; Ecka 24000. Gotur, sem allar eru á Næturnár læstar, hann er fimm sinnum so stór, sem Paris í Frankaríke.

Ecke lángt hier frá standa þær nafnfrægu Pyramides, edur Topp-Turnar, sem vegna Hædarinnar siást 40. Mílur vegar lángt frá, þeir sýnast undarlegre enn so, ad umm þá verde skrifad, hinna gomlu Rómveria kostulegu Byggingar komast ecke í samiofnud vid þá, þeir standa á einum eide Sandflot, hinumegenn Arinnar Nil, hiner hædstu íbland þeirra, eru hiner prýdelegustu, hefur

ur hvor kantur Grundvallarins á Jordunne 300. Fetaleined, þad er tilsamans á fióra Sídur umhverfis 1200. Fet; Hædenn er 600. Fet, þeir ferkontudu Steinar þar í eru, aller jafner 3. Feta lánger, 2. breider og 2. Feta háer, og jafnvel þótt efst á þeim sie flatt Pláts, 25. Feta lángt og breidt, sínast þeir þó lángt frá ad vera uppmióer í einn hvassann Topp.

Næstur Alkair er Stadurenn **Alexandria**, ad stærd vidlíkt sem Romaborg.

J eirne Kyrkiunne er til sýnis sá Predikunarstóll, í hvörium Ste. Marcus kende Fólkenu, og í eirne Götu, þad Pláts og Steirn, á hvörium hann var afhöfdadur.

Fram undann Stadnum stendur Julii Cæsaris Sigur-Stólpe af Marmara, 80 Fóta hár, þegar hann hafde yferunned Pompejum; Þeir smáu Stader, Þorp og Býle, verda ei fyrer fiöldasaker talder, og þarflaust þá ad nafngreina.

Aen **Nil**, hvör alldrei er hrein, helldur alltíd leirblendud, giörer Grundena frióssama, þetta Fliót hefur í sier avk Fiskanna, líka fásien ódýr, so sem Vatns-Hesta (Nikra) og Sækálfa, í hana kemur ofvöxtur hvert ár 7. 17. dag Junij, og flæder hún þá yfer allt Landed, er ad vaxa í 4. daga, og eins marga ad mínka aftur, og er þad vel undra og eftertektaverdt, ad þegar önnur Fliot mínka, vex hún, enn þegar þavg vaxa, mínkar hún.

Hiner gömlu gáfu giætur ad því, ad í nafnenu Arinnar **Nil**, sem er á Grisku ΝΕΙΛΟΣ være Dagatal Arsins innebunded, því N. þýder 50.
E. 5.

I. 10.

| | | |
|---|---|---|
| | I. | 10. |
| (L) | Λ. | 30. |
| | O. | 70. |
| (S) | Σ. | 200. |

Þad er tilsamans summerad 365.

Annars er **Egyptaland** eitt flatt og sleitt Land, og af þvi Lopted er þar miøg heitt, þá hafa Innbyggiararner á sín um Húsum Riáfur=Glugga og Vindaugu, til ad láta Kul legg ia innum; Þar rigner alldrei, og jafnvel þótt **Egyptaland** sie eitt med þeim bestu í Heiminum, þá samt, nær **Nil** fær ecke nógann Voxt, verda þar aller Hluter dyrer.

Þar vex í gódum árum allslags Kornávoxtur og Mátar-Iurter ríkuglega, kostulegt Vín, og gód Hagbeit.

Vid Avstur=Sídunna vex miked Bigg og Rís, á Vestur= Sídunne Sikur og Bómull, Vellerner vid **Nil**, eru fuller af Ríse og Sikur=Reir, Brennevid og Byggíngar-Timbur vantar þá, því fyrer útann Pálmavid og Eplatre, vex þar eingenn Vidur, þó eru þar Pálmatre miøg stór og há, so af einum Jardarstofne vaxa upp jafnvel 12. 15, já 20. há tre; Fíkin= og Mórberiavidur er þar alltíd grænn, Pomeranß og Citronur yferfliótanlegar; Af Dyrum hefur **Egyptaland** Bøffela og Navt, Ulfalda, Hesta, Asna, Savde og Geitse, óteliande Stor= ka finna menn þar, hvorier Poddunum eru ecke þægeleger.

Þad er víst, ad Hænurnar únga ecke sínum Kiuklíngum þar út, helldur verdur þeim í einum þar til giordum ofne, med yduglegre velgiu útklaked úr Eggiunum, því þar kunna í eitt sinn, vel 3. eda 4000. Egg innláteinn verda, og útúngud;

Jbland

Ísland Kvennfólksins er þad ecke neitt nýtt, þó ein Kona eige tví-bura; því þær eru so frióssamar, sem nockur Þióð vera kann.

Innbyggiarar **Egyptalands** eru sinnúger og Skilnings skarper, þeir voru hiner fyrstu, sem fundu uppá Stiornuvísende.

Þeir gomlu **Egyptalands** Kallmenn, kostudu af sier Vatne sitiande, enn Kvennfólked standande; þær drifu Hondlunina, enn þeir hímdu ydiulavser bak vid ofnana.

Í Skriftenne hófu þeir Línuna úr hægre Hendenne til hinnar vinstre, eins og nú giora Arabisker, Hebresker, Persar og Tyrk-iar, sinn Pappír hofdu þeir úr Vidarberke, (seger Author, kann-ske Vidarblodum.) Bavner voru hiá þeim óhrein Fæda, þeir bodudu sig prisvar um̃ Dagenn, og tvisvar á Nóttu.

Þá þeir hielldu Gestabod, bar Húßbóndenn fram̃ eitt smíd-ad Líkueske, í Mind sem eirn rotenn Líkama, þad feck hañ hvor-ium Geste í Hond, med þessum ordum: **Et, dreck og giör þig gladann, því so verdur þin Mind epter Davd-ann.** Þetta samstemmer hinne Bursalisku Reglu:.
Ede, bibe, lude, post mortem nulla voluptas. (Þad er sem eg segde: **Et þu, dreck þu, afðu leik, epter davd-ann gefst ei steik.**)

Þegar eirn úngur mætte einum gomlum manne, veik hann úr Vege frá honum, ef hann sat, stódu þeir ýngre, med berum og hneigdum Hofdum framme fyrer honum, og sýndu honum Lot-ning, hvad þeir úngu Hvelpíngar nú á dogum mættu vel í agt taka, sem vilia vera, eins og Egged klókara enn Hænann, frem-re; og forsiállre hinum gomlu, og hafa þetta sier til Efterdæmis.

I mat og dryck hofdu þeir eckert óhóf, so þeir þyngde ecke sína Líkame þar med.

Þegar þeirra Kóngur dó, sorgudu þeir í 200. daga, þángad til hann var grafenn, þá hiellt eirn Rædu, og upptalde allt sem lofsverdt var um þann Dauda, sídann mátte hann líka framtelia Lestina, hvar fyrer þeirra Kóngar hielldu gódann Máta og Reglu í síns Embættissokum, so ad eingenn Lostur þyrfte ad vera framsagdur vid þeirra Líkfor.

Ahrærande þeirra Gudsþiónustu, þá voru þeir gömlu Landsmenn þar rett dárlegt og heimskufullt Fólk, því þeir veittu Hundum og Kottum, bæde lifande og daudum, Gudlega Virdíngu.

Þar nú verande Innbyggiarar eru Mahometisker; Þeir í Stodunum eru liósleiter, enn hinar á Landsbygdinne svartbláer ad Lit, mungenguisgoder, og ecke óþackláter, þeir eru miög gefner fyrer Danse, so þeir annadhvort limlesta sig edur giora sier veikinde í sínum Dansleikum, Konurnar gánga allar med huldum Asiónum á Gotunum, þeirra Hús nú á dogum eru lág, openn ofann, því þar rigner alldrei, og eru miög avdvirdeleg, því þeir sofa einasta í þeim; Þeir fá sier mat under Pálmavidartriám, so þeir hafe skugga og frítt loft; Þeir hafa þravngva Kyrtla, sem ná allt ad Okla, hvor eirn brúkar eitt Túrban, edur Tyrkneska Húfu á Hofdinu; Þad Arabiska og Africaniska Túngumál er hiá þeim brúkanlegt, þó tala Tyrkiar sitt eiged Mál.

Þá Geistlegu tóku þeir med sier, þá þeir hielldu Rád, hver sem navdgade Ehrlegre Kvinnu med Valldе, undann honum (med leife ad segia,) skelldu þeir Skopenn, af Hórkonum voru Nasernar skornar, so avngvum odrum skyllde lystast á þær meir.

Sá

Sá sem villde afla Næríngar sinnar med Þiófnade, mátte koma fram̃ fyrer Høfudprestenn, og áfhenda honum þá stolnu Mune, hann sem frá var stoled, mátte eirnenn vera þar til stadar, til ad segia stund og tíd, nær hann hefde sitt mist, so feck hann þad aftur, ad fráteknum fiórda Partinum, hvörn Þiófurenn tók til sín, og skyllde þad vera eitt Straff, þeim sem frá var stoled, af því hann hefde ecke vaktad sitt betur.

Prestarner gáfu ei sína Trú, utann alleinasta eirne Konu, hiner adrer máttu taka sier so margar Konur, sem þeir treystu sier til ad forsorga. J Religionssokum eru nockrer Mahometisker, adrer Christner, þad er Rómversk-Catholsker, og sumer af Gydínga Trú.

Hvoria Yferherra Egyptsker haft hafe? þá voru þar fyrst þeir Kóngar, sem menn kolludu Pharaones, sídann Persiker; hiner þridiu, þeir Grísku Kóngar, sem hietu Ptolomei; hiner fiórdu voru Rómveriar; fim̃tu voru Sultanar, hinn siötte og sidaste Tyrkenn, hvor nú á dogum rædur yfer Egyptalande.

Tyrkiar eru almennelega breidleiter med flotu Andlite, miog sterker í lidum og líkama, láta ei sitt Hár sídt vaxa, utann Knefelbartana, sem verda meiga so lánger, sem þeir vilia; þeir eru skilníngsdaufer og óskarper, og seiner í sínum Fram̃kvæmdum; Þeir eru miog ágiarner, enn hlífa sier þó vid Ervide, eru hátalader, og hallda ecke þad þeir lofa, þeir eru yfermáta hneigder til Hórdóma og Sodomitiskrar óhæfu, meiga þó fyrer utan̄ nockurt Forbod, taka so margar Konur, sem þeir kunna ad an̄ast; Kvennfólked málar med Farva sínar Tennur, Arma, Fótlegge, og sierdeilis Neglurnar; Kotru og Spil brúka þeir ecke, gefa giarnann Olmusur, án manngreinarálits, hvorrar Trúar

þeir eru, sem þiggia, kavpa af medavmkun þá Fugla sem veidd-er eru, og láta þá flúga aftur sinn veg; Þeir hafa sída Kióla, og á Höfdinu hvít, enn þeir fornemstu græn Túrban edur Hette.

Þá þeir grafa hvor annann, heilsast þeir sín á mille med ó-hrærdum Höfudfötunum, og virda vinstre Sídunа fremre enn þá hægre.

Þeir fá sier mat þrisvar á Dag, og sitia rettum beinum á Jördunne, eta allslags Kiot, undanteknu Svínakiote, Rís er þeirra almennelegaste Kostur, Tyrkiar í Asia giora líted úr Fi-skenum, enn þeir í Evropa því meira, Valmúelog brúka þeir oft, halda þeir verde þar af vaskare og hugdiarfare, þegar þeir kasta af sier Vatne, setiast þeir nidur til þess eins og Kvennfólk; Þeirra Hús eru avdvirdeleg, þeir halda Apaspil ad hafa Húsenn leingre, helldur enn madurenn er, hvad opt þeir lavga sig er eingenn tala á hiá þeim; Þeir stunda uppá þad Dag og Nótt, hvernenn þeir gete komed ödrum Þióðum under sitt Ok, ann-adhvert med Vallde edur Slægsmunum; Þeirra veriur eru Bog-ar og Pílur, sórt Sverd og Strídshamrar, Pipnablástur og Trumbusláttur er hiá þeim almennur, þeir hafa avngva Fánu edur Strídsmerke, helldur míslita leppa á eirne lángre Stavng, þeir hafa avngvar Klukkur, og geta þær ecke helldur líded; þá þeir gánga í Kyrkiu taka þeir af sier Skóna, og láta þá á sig aftur þegar þeir gánga út.

Þavg Kóngsríke og Lönd, sem liggia únder hid Tyrkneska Vellde, eru þavg bestu og frióssömustu í Heiminum, og þar fyrer án þarfar, ad skrifa framar um þeirra Ríkdóm, sömuleidis þeirra stóru Strídsmagt í ófrídartíd, sem er næstum óútsegian-leg.

Hvad

Hvad Tyrkianna Trú áhrærer, þá er þeirra Afaud Spámadurenn Mahomet, komenn af Affomendum Ismaels, hanns Fader var Abdola, einn Heidenn Madur, og Afgudadyrkare, og hanns Móder ein Judinna, ad Nafne Hennina, hann var fæddur / þad ár Christi, 562.

Þessum Mahomet ræntu Arabisker á hanns Æskuskeide, og seldu hann einum Persiskum Kaupmanne, efter Kaupmannsins Dauda feck hann, hanns efterlátna Eckiu, hvar af honum vóx mikell Ríkdómur og stór Hofmódur; Hann tók til sín 2. Christnada Juda og Múnka, sá eine hiet Johannes og var Nestoriskur, annar Sergius einn Arianiste, þeirra Fyrerteckt hneig þar til, ad umsturna þeirre Trúargrein, um Guddomenn Herrans Christi.

Mahomet talde fyrst sinne Konu, og hennar Ættingium Trú þar um, ad Gabriel Eingill være ad tala vid sig.

Þá sem honum villdu áhánga, kallade hann alla til sín, og skeinkte þeim miked Giallð, flutte sig í Stadenn **Medina**, og hiellt sig þar lánga Tíd; Frá þessum Mahomets Flótta telia Mahometisker sinn Arareikníng, eins og vier Christner frá Christi Fædíngu.

Þegar nú þesse Mahomet, hafde oft Sigur fenged yfer Persiskum, dreifde hann þessum sínum Villulærdóme því vídar og vídar út.

Enn þad Mahometiska Logmál leifer Umskurneng, giörer Greinarmun á hreirne og óhreirne Fædu, eins og Gydíngar, afneitar Guddóminum Christi med Arianiskum.

Þesse Mahomet uppfyllte sína Bók, þad er Alcoranenn, med Digtudum Fráſogum, Heidíngiunum til Þócknunar, og til þess ad

 locka

locka Fólked til sín, liet hann þeim efter og leifde óhreinar og holldlegar Lysteſemder.

Framar vidurkenna Tyrkiar, ad þar sie ecke utann eirn Gud, Christo veita þeir virding, ecke so sem Guds Syne, helldur so sem einum stórum Spámanne, játa ad hann sie fæddur af Jómfrú Mariu, enn hafe ecke Daudann lided á Krossenum. Líkneske og Afgude lída þeir ecke, Fosturagenn hallda þeir Helgann, eins og vier Sunnudagenn, þeirra Fostu, sem varer í 30. daga, á hvørre þeir eta eckert á Dagenn, helldur á Kvølldenn, kalla þeir **Romodan**, efter Fostuna hallda þeir Páska í þriá Daga, á hvørium þeir giora sig lystuga, þó er Páskahátídenn miog hræranleg hiá þeim, því þeir hallda þá stundum á Sumrenn, stundum á Veturnar, af því þeir reikna ecke sitt ár efter Sólargángenum, helldur Túnglsins Hlaupe; Nýmánateikn edur Mánd hallda þeir heilaga, og brúka hana oft, eins og vier Krossmark edur Signíngu.

Þeir láta sig umskera, eins og Gydíngar, þó ecke á áttunda dege, helldur á áttunda áre, og af því þeir lída avngvar Kluckur hiá sier, þá stíga Prestarner uppí Turnana, og kalla á Fólked ad koma til Bænanna á tilsettum Tídum, þrísvar á dagenn og tvisvar á nóttunne; ecke vilia þeir láta kalla sig Tyrkia, hvørt Ord ad merker **Utlaga**, Exulant, (edur Landflótta) helldur **Muselmenn**, þad er Rettrúada.

A medal þeirra, eru 4. Múnkastetter, edur Ordur, sem eru Táldragarar og vonder Skálkar, þeir eta og drecka med Christnum, bidia líka þeirra Dætra sier til Egta.

Eingenn Jude má Tyrke verda, nema hann Christnest ádur og láte sig skýra, Tyrkiar bolva ecke nie formæla, lída þad ecke

helldur

helldur ödrum; Nær eirn trúer þvi, sem er í Alcoraneñ, þá kañ hañ ad fá Fyrergefníng Syndanna, og þá Paradís, sem þeir uppá hallda, hvor eckert er annad enn Sœtus og Lystisemda Land.

Og er so útsagt uñ þad Ottomanniska Ríke í Evrópa, Asia og Africa.

## Um þeß Stoora Sophi, edur Koongsens í Persia, Stioornarvellde, Ríke, og Hierod-

Þad Persiska Ríke innebindur í sier morg Kóngsríke og Lond; Þetta Ríke, var uñ lángann alldur þvíngad af Saracenum, enn þó meire Skade veittur af hinum Tartariska Tamerlan, enn nú hefur þad, fyrer Manndóm og Framkvæmd Ismaels Sophi, nád aftur sinne Virdíng og Herlegheitum; Ad avstanverdu vid þad Persiska Ríke, liggur **India** og **Cambaja**; Nordañfram eru Tartarar, Vestanverdt nær þad til Tyrkia, vid Flióted Tygris, og Sunnann vid þad er hid stóra Persiska, og Indianiska Haf.

Landsuñdæmed **Assyria** hefur ad Avstanverdu vid sig Mediam, Vestannfram Mesopotamiam, til Nordurs Armeniam, og ad Sunnanverdu Susianam; **Nineve**, hvor ed var miklu stærre enn **Babilon**, stód hier vid Tygris Flioted.

Mesopotamia er inneluft millum þeirra tveggia herlegu Vatnsfalla, Euphrates og Tygris.

**Persia** er eitt af þeim stærstu Einvalldsdæmum í Heiminum, þar á ofann yfermáta Fólkrík.

Hiá Stadnum **Tarom** vex sá íllaluckande Harpís, sem hiá oß kallast **Díøfuls-Dreckur**.

Hofud

Hofudstadurenn heiter Ispahandes, er Kóngsins Adsetur, hvar sá fallegaste Tialldvefnadur giordur er.

Þeir Persisku eru hvíter og velvaxner, þeirra Klædnadur er harla líkur hinum Tyrkneska, í Stríðum brúka þeir Lensur og Skyllde, líka Boga og Pílur, Kerda stóra, og Járn Bussicana, bera einn Panzara á sier, eru vasker og ódeiger, hallda miked af Bókum og lesa þær giarnann, ydka sig þar med í Skálldskap; I einu Orde ad segia, er því Persiska Rike vel og hagnadarlega Stiórnad; Þeirra Kaupmenn flitia þadan til Ormus, Gylline= og Silfur=Sticke, Persiska Tialldduka, raudann Farva, Alún, Rabarbar, Rosenvatn og fallega Hesta, taka aftur á mót Austurálfunnar Voru, tilbúenn Klæde, Negulnagla, Cinnamom, (Dés,) Múskatznytur, Engefer, Cardamomur, Sikur, Ebenhollt, Porcellains=Fot og Skáler, Moscus, Ambra, Aloe, og þeßslags fleira.

Ibland Persa búa meir enn 100000. Júdar og líka Christner, enn þeir eru mestann Part Armenisker og Nestorisker.

Nálægt þeim Persiska Golfo, edur Fyrde, er Landed miøg ávaxtarsamt, í sumum Stodum gefast þar Málmgrafer og Gimsteinar.

Meder-land er mestann Part Fiollum vaxed, hefur nordannfram Nægd Epla og mikla Villebráð, enn Sunnannverdt gott Vín og prídelegann Kvikfenad.

Assyria er slett og flatlend; Susiana full af Pyttum og Forodum.

Mesopotamia er sumstadar ávaxtarsom, enn sumstadar magurt og þurt Land, sokum þeß mikla Hita; hier fá menn

þad

þad velluktanda Amomum, og þad fliótanda Vik, sem kallast Naphtha.

**Persia** Land, sem so kallast sierdeilislega, er misjafnt, nordanfram er þad kallt, og finna Menn þar Smaragda, sem eru dockgræner ad lit; Enn ad sunnanverdu er þad miøg heitt, og vaxa þar miklar Dattelur.

J Hyrcania svitnar út úr nockrum Triám Hunángsvøkve, í sumum stødum fá menn Silkeorma, í nordurskógunum hallda sig Tygris- og Panterdýr, Lión og Leopardar.

J Magiana finna menn so digra Vínstocka, ad menn kunna nauðulega ad fedma yferum einn af þeim, þrúgurnar þar á, segia Innbyggiararner verde hálfrar alinnar lánger.

Bactriana gefur Smaragda, Hyacyntha og Chrysolita, Vín sem í **Aria** vex, helldur giædum sínum í 80. ár.

J Gedrosia finna menn Nardus og Myrru.

Þeir gomlu Persisku tóku sier margar Konur, hielldu þó mikenn Fiolda af Fridlum, sá sem flest Born eignadest, feck einn Skeink hiá Kónginum. Þeir skutu med Pílum og slongrudu med Steinum, þeirra Rúm og Húsbúnadur var nettur og þrifalegur; Þeir gengu fastande á Rádstefnur, enn giordu Aliktanirnar nær þeir voru druckner, þeir sem voru af sama Stande og Alldre, heilsudu hver odrum med Kosse; Syninner, hvad allra svívirdelegast var, samblondudu sier vid Mædurnar; ad vera í Skulldum, þótte Skom hiá þeim, enn þó sviánarlegra ad frambera Líge edur þad sem ósatt var. Nær Forelldrarner urdu þrotbiarga var þeim leift ad bióda falann Líkama Dætra sinna hverium sem villde; Þeir tilbádu Sólena, sogdu Gud være ecke meire enn Himinenn siálfur,

Þeir dyrkudu Túngled, og þad 4. Element, eingenn Persiskur þvode sier í rennande Vatne, miklu sídur liet sitt þvag þar í, því þeir hieldu Vatnsfollenn heilag.

Þegar einn var Kónginum óhlídugur, þá voru Handlegger og Hofud af honum hoggved, og látenn liggia ógrafenn.

Partiskar brúkudu snióhvíta Kióla, eins og Mediskar, klæde hinna fornemstu máttu glansa og glóa af Gulle og Edalsteinum, sínum davdu kostudu þeir fyrer Hunda og Fugla, þegar holldeð var eidt og fortært, grófu þeir Beinagrindena, Kallmennerner voru grimer og harddræger, sogdu þad heyrde þeim til, enn Kvennsfolkinu byriade ad vera liúft og vinngiarnlegt.

Þeir Mediſku voru hugdeiger og rager, brúkudu mislita Kyrtla edur Kióla, Ermalavsa, Karlmennerner tóku sier til egta 7. Konur, þar á móte voru Konurnar ecke ánægdar med einn mann, þeirra Bravd var úr þurkudu Mandelmiole, ecki Kiot átu þeir af tomdum Dyrum.

Þeir Assyrisku færdu sínar fríduſtu Dætur út á Torged, þá Peninga er þeir fengu fyrer þær, gáfu þeir hinum ófríduſtu til Heimanfilgiu, so seldu þessar Gialld, enn hinar Fríðleik sinn, og fengu á þann hátt, allar menn, nockrer af þeim þurkudu Fisk vid Sólu, moludu hann sídann í Miol, og bokudu Bravd þaraf, þessa kolludu menn **Fiskætur.**

Þeir í Carmania, þordu ecke ad taka sier Konur til egta, fyrr enn þeir hofdu fært sínum Kónge eitt Mannshofud, af óvinum hanns, úr því reif Kóngurenn Túnguna, skar hana sundur í smábita, dreifde þeim ofaná eina Bravdsneid, og át siálfur

fyrsta Bitann þar af, enn gaf Leifarnar honum, sem Høfuded hafde til hanns fært, hann át þad sem efter var af Túngunne med næstu Frændum sínum, enn Høfuded var heingt uppí Pallatzed, og því fleire Høfud sem einn kom med, því meire Æru og Virdíngu feck hann.

Margianisker slátrudu sínu gamla Fólke, er var yfer 60. alldur, og hiner nánustu Frændur átu Kiøted þar af, allt ad Beine.

**Persar** nú á døgum, eru hiner liúfustu og vingiarnlegustu menn í Heiminum, í Orlæte taka þeir ollum Þiódum fram, því þeir eru ecke viller og barbarisker, eins og þeirra Nágrannar Tartarar og Indianar, helldur høiffleger, elska Frómleika, og hafa lærda Menn kiæra. Í Læknisdóm og Stiørnulyst, somuleidis Skálld-Skap, eru þeir hart nærre fullkomner; hvorsu nett Handverk þeir hafa, vitnar sú Vara, er frá þeim kemur.

Þá Framande tractera þeir vel, þó mega menn ecke neitt þeinkia til þeirra Kvenna, því þar eru þeir miog vandláter um, eingenn Kvennmanns Persóna þorer helldur ad láta siá sig af framande Mønnum, því þeir hafa líka, í Sannleika ad segia, frídt og fallegt Kvennfólk, þar med bera þær þau herlegustu Klæde, sem skína og glansa af Perlum og Gulle, so frá því kann ei sagt verda; Og jafnvel þótt þeir sieu miog gefner fyrer Venus leik, til hvørs þeir vegna síns fríða Kvennfólks hafa gott fære og hendtugleika, þá æfa þeir þó Sodomitiskann Lifnad, eins og Mahometisker giøra.

Þeirra Túngutak er snidugt og líflegt, hvad og hiálpar miked til Verksins; Þeir skrifa Arabisku, og byria Línuna til hægre Handar, og enda hana vid þá vinstre.

Þeirra Ríkdómur er fólgenn í Gylline- og Silfur-Stick-ium, Silkevefnade, Tialldúkum, Perlum og Gimsteinum.

Í Stríðstíð er þeirra Magt ecke líel, til að útbúa herlið, þó bestendur þeirra Styrkur meir í hreiste og filge Stríðsmann-anna, helldur enn í Fólksfiolda. Þeirra Stiórnarháttur er ecke neitt ódruvíse, enn hinna Tyrknesku. Í Religions-Sokum er líka eins á sig komed hiá þeim, sem hiá Tyrkium; Þeirra Kóng-ur hefur eina rauða Húfu með 12. Toppum, í Minníngu þeirra 12. Sona Ocen.

Jafnvel þótt nú bæde Persar og Tyrkiar sieu Mahometi-sker, þá er þó stærste Fiandskapur þeirra í mille, so̅muleidis eirn-enn millum þeirra fyrrnefndu Christinu þar, og það vegna Trú-arbragdanna.

Sumer skinsamer Menn hallda, að hefdu þeir Christnu Po-tentatar betur medtekeð þá Persisku Hondlun, sem hier var fyr-er nockrum árum í Evropa, niunde þesse Potentat aldeilis hafa til Christelegrar Trúar umvendtur orðeð.

Það segia hiner gomlu Skrifarar, að Cyrus hafe kúgað af Afa sínum það Mediska Ríke, og lagt til Persien, enn síðan̄ epterláted það Foður sínum Dario, fyrer hvors Hiálp han̄ in̄-tók Babilon, og á þann hátt komeð Einvalldsdæminu frá þeim Assyrisku, til hinna Persisku.

1. Cyrus ríkte með Dario 2. ár.
2. Darius Hystaspis Son, með því Tilnafne Artaxerxes,
3. Asſverus, ríkte sem eirn Kóngur 20. ár.
4. Darius Artaxerxes Longimanus 77. ár.

5:

5. Darius Nothus, rikte 19. ár.
6. Artaxerxes Mnemon. 55. ár.
7. Darius Ochus, 26. ár. 8. Arsames, 4. ár.
9. Darius sá sidaste, rikte 6. ár, vard af
10. Alexander hinum mikla, Konge í Macedonia, yferunneñ, og er so þetta Einvalldsdæme komed til Grickia, frá Persum.

## Ein önnur Tolurod þeirra Persisku Koonga, tekenn wr þeirre Grisku og Latinsku Historiu.

1. Cyrus, var hinn fyrste Persa Kongur, efter hann
2. Cambyses, hinn annar Einvalldsherra í Persia.
3. Smerdes, einn af þeim Magis.
4. Darius Hystaspis, er talenn þridia Monarcha.
5. Xerxes, fiorda Monarcha í Persia.
6. Artaxerxes, hin fimta. 7. Darius Nothus, siötta.
8. Artaxerxes II. Mnemon, siounda.
9. Darius Ochus, áttunda.
10. Darius Codomannus, hin sidsta Persisk Monarcha, hañ vard af Alexander mikla ræntur þvi heila Persiska Rike, hvad ed skede Anno Mundi, 3635.

Efter þessa hafa marger af imsum Ættum rikt í Persia, inn til Schach Ismaels Afkomenda, sem sitt Rike vollduglega forsvarade á móte Tyrkium og ödrum sinum Nábúum, sá sem rikte 1673. hiet Schach Ismael, Sonur Schach Abbas II. hvor ed dó 1668. enn var fæddur 1647.

## Um Rike og Vellde þess Stoora Chams, edur Koongsens í Tartarienu.

Nockrer hallda ad eingenn Potentat í Evropa, edur Asia, ad undanteknum Konginum í Spanien, vegna Vestind-

ien, hafe so miked Land, sem hinn stóre **Mogol**, þad er **Tartaried.**

Enn **Tartara** Land hefur ad Austannverdu vid sig Kóngs-ríked **China**, Vestannfram **Imaum**, Sunnann til nær þad ad **India** Lande, og Nordannverdt er Ishafed.

Hofudstadur heila Rikisins er **Cambalus**, hann er ferkantadur, umhverfis 24. Valskar Milur, hefur 12. Port, edur Hlid, og eins marga Forstade.

Grundenn í **Tartaríenn** er rík af Hveite og Ris, Gulle, Silfre og Silke, hefur nægd af Cinnamome og Rabarbar; Þar er fiölde Ulfallda og Hesta.

Þad er skrifad úr **Tartaríenn**, ad sá stóre **Cham** hallde 1000. liósar Merar, og drecke undann þeim Miólkina.

Menn fá þar Steinkol eins og í Nidurlande, á Veturnar rigner þar alls eckert, á Sumrenn nockud líted; Vindurenn blæs þar so hvast, ad hann helldur aftur rídande Manne; Þeir hafa marga Fugla, oss ókienda, so sem Fasan-Hænsne, og Stoduvotn í hvorium Perlur finnast.

Þeir gomlu Tartarar klæddu sig med Dyraskinnum, því Klædagiord var ókiend hiá þeim, nær þeir tóku nockurn til Fánga, slóu þeir fyrst Húdina af Hofdinu, tóku sídann Heilann úr Hofudskielinne, og lietu forgylla hana, og brúkudu fyrer Dryckiarkier; úr Mannahúd giordu þeir Kier, til ad vatna Hestum í; Þeir fórnfærdu Juppiter og Jordunne, Mars Afgude offrudu þeir Hestum; Sokn lidu þeir ecke medal síns Kvikfiár.

Þegar eirn var dæmdur til Dauda, máttu líka hanns Syner deya med.

Þá

Þá þeir giordu Samband, edur Stallbrædralag sín í millum, tóku þeir eirn Leirpott, helltu Víne þar í, blonduðu það med beggia Partanna Blóde, stocktu því so á sín Sverd, Pílur og Boga, sóru þar efter eirn Eid, og bölvudu þeim sem fyrr bryte af, ad sídustu druckn þeir það, sem epter var af Blódinu í Pottinum.

Þegar Kóngurenn dó, rökudu hanns Þienarar af sier Háred, til Sorgarmerkis, særdu sig á Handleggium og Andlite, og stersdeilis stúngu þeir í gegnum adra Hondina; eina hanns kiærustu Fridlu gróftu þeir med honum, og af því hann þyrfte eirnen Þienara med í hinum ödrum Heime, þá voru yfer hanns Gröf, hanns Kammerþienare, Kockur, Munnskeinkiare, Hestasveirn ásamt Reidhestinum, kyrkt og drepeð, og þar efter med nockrum Bordsbúnade grafed, ecke lángt frá Kónginum.

Þeir hielldu líka hvört ár, þeim dána Kónge til Æru, Líksör vid hanns Gröf, hvad ed kostade margann gódann Edalmann, hvörium þar var slátrad; því þeir útvölldu 50. manns, af Riddaráskapnum, med eins mörgum Hestum, hvöria þeir alla drápu, og tóku úr þeim Innístenn, saumudu sídann Kroppana samann aftur, reistu so þá daudu Hesta upp vid Pela, í kríngum Gröfina, og settu þá drepnu menn þar uppá, máttu þeir so þannig tilbúner þar Vakt hallda.

Anno Christi 1187. útvöldu þeir sinn fyrsta Kóng, sem hiet Changuistus, eirn gamlann mann, sem í Drawme hafde sied eirn Riddara á hvítum Heste, hvör vid hann sagde soleidis: **Þad þoocknast Gude, O!** Changuiste, ad þú skuler frýa **Tartara** frá þeirra Þrældóme, vera þeirra Kóngur, og giöra þá þier undergefna, hvörium þú hefur híngad til Skatt golldeð.

Þesse

Þesse var nú eirn Hatare allrar Afgudadyrkunar, aftók oll Bilæte, og villde menn skylldu eirn Gud dýrka.

Tartarar nú á dogum hafa medalmanns voxt, eru stóreigder, nær þeir síngia, lætur þad eins vel, og þegar Ulfar ýla, þeir hætta ei vid ad drecka, fyrr enn þeir eru ordner fuller og galdaer, marger af þeim búa í Tiolldum, under beru Lopte, þeir foragta allar Þióder, sierdeilis Christna, hvoria þeir kalla Hunda, þeir eru mikler Tofra-Snápar, eru ósticklanleger yfer Máltíd, eta Hunda og Kette; Þeir steikia líka vel eirn af sínum Fongum, og eta hann. A Sumrenn gánga þeir svartklædder, enn á Veturnar í hvítum Fotum, hiá þeim er hverke Trú nie Trygd, ecker Fólk kann lauslátara ad vera, helldur enn þeir, þegar eirn deyr, verdur eirn af hanns Þienurum líka drepenn, og grafenn med honum, so hann kunne ad þióna honum í hinne annare Verolld.

Haytonus, eirn Armeniskur Skrifare, seger, ad Kónganña Begrafelse sie á Fiollum, og ad þeir sem fære Kóngsins Lík þángad, drepe alla þá, sem mæta þeim, og brúka þesse Ord: **Far hiedann og þioona vorum Koonge í hinum odrum Heime.**

Þeirra Ríkdómur er innefalenn í því ad hondla med Rís, Silke, Hamp, Ull, Rabarbar, Cinnamom, (Des) Schamlot, Engefer, Gullsand, Kuriel og Láfur.

Þeirra Mynt er úr Ledre, Vidarberke, edur Siáfarskelium. Nafn hins Tartariska Kóngs siá menn, med gylltum Bókstofum á Musteris- edur Kyrkiu-þilenu.

A Signetz Hríng og Innsigle þess stóra Chams, standa þesse Ord: **Gud drottnar í Himnenum, og sá stoore Cham á Jordunne.**

I Trúarbrögdunum eru þeir mestann Part Mahometisker, þeir hrópa daglega: LAH, ILLA, ILLA, IOTH, þad er: **Gud er ecke utann eirn einaste Gud:** Þeir segia líka, ad Sálen manns sie ódaudleg, fare úr einum Líkama, í hinn annann.

Og er ei fleira um Tartara.

---

# Um þad megtuga Kongs-Ríike China, i Austuraalfunne.

Kóngsríked **China** er þad ytsta Fastaland mót Sólaruppgángu, fyrer austann þad, er hinn stóre Oceanus, edur Eide-Haf; ad sunnanverdu, Landed **Canchin China;** Vestanverdt eru Bramini, edur Indianar, nordannfrá þeir **Catayrer-Tartarar,** hverier allér ná til **Persien,** og verdur skipt í 15. Hierød, af hverium, hvert eitt' er so stort, sem eitt Kongsríke í Evropa.

Hofudstadur heila Ríkisins heiter XUNTIEN, þad er á Islendsku, **Stadur Himinsins,** er so stór, ad eirn Reidmadur kann naumlega á dege ad rída kríngum hann.

Kóngsens Bilæte edur Mind siá menn á Fortiolldunum saumad, edur tilbúed, med þessum Ordum: **Eirn Herra Heimsins, og Sonur Himinsins.**

Øll Hús hafa þrennar Dyr, hvoriar hiá ødrum, af hverium þær í mided eru stærstar og skrautlegastar, innann til eru þau oll og ysferallt málud, utann til oll med hvítúm lit yfirstrokenn; Þeir bestu Byggíngar- og Handverks-Meistarar, sem menn finna kunna í Heiminum, eru hier; Øll Landstræte, hvad vel er undraverdt, eru med ferkontudum tilhoggnum Steinum løgd.

Þeir Portugisisku skrifa, ad þeir hafe sied í Stadnum Fucheo eirn Turn, sem stáded hafe á 40. Stólpum, edur Fotum, giordum af einum heilum Marmarasteine, 40. hverhanda háum, og 12. á digurd, og sie þad, ein þvílík kostuleg Bygging, ad eingenn, í heillre Evropa, kunne ad jafnast þar vid.

Þad Kónglega Adsetur, er Stadurenn Xuntien, sem hefur eirn Múr, á hvorium ofanverdum gánga kunna samsída 4. Persónur; þeir segia, menn mege vel hafa 4. daga, ádur enn þeir hafe skodad allt, þad sem í Kóngsens Pallatze er.

Sloted er med siofolldum Múr umgirdt, þar inne eru 79. herleger Saler, í hvorium mikell fiolde Kvenna herbergiar, sem Konginum þiena, eins og Þienarar og Yngismenn giora annarstadar.

Medal Dýrgripa og Clenodia þessa Kóngs, er eirn Thrón, edur Hásæti, af eintómus Gulle, í hvorium Kóngurenn lætur útlenda Potentata siá sína Majestet sitiande; þesse Thrón er med kostulegustu Gimsteinum, sierdeilis Carbunculum og Diamantum, af ótrúanlegre stærd, settur, sem gefa af sier eirn skínande Glansa, so þeir á Nóttu, lýsa sem tendrud Liós.

Vegger þessa Pallatz eru og ecke miklu-stour skrautleger, so ad aller þeir, sem hier um skrifa, játa sameigenlega, ad í heila Heiminum, kunne eckert prídelegra og fullkomnara funded verda.

Grunden þessa Lands gefur í sumum stodum af sier Avoxt, 3. já 4. sinnum á áre; Lopted er gott, og Goturnar eru fullar af Bornum, af Vidarávoxtum er þar yferfliótanlegt; þeir hafa þrenslags Pómerantz, Melonur og Pipar, Sikur er þar, vegna nægtarinn

tarinnar í slettum Prís, af Vaxe og Hunánge fragta menn þar heil Skip full, það besta Silke er þar nægelegt, og Ull, Lín, Hampur, í æred litlu verde; þar vex mikel Bómull, og Rís, sem fæst med miøg góðum Taxta, á Fiøllunum vex Furuviður og Castaníutre, í Dølunum mikeð af Indianisku Hveite, sem menn kalla Maiz, þeirra Hagar og Einge gefa, ecke alleinasta, af sier, kostulegt Gras, helldur ótelianlega mørg Blómstur, sem að Luktinne taka lángt fram þeim, sem hiá oß eru.

J Skógum og Dýragørdum finna menn, Ráðýr, Skógargeitur, Hiera, Kúmsa, og onnur fleire.

Des er hier algenged, fæst úr einu smádýre, sem etur eina vellurtande Rót, hvør kølluð er Gamatua. Af Nautpeníuge gefast þar só stórar Hiarder, að eirn þeßslags stórgripur kostar ecke utann 2. Cronur; Af Svínum eru þar líka ótøluleger Hepar, þeirra Kiøt er so gott og heilnæmt, sem af Gelldsavdum hiá oß, þar er og nóg af Boffelum.

Af fliúgande Fenade er þar ein þvílík Mergd, að menn skrifa, í þeim Stad **Canton**, sie á Viku hvørre eidt til matar, 12000. Fuglum; Hænsna og Caupunakiøt, selst þar eins og Nautakiøt.

Margar kostulegar, og til Lækńnga þienanlegar Jurter, ber þetta Land, sierdeilis Rabarbar, og China Rót, sem góð er við mørgum Kránkdæmum, sierdeilis Bólusótt.

Af Fiske er þar ótrúanleg Mergd, ecke einasta í Siónum, helldur og í Fliótum og Stødúvotnum; úr Jordunne verdur allslags Málmur úppgrafenn, líka Gull og Silfur.

Nockrer skrifa, ad í China sie Silfur teked framȳfer Gull; Af Málme hafa þeir: Kvikasilfur, Kopar, Járn, Stál, Blý, líka Brenneſtein, og onnur Mineralia, enn í þeſſu Lande koma mikler Jardskiálftar oft, ſo marger Stader og Hús kollvarpaſt þar af.

Desdȳred beria þeir til Davds med ſtavrum, tilbirgia ſídann alla útgánga Líkamans, ſo eckert Blód þar út komeſt, leggia ſo Kroppenn í eirn Stad, hvar hann ſtrax rotnar, þegar nú Beinenn eru ſo ſundurſlegenn, og þad marda Hollð vid Blóded ſamblandad orded, og þad allt rotnar edur fúnar, fær þad þeſſa giæda Lugt; þegar nú Dȳred er ſo vel fúed orded, og allt þetta í melltu komed, ſkera þeir þad ſundur med Skinnenu í ſmáſticke, og giora þar úr litla Poka, þad er ſídann þad beſta Indianiſkt Des, ſem flutt verdur til vor.

Chineſiſker eru fleſtaller hávaxner, med flatt Andlit, ſmáeigder, med afſlepp. Nef, þeir hafa ecke Bart edur Hoku-Skegg, ſem Karlmenn í Evropa, helldur litel og þunn Kiálka-Skegg. einaſta; Af hægre Hendenne ſkiera þeir Neglurnar, enn láta þær kyrrar ſitia á hinne vinſtre, og hafa ſídt Hár í Hnackanum.

Stórer Herrar klæda ſig med hreina Silke, miſlitu, Almúga Fólk brúkar Floret-Silke, Bómullar- og Lin-vefnad, því vegna þeß þar er hlítt Land, bera þeir ecke Ullarklæde, þeir fornemſtu hafa Socka og Skó af Sammete; Klædnadur Kvennfólkſins Miſmunar líted frá þeirra Sponſku, á honum ollum, hánga Perlur og Gimſteinar, líka í Hárenu, uppá hvort þær ſtórum paſſa; Andlited ſmȳria þær á ſier, og hallda miked af, nær ein er ſmáfætt, hvar fyrer þær brúka á þeim litlu Stúlkubornum, æred þravngva Socka og Skó á Fótunum, ſo þeir verde

ecke

stórer. Þó meina nockrer, ad Vandlæte mannanna hafe þetta uppfunded, so ad Konurnar af Fotanna óstirk í þessu falle, kunne ecke ad gánga lángt út úr Húsinu, edur tróda vída Strætenn.

Pær koma ecke til Bords, ef Framande eru vid hondina, láta sig ei helldur siá; Vilie ein fara kynnisfor til Ættíngia sinna, þá er hún borenn þángad af 4. Knegtum, í emum yferþoktum Stól, og filgia henne Þionar og Þernur.

Chinesisker eru næmer og flióter ad læra, og í Málarakonst miog vel útfarner, sem þeirra Híbýli útvisa; Á sléttlendinu brúka þeir Vagn med Segle, hvorium siglt verdur eins og Skipum.

Yfer Kram- og Vorn=búdum heingia þeir Toflur, á hvoriar málad er, hvad í Varníngs=Hlodunne sie til kaups.

Pad prídelegasta Porcelain er hier ecke dýrt, þad besta, sem er so skiært sem Chrystall, verdur tilbúed í Umdæminu **Saxien**, og flytst ecke út af Landinu.

Hinna Chinesisku hellsta Umsorgun er sú, ad þeirra Børn verde í tækann tíma gift, og so þeir sláe ecke nein Vindhogg í því, þá trúlofa þeir þaug oftsinnis í Vogguñe, hvor Módur hiá oß, tekur af ad leggiast.

Brúdgumen má siálfur gefa Brúdenne Heimanmund, þá Bryllaupstímenn er komenn, tilreider Brúdarfaderenn Máltídena, hinn annann dag giorer þad Fader Brúdgumans, og binda so siñ Vinskap á bádar sídur. Efter Máltíd er Brúdurenn afhendt Brúdgumanum, enn hann gefur sínum Máge, edur Teingdafodur, aptur ámóte eina Summu Penínga, þar fyrer er iá ríkur, sem

 margar

margar Dætur á. Um sína Lífstíd nýtur Brúdarfaderenn þessa Gialldz, enn efter hanns Dauda fellur þad aftur til Dótturinnar, edur hennar Barna.

Eirn madur má taka so margar Konur, sem hann getur forsorgad; þá fyrstu helldur hann fyrer sína Egtakvinnu, enn hinar adrar eru Hiákonur, og þær verda hartnær halldnar, sem Þernur, því sú fyrsta helldur sig hiá honum í hanns Svefnherberge.

J þeim Hierodunum, sem næst eru Tartarienu, er þesse Plagsidur brúkadur:

Stiórnarherrann samastadar, tilsetur Ungismonnum og Stúlkum eirn vissann tíma, á hvorium þad skule annadhvort giftast, edur gánga í Clausfur, þad sem nú vill giftast, kemur á tilteknum dege í Stadenn, framfyrer 12. menn, sem þar til setter eru, þeir Examinera þaug oll, skrifa upp Nofn þeirra, og fullgiora so Hiónabands-Sokina rigtuglega.

Þegar nú Ungismennerner eru fleire, helldur enn Stúlkurnar, meiga þeir varpa Hlut í Skaut, hvor hann hlítur, hann má bída ár lángt; hid sama meiga líka Ungismeyarnar giora, ef þær eru fleire enn Pilltarner.

Þegar nú Porenn eru josn, verdur Ungismonnunum skipt í þriá Stade. J fyrstu Rodinne standa þeir **Ríku**, í annarre, hiner í **Medallage**, í þridiu, þeir **Fatæku**, þetta er og so giort vid Jómfrúrnar, þó, á þann hátt, ad í fyrstu Rodinne eru settar þær **Fridu**, í annarre, þær í **Medallage** fríðu, og í þeirre þridiu þær **Ofridustu**. Hinar fríðu gefa menn þeim Ríku, og má hvor eirn þeirra leggia út aftur á móte, ádur umtalgetna Summu Gialldz. Þær Medalfríðu gefa menn þeim Medalríku,

ofridu, og þeir betala ecke neitt þar fyrer; Hinar ófrídu gefa mem þeim Fátæku, og allt það Gialld sem þeir Ríku lögdu út, verdur haft til eirnrar stórrar Máltídar, sem varer 50. daga, í hvørre þetta Fólk giörer sig lystugt, þángað til það siálft getur sier samanað fenged.

Þegar Kóngurenn í China vill kvongast, útvelur hañ 30. Saumhúsfrúr, af þeim frídustu í heila Ríkinu, og þær hallda vid hiá honum í Slótinu, so leinge sem hann lifer.

Nær Kóngurenn er dáenn, færer hanns Thrónfilgiare þessar, búnar hid skravtlegasta, med huldum Asiónum, uppá eirn stórañ Sal, þángad koma 30. af Adlenum, hvøria sá afdavde Kóngur, í sínu Testamente Nafngreint hefur, og tekur hvør eirn þessara, eina af þeim 30. Fridlum, med grímunna, sier vid hönd, færer hana heim til sín, og verdur hún hanns Kona, þar ad avke verda þeim stórar Skeinkíngar gefnar.

Vid sínar Líkfarer brúka þeir þann sid: þeir þvo hañ davda, færa hann sídann í velluktande Klæde, setia hann á eirn Stol, hanns Ættíngiar beigia Kne fyrer honum, leggia hann í eina Líkkistu, yferbreida hana med einum Dúk, á hvørn Bílæte hins davda er málad, láta hann so standa uppe 15. daga, sídañ bera hans Náúngar hann út á Mörk, og grafa hann þar.

Sín ár reikna þier efter 12. Túnglum, edur Túnglmánudum, og hallda sinn Fædíngardag med Gladværd; Í Gestabodum, hefur hvøreirn sitt Bord útaf, sem giördt er af skígndu Ebenhollte, med gylltum strikum, af Chinesisku Handverke.

Af allre Fædu hallda þeir Svínsflesk, fyrer þá bestu, taka það framyfer Fuglakiöt, og allslags Kridderí, matenn taka þeir

ecke

ecke upp med Höndunum, helldur med Silfur- edur Gull-Gapfölum.

Hvörsu sinnugt og skarpt þetta Fólk sie, siest af þeirra konstugu uppáfinndíngum, þeir þurfa aungva Blástur-belge, því Afslarner í þeirra Smidium, eru af so mikillre List tilbúner, ad þeir án afláts gefa siálfer Vind úr sier.

Prickerí, Púdurgiord og Bissuskot, hallda nockrer, þeir hast hafe, morgum hundrud árum fyrr enn Þýsker.

Menn skrifa um þá, ad þeirra stóru Fallstücke sieu so konstuglega steipt, ad menn kunne ad taka þaug sundur í parta, flytia þaug á Vognum, setia þaug sídann snidugleg saman aftur, og skióta med þeim, eins og odrum, án allrar hættu.

Í Skrift sinne brúka þeir þessa atferd: þeir skrifa ecke línurnar frá hægre Hendenne, til þeirrar vinstre, eins og Hebreşker, ecke helldur úr þeirre vinstre, í þá hægre, eins og vier í Evropa giorum, helldur ad ofanverdu frá niduréfter, hvar fyrer þeir hafa líka lángann, enn ecke breidann Pappír.

Þeir kenna morgum Fuglum ad tala, og hafa Leikara-Spil, á Skipunum hafa þeir nockra, sem á dagenn leita fædu sinar á Morkinne, og á Kvolldenn, þegar Skipherrann hrínger sinne Klucku, koma þeir til hanns heim aftur.

Til Fiskeveide hafa þeir Sæ hrafna, so tilbúna: þeir binda eirn Kraga fast um þeirra Háls, þó ei offrekt, þegar nú þesser Hrafnar draga Fiskenn upp úr Vatninu, geta þeir ecke gleipt hann ofann í sig, vegna Kragans, helldur efter því sem þeir eru tilvander, færa hann sínum Herra, og flíúga so burt aptur.

Á þennann Sid skulu eirnenn hiner Engelsku nocknrnvegenn vaned hafa sína Sæhrafna, so sem þeir í Fontainebleau, í vidurvist þeß Franska Hoffólks, ei allo fyrer lavngu, hafa sínt merke til.

Þeir Chinesisku hrósa sier af því, ad þeir sieu hiner Skilnings-skorpusnu í ollum Heime, seigiast þar fyrer hafa 2. Avgun, og þeir í Evropa ecke utann eitt, enn allt annad Fólk sie blindt.

Nær eirn almúgamadur vill tala vid eirn Loyti, þad er Doctor, edur hálærdann, þá stendur hann framme fyrer honum á Knjánum, og ber sitt Mál fram, med nidurslegnum Avgum, enn þegar hann hefur andsvar fenged, gengur hann aptur á bak burtu, so lángann Veg, sem Loyti kann ad siá efter honum.

Chinesisker bióda Gestunum sína Hond.

Japonisker fletta ofann Sockunum, og giora hægra Fóteñ berann, þegar þeir segia einhvern velkomenn. Chinesisker taka ámote sínum Gestum standande, Japonisker sitiande.

Þegar eirn Japoniskur gengur út úr húsinu, leggur hann Yferhofnina af sier, enn adrer, þegar þeir gánga út, taka hana uppá sig.

Chinesisker ástunda vel, ad hafa hvítar Tennur, Japonisker giora þær svartar, þesser sorga í hvítum Klædum, enn til Glede og Vellystar gánga þeir svartklædder, þegar Chinesisker hafa snædt, drecka þeir alltíd efter heitt Vatn.

Hver sem segde: þetta Land vera hid ríkasta, í ollum Heime, hann talade ei ósatt, því þar er yferfliótanlegt af ollu, af Gulle, Silfre, Perlum, Porceline, kostulega tilbúnum Skinn-

fotum, Hor, Ullu, Bómull, Sikre, Hunánge, Rabarbar, Camphoru, Dese, raudum Farva, og einkanlegast af Silke.

Inntekter þessa Kóngs, hlaupa sig til 26. Milliona, hvöria Summu sá ágiarne Keysare Wespasianus, gat alldrei saman-dreged.

I Strídsútgiørdum kunna Chinesisker færa á Fót ótolulegan fiølda Fólks, hvad þeir meir giøra til ad hallda og forsvara sitt eiged Land, helldur enn ad ásælast og vinna Framande; Þeir eru miøg varcidarsamer og adgiætner um sitt, þegar Dyrunum edur Portunum er læst á Kvølldenn hiá þeim; þá lætur Stadarherran þar, setia sitt Innsigle á Lásana, so avngvar dyr verde opnadar án hanns vitundar.

I Religions-Sokum, eru þeir aller Afgudadýrkarar, þeir tilbidia Sólena og Himinenn, segia síner Forfedur hafe vered heilagt Fólk.

Þeir hafa eitt Lîkneske, þad er ein **Jomfrw, sem hefur wngbarn a Armenum,** um þad segia þeir: þad sie **eins Koongsdootter, sem hafe i Meydoome siinum, an manns tilverknadar, eitt Barn fædt,** odavdleik Sálarinnar trúa þeir.

Þegar þeir bidia fyrer hinum framlidnu, tekur Prestnrenn eina Trumbu, og slær hana, einn annar hrínger med litlle Biollu, og tautar eitthvad ámedann.

Vid Háskólana og Academienn er stór Vidhøfn brúkud, men kalla ecke einasta Doctorana Loyti, helldur verda, þeir af Adlenum, eins titlader, hvar fyrer, þar eru tvennslags Loyti.

Fyrst þeir sem fyrer Verdugleik og atburde fá þennann Titel, og þar næst þeir sem skeinkia Kóngenum hann, hvad vel saman-

kem-

kemur vid þad, sem Latinsker segia: Ille verè nobilis, qvem virtus nobilitat. (Þad er, sem eg segde: **Edla madur eirn er sá, sem edla dygder reinest hiá.**) Því menn líta þar ei so miog efter Adalsætt og Rette, sem efter Skickanlegheitum og Mannkostum, hvarfyrer lærder Menn einasta, verda þar til Herra Virdínga setter.

Þeirra fyrste Alvalldsherra, segia þeir heited hafe Vitei, hafe vered 7. Chinesiskar álner á hæd, og yferum Herdarnar 6. Spanna breidur, frá einu Herdablad-inu til hins annars, og hiner adrer Limerner efter iofnude. Hann skal hafa vered sá fyrste, sem Gull, Silfur, og Perlur hafe bored á Klædnade sínum.

Sá sem ríkte 1673. hiet Bonogus, eirn forstandugur og vinsamlegur Herra, átte med sinne Egtafrú, eirn Elfserfíngia. &c. &c.

Og er so útsagt um̃ þad megtuga Kóngsríke í China.

---

# Um Koongsvelldid í þeim Japonisku Eyum.

Kóngsríked **Japona** hefur ad Austanverdu vid sig Eyar hinnar nýu **Spanien**, Nordannfram̃ þad stóra **Tartarie**, ad vestann **China**, og til Sudurs þad ógurlega Haf; því Ríke verdur sundurdeilt í 66. lítel Furstadæme, edur Herrastiórner. Hofudstadurenn er **Meaco**, næstur honum er **Oslacaja**, eirn ríkur Frí- og Hondlunar-Stadur; Hier inne búa Kaupmenn, sem vel hafa Efne uppá 30000. Dúcata; í **Coja** er Kóngana Greftrarplátz.

Landslaged edur Grunnden er full' af graslitlum Fiollum og

Klettaborgum, þar rigner hartnær allt́d, þeir þafa margslags Málm, sierdeilis Gull. M. Paulus Venetus seger: ad í sinne Tíd hafe þad Kónglega Pallaz med eintómis Gullplotum þaked vered, eins og hiá oß Kyrkiur med blÿe edur Eyre.

Cedrusvidur vex hier so hár og digur, ad af honum kunna ad fást Kyrkiustoplar, Skógar og Engiar eru full af Hestum og Navtum, so er og í Skógunum fullt af Svínum, Hiortum, Hierum, og Kúnisum, fiolde af Turtil- og Ríngil-Dúfum, Vagtelum, Akurhænum og Phasan-Hænsnum, eckert Smior búa þeir til, helldur brúka Fiskfÿse. J bland annara Fialla, er hier eitt sem gnæfer lángt uppí Skÿenn.

Jnnbyggiararner eru brogdótter og slæger, ad vera Fátækur, er eigenn mínkun hiá þeim, helldur ad lasta, smána, sveria falsklega og spila; Edalmennerner láta navdraka háred af Hofde sier, vid matarnavtn brúka þeir smáa Gapfela, enn ecke Fíngur einsamla, ádur enn þeir eta, taka þeir af sier Skóna, á matenn dreifa þeir moludu Gulle, á Fuglunum gylla þeir Fæturnar og Nefenn, sumer af þeim kyrkia, edur kiæfia sín smáborn, þegar þeir megna ecke ad ala þavg upp, þeirra Bokstafer eru ecke utann nockur Merke, sem þÿda heil Ord, eins og hiá Chinesiskum.

Japonisker eru ad yferlit dockbleiker, kunna vel ad erfida, þeirra Vopn eru Handbyssur, breider Kordar, Stickhnífar og Kilfur, gánga alltíd berhofdader, nema þegar þeir eru í sorgum, samann vid Vatn blanda þeir einslags Púlvere, og þad er þeirra Dryckur, þó drecka hiner ríku eirnenn Spanskt Vín, er kiærare til Fædu Villebrád, helldur enn Kiot af tomdum Dÿrum.

Þegar

Þegar eirn Edalmadur giorer nockurt Skelmisstÿcke, umkríngia þeir hanns Hús, og má hann þá drepa sig sialfur, giore hann þad ecke, briotast þeir inn, og drepa allt þad, sem í hans Húse er.

Þeirra Ríkdómur er innefalenn í Rís, Perlum og Edalsteinum.

Þeir mótsegia og neita Gudlegre Fyrersión, og ódaudleik Sálnanna, tilbidia Sólena, Stiørnurnar og Himinenn, nú á døgum finnast þar eirnen marger Christner. Nú efterfilger

# Um Koogs-Riike þeirra Bramina, til Pegu í Avst-Indien.

Kóngsríked **Pegu** er í Líking sem hálft Túngl, og liggur á millum Fialla.

**Sian** er eirn stór og Fólkríkur Stadur.

Í **Odia** verda talenn 400000. Hús, Staðurenn liggur í Vatne eins og Venedig; Hiá **Qvedoa** vex mikel nægd af Pipar.

Jordenn í **Pegu** er yfermáta frióssom, einkum af Korne og Rís.

Fílar, sem þar verda fángader, eru vander til Stríds, Papagóar fliúga þar hópum samann, Des-Kette fá menn þar líka; Reir vex þar so digur, sem Smávídertre, Rúbinar finnast í Jordunne, so grafa þeir og úr Jordu, Gull, Silfur og Tin, þar fæst nægd af Dese og Fílabeinum.

Í Skóaunum eru Ulfar, Lión og Tygrisdýr.

Hiá **Camboja** finna menn morg Alóes-tre, eru hiá Avsturálfunnar forke Silrurvæg.

Innbyggiararner hafa medalmanns vøxt, og eru Líkamasterker, enn avngver góder Strídsmenn, þeir gánga alnakter, nema

Nn 3 hylia

hylia Bligdanina, til ótugtar eru þeir yfermáta hneigder.

Maraer bera eina Silfurbiollu, sem hánger vid þeirra Leindsarþíng, so ad heyrest hvar þeir gánga.

Þegar gifter menn deya í **Camboja**, og þeir eru breñder, hlaupa Konurnar í Elldkostenn, og láta brenna sig med, eins líka med Kongenum, nockrer Edalmenn giora þad giarnann.

Þeir af **Tarnasseri** brúka kott- og Stutt-Sverd, þeirra Skilder eru af Vidarverke; Þeir eta allslags Dýr, nema Kýr, sia á Jordu, þá þeir matast, og hafa aungva Bordúka; Þeirra Dryckur er Sikurvatn, þeirra Rúmfot og Klæde eru af Bomull, í Akuryrkiu mismuna þeir ecke storum frá oß í Evropa.

Þegar ein Jómfrú giftest manne, þá sefur hann ecke hiá heñe fyrstu Nóttena, helldur má einn Spekínganna taka þad ómak af honum, enn þegar einn madur hitter Konu sína í Hórdóme, þá hefur hann Valld til ad drepa hana.

Nær einn Prestanna deir, þá er hanns Líkame brendur, Diofslenum til Fórnar, Oskuna grafa þeir í einum Potte, medann Báled er ad loga; kasta þeir Alóe, Myrru, Coraller og Jurtum þarí, og á medann gengur Lúdrablástur, og Trumbuslattur, þar koma ad 20. eda 30. í Dioflamindum búner, hoppa og Dansa lystugt, í kríngum Brennubudlúngenn, enn Kona hins dána klagar sárlega, og þetta allt skedur um midiar Nætur.

A 15. dege efter Líkforina, kallar Eckiann samann Ettíngia Mannsins til Erfismáltídar, í þeim stad, hvar Madurenn var brendur, og þeir eru í kostulegasta og skrautlegasta máta búner, þar verdur giord ein Grof, líka, sem tómur Pittur, hún er fyllt

fyllt med lugtargódann vid, og med Blómstrum yferdreifd, og sídann ofannyfer breiddur Silkedúkur, so menn skule ecke siá Grofena.

Efter Veitslu-Máltídina, standa nockrer Savngvarar í kríngum Grofina, og spila á Hliódfære, so kemur sú vesæla Konukind til Grafarinnar dansande, felur sig á hendur Diofla-Prestaña Fyrerbænum, kastar sier ofanná Silkedúkenn og steipest í Báled, heñar Skilldmenne bera þar ofanná þurrann vid, Brennestein og Bik, so því fliótara verde útgiort uñ hana; Hvor sú Kona sem afseger ad giora sínum Manne þessa Þienustu, hún er alla sína Lífstíd Vvrulavs halldenn, þó skedur þetta alleinasta medal hinna fornemstu.

Þeirra Ríkdómur er innefalenn í Ríse, Hestum, Fílabeinsum, Gulle, Silfre, Dese, Gimsteinum, Oliu, Pipar, og odru þess háttar.

Kóngsins Lífvagt bestendur af 30000. manns, og 6000. Fílum.

Jafnvel þótt nú þetta Fólk sie nidursocked í diúpustu Afgudsadyrkun, þá trúa þeir þó, **ad Gud hafe skapad Himin og Jord, og ad hann straffe þa Vondu, enn umbune þeim Froomu.**

Þeirra Prestar gánga í gulum Klædum, segia þad sie Sólarinnar litur.

Verde einum Preste yferbevísad, hann hafe Vín drucked, þá er hann gríttur í hel.

Afgude hiá þeim verdur avngre Tolu edur Mæler ákomed; þeir tilbidia Elementenn, þeir, sem trúa á Jordina, eru grafner; þeir, sem Elldinum þióna, eru brender; þeim, sem Vatned dyrka, er sockt í Vatn; þeir, sem veita Loftenu Virdíng, eru heingder uppí Eikur, þar til Líkamenn, uppþornar og skorpnar.

Þeir segia, eirn Þiófur meige í ødrum Heime þióna þeim, sem hann hefur stoled frá

Þeir deida eckert, sem lif hefur, og áminna Fólked án afláts, ad vakta sig þarfyrer. Og er so útsagt um þetta Kóngsrike.

---

# Um Koongs-Riike þeß Stoora Mogols í Avst-Indien.

Þetta Einvalldsdœme innebindur í sier mikenn Hluta hinns gamla **Indialands.**

Hin fornemstu Kóngsrike þar, eru: **Cambaja, Delli, Sanca, Mandro** og **Bengala;** Hoffólks Adseired er Staduren **Delli.**

**Cambaja** er ávaxtarsøm af Rise, Vaxe, Sikre, Reikelse, Vidarávoxtum og Jurtum, af Silke og Bómull, er þar ein þvílik nægd, ad í eitt Skipte verda þar af fullhladenn 40. til 50. Skip, fiølde Hesta, og miøg stórer Filar eru þar, item Nasahyrníngar, sem eru tvøfalldt so stórer, sem Uxar hiá oß.

Þeir hafa eitt Horn á Nøsunum, eru um allann Kroppsenn þakter med hardre Skel, so sem med eirne Hardneskiu.

A Fiøllunum finna menn Onix, Diamanta, Caliedona, og adra fleire Gimsteina.

**Bengala** gefur af sier Ris, Sikur, Engefer, Pipar, og er hier mena af Bómull og Silke, helldur enn í nockrum Stad ødrum; Reir vex hier so stór, ad þeir giora lítel Lagarílát úr honum, iá, hann verdur so digur ad menn geta ecke fedmt yfer um hann.

I Ríkenu **Dellí**, finnast ad auk áðurtaldra Hluta, fleyde Hesta, Fílar, Ulfalldar og Dromedariar, hvorier ad eru sem Hálf-Ulfaldar.

Kóngur Þessa Lands Innbyggiara hrósar sier af Því, hañ sie komenn af Tamerlans Afkomendum.

Innbyggiararner prýda sín Bellte, Hiálma, Sodla og Reidtyge med beta Gulle, Þeir brúka Konur sínar í Augsýn Framande og Utlendra.

Adur fyrre, Þegar einhver hafde náð háum alldre hiá Þeim, komu hanns næstu Viner tilsamans, slátrudu honum, og under eins einum Saud, blöndudu Kiötenu samann, og átu Þad so sameigenlega, enn Þá, sem dóu úr Sóttinn, grófu Þeir; Sóñ var Þeirra Gud, henne offrudu Þeir einum Heste, hvörn Þeir reiknudu Dyra bestann vera.

I **Cambaja** gánga Innbyggiararner alsnakter, ad fráteknne Þeirra Blygdun, Þeir eta líted Kiöt, enn Þó meira af Ríse og Jurtum, láta Skegg og Hár vaxa sem vill, og flietta Þad í locka, Þeir eru mikler Galldra-Snápar, A morgnana koma Þeir, á Hestum og Fílum, med Trumbur og Pípur, til ad veita Kónginum Virdíng.

I **Bengala** hafa Þeir hvítar Skyrtur, sem ná á Kne, og gánga ecke nakrer eins og hiner adrer; A Höfdinu hafa Þeir eitt Túrban, og eirn Silkekyrtel fyrer Yferhöfn.

Þeirra Ríkdómur er innefaleñ í Sikre, Bómull, Jurtum og Gimsteinum.

Menn hallda ad Þesse Monarcha, ef naud vid liggur, kuñe ad útbúa 300000. manns til Hests, og Þar til 140000. Fíla.

I Religion áhánga þeir nockurn Part hiinne Mahometisku Trú.

# Um þad vidfræga Koongs-Riike Calecuth i Avst-Indien.

Þetta Kóngs-Ríke liggur lángs efter med Siáfarstrøndinne, yfer 25. Mylur, og á breidd er þad ecke utann 10. Mílur.

Þeirra Hofudstadur heiter **Calecuth**, hann er þriár Mílur um̃máls, Húsenn eru Vegna Sandgrundar, ecke há byggd, so ad Almúgans eru ecke hærre enn rídande madur á Heste.

Piparstavngenn, edur Línged, er eirn veikur ávoxtur, sem ecke getur af siálfum sier rettur uppstaded, helldur hlióta menn ad binda Spelkur vid hann, eins og eirn Vynstock.

Þesse Smávidur er líkur Persillu, slær sier út ofann og krækest samann hvor vid annann, hefur margar Greiner 2. edur 3. Spanna lángar, Blødenn eru lík, sem á Granata-Eplum, þad einasta, ad þavg eru nockud þickre, á hvørre Grein hánga stundum 6. Piparþrúgur, eins Fets lángar, ad lit sem Vinber, þá þær taka ad verda fullvaxnar.

Þessum Berium verdur safnad í Octobri og Novembri Mánude, á medann þavg eru enn nú græn, dreifa menn þeim á eirn Dúk, á móte Sólu, so fá þavg á 3. døgum svartann lit, sem Einerber.

Þetta Land gefur líka af sier miked Engefer, þesse Rót liggur stundum, 3. Fóta diúpt í Jordunne, sem Reirrætur, nær þær verda úr henne uppteknar, láta menn eina af somu leingd liggia

flata

flata á Jordunne, hvar af menn fá áred ígegnum jafnaìtn eins margar aftur; Enn þar er mismunur á Engefere, efter þeim stodum, sem þad vex í; frá þeim fásienu og ókiendu Vidarávextúm, og þeirra Indianisku Nøfnum, verdur ecke vel sagt, edur um þá skrifad, sumer eru líker Blómstrum, sumer Fíkium, og nockrer Melonum; einu Gummi safna þeir, sem kallast Alóe.

Þeirra Dýr eru: Lión, Villegellter, Hyrter, Rádýr, Ulfar, Uxar, Búffelar, Hestar og Fílar, Papagójar af allslags lit, og so mikel mergd af þeim, ad menn verda ad fæla þá burt af Ökrunum hvar Rísed vex. Þar er ævarande Vor, því Jordenn er allríd Blómstrum þakenn, og Eikurnar standa grænar og blómgadar án aflátis, vegna þeß góda Lopts og veduráttu.

Skógarner eru fuller af Apinium og Markottum, af hvorium, Bændurner eru miog plágader, því þegar þeir eru ad safna sier Saftenne úr nockrum Triám, sem þeir drecka, í stadenn fyrer Vín, þá koma Aparner og billta um koll Kierum Bændanna, so Logurenn fer nidur; Þesse Tre bera í fyrstu kostulegar Dattelur, velsmackande Nytur, Kvisse til Elldevidar, og sídann þar næst eina Tegund, sem Silkeþrad, hvar af menn vefa Dwka.

Eitt annad Tre gefur af sier Bómull, og eina Líntegund, sem úr þeß Blodum er, miked gód, tilbúenn; í Skelenne sem er utann um þeß ávöxt, liggur huled eitt Korn, sem Nyt, ad digurd, sem lítell kingur, miog gott átu; Þegar þesser ávexter vaxa, fyllast þeir med Vatn, hvoriu á tækum tíma samansafnad verdur, þad er so hreint og klárt, sem Rósenvatn; Morgna og Kvølld, rista menn Skurde í Børkenn á þessu Tre, þar flýtur út Logur, hvor ad er sem gott Vín.

Hoggormar í þessu Plátze, eru sumer so digrer sem eirn Gris, þeir hafa stór og ofkepuleg Hofud, nockrer hafa líka Fætur, og hallda sig í Forodum.

Menn segia, ad Kóngurenn í **Calecuth**, sofe ecke hiá sinne Brúde, nema Hofudpresturenn hafe fyrst afmeyad hana, (ef hún er enn þá Jómfrú,) fyrer hvort Erfide, Kóngurenn gefur honum miked Giallð, hier um 500. Crona Virde; Þegar Kóngurenn tekur sier Fædu, edur helldur Middagsverd, situr hann á Jordunne, og Prestarner standa þar í kríngum hann, so eingenn skule koma ofnærre honum, því Prests-Stiettenn er þad ædsta Stand næst Kónginum; Sídann þeir af Adlenum, sem kallast Nayr, þesser meiga openberlega bera Sverd og Spiót; Þridia Stett edur Stand, er Handverksfólked, 4. Fiskararner, 5. Jurtagardsmennerner, og hid sídasta, Akuryrkiarar.

Í Klædnade brúkar Kóngurenn, so og líka Drottníngenn, aungva Pragt; Þeir í Stodunum gánga nakter, med hulda Blygdan; Nær Kongurenn reiser eitthvad burt, þá er Drottníngenn falen á hendur Prestunum; Góder viner skiptast opt um Konurnar sín á mille, og má sá, sem halldenn er, ad vera Fader, ala upp Barned; Stundum hafa 6. edur 7. af þeim, eina Kónu sameiginlega, og hiálpa sier þar vid aller, eignest hún Kracka, þá skeinker hún hann þeim, sem henne er best gedfallenn, og þorer hann ecke ad slá hendinne á móte þessarre Vinagiof

Þegar þeir fá sier Mat, sitia þeir á Jordu og brúka í stadenn fyrer Spæne, Blod af vissum Triám.

Sitt Hár, raka þeir ecke af, fyrr helldur enn Kóngurenn deyr.

Kon=

Konurnar giora ecke annad enn ad skrída sig og Prída, og þetta er þeim, eins og odrum medfædt, því þótt þær sieu mestañ part naktar, þá heingia þær þó í Eyrunn, um Hálsenn, Handlegge, Fætur og Kne, bæde Gull og Gimsteina.

Calecuthar skrifa med Járnstíl á Vidarblod. Þeirra meste Ríkdómur er fólgenn í Pipar, Engefere, Balsame, Negulnoglum, Muskatsnytum, Dese, Alóe, Nardus, Camphoru, Casia, og odrum Specerium.

Þegar Muskatenn eru enn nú græn, og þó fullvaxenn, er þeim kastad í Kalk, í því meiga þavg þorna og harðna, þarfyrer sieft oft hvítt í skorunum á þeim.

Þegar Kóngurenn deyr, koma ecke hans Born til Stiórnarennar efter hann, helldur hanns Systurborn, ersokenn er su, af því Presturenn sefur fyrst hiá Dróttnfngunne, þar ad auke af því, ad í Kóngsins Fráveru er Dróttnfngenn á hendur falenn Prestunum, so þeir eru hennar Vagtarar, eins og Hafurenn Geitanna.

Þetta Fólk segest trúa á eirn Gud, sem Himin og Jord skapad hafe, enn uppdigta þar á móte, ad hann gánge nú ydiuslaus, og hafe Dioflenum efterláted Stiórnena, so hann, sem eirn Bodull, skule straffa þá vondu.

Kóngurenn hefur sína eigenn Capellu, sem innan til er málud full med Dioflamlnder, í henne midre stendur eirn Thrón, á honum situr Dioflullenn med þrefallda Córonu á Hofde, undann henne nedann, gánga fram þriú long Horn, og 4. lítel fram úr Enninu, Hvoffturenn stendur openn, í honum hefur hann 4 lángar Galltartennur, Nasernar eru sem eitt Arnarnef, útliteð

er gresselegt, og Avgun tindra, hann hefur Hanafætur, og þar á lángar Klær, sticke af einu Smábarne hánger út úr Hvoptinum, í hægre Hendinne hefur hann eitt annad Barn, sem hañ ætlar þá ad jeta, og þesse Born segia þeir sieu Manna Sáler. Þetta Diofuls Bílæte þvo Preśarner hvern Dag med vellucktande Vatne, og kríupa nidur fyrer þvi. Þegar Kóngurenn hefur fenged sier Mat, þá er Leifnunum kastad fyrer Fugla; Þeir þora allt ad eta, nema Kiot, þad má ei ske, nema med leife Prestanna.

---

# Um Koongs-Riiked Bisinagar, edur Narsinga í Aust-Indien.

Þetta Kóngsrike er á leingd 200. Mílur, þeir fornemstu Stader þar eru: **Narsinga** og **Bisinagar.**

Grundenn gefur miked Hveite, Engefer, Sikur, Silke, Ull og Bómull, Rís, Fíkiur og Nytur.

Innbyggiararner hafa aungvar vissar Máltídar Stunder, helldur þegar þá húngrar, nockrar Kvinnur hallda þeir til Húserviðesins, nockrar til ad fóstra og hirda um Born, og sumar til Lystesemdar og Gamanspils, Kónginum er ecke þiónad af Edalbornum Sveinum, helldur Kammerþernum. Þegar Kóngurenn, fyrr á tídum, drack sig fullann, þá mátte ein af Kammerþernunum drepa hann, og voru þad hennar Laun, ad hinn nýe Kóngur tók hana sier til Konu.

Þegar einn vard fundenn ad þvi, ad liúga, þá mátte hann þeigia eitt heilt ár; Þeir stódu berfætter heilann Dag í heitum Sande, **til ad æfa sig í Þolinmædinne.**

Sum-

Sumer báru Klæde af Línvefnade, sem ecke var þveginn í Vatne, helldur kastad, ad ósekiu í Elld, og hreinsadur þar med.

Þetta Fólk ávítade Alexander hinn mikla fyrer þad, hañ være ecke ánægdur, med síns Fodurs Ríke, helldur hefde uppvægt alla Austurálfuna.

Innbyggiararner nú á dogum eta líted Braud, helldur Rís, Kiot, Fisk og Eple.

Kóngsins Inntekter árlega koma uppá 12. Milliones Gulls.

Menn skrifa ad í **Cambaja** sie eitt Hospital fyrer veika Fugla, því þeir drepa þá þar ecke útaf. Þeirra Konur láta grafa sig, med sínum daudu Monnum. Þeir hafa þá Trú ad Sál Mannsins fare í onnur Dýr, hvarfyrer þeir veita Heidur Hestum og Nautum.

Þeir medkenna ad sonnu, ad þar sie eirn einaste Gud, enn dýrka þó Diofulenn.

---

## Um Koongs-Riike Petre-Jans í Morlande, sem kallast Abyssinaland.

Þetta Kóngsríke nær, ad Nordannverdu til **Nubiam**, Austannframñ ad Hafenu Raudda, Sunnann til ad Fiollunum, sem kollud eru Montes Lunæ, (edur **Mana Fioll**,) Vestañframñ ad Fliótenu, sem kallast **Niger**, (edur **Svartaa**,) þad Kónglega Asetur er Stadurenn **Heimalech**.

Landed er frióssamt og gródur gefed, ber Hirse, Ertur, Baúner, þó lángtum odruvíse og annarsslags, helldur enn hiá oß; þar er ótrúanlega miked af Eplum, Pomerantz, Citronum og Limonum, og yferfliótanlegt af Hunánge.

Siñ

Sinn Klædnad tilbúa **Morar** (edur Bláléndsker) úr Bómull, af Dýrum hafa þeir, Uxa, Saude, Hesta, Svín, og önnur þvílík; Þeirra Hestar eru smáer, hvarfyrer þeir brúka Arabiska og Egyptska Hesta til reidar, Gull, Silfur, og Járn hafa þeir nóg, ef þeir einasta hefdu vit á ad afla þeß.

Þeirra Kóngur er hverge ad Stadalldre, helldur reyser frá og til, stundum híngad, stundum þángad, 3. Þyskar Mílur á dege, hefur allríd vid Hondina, hiá sier 600. sem honum þióna, og uppá hann passa, öll Kier hefur hann af Silfre og Gulle; Hann er ecke svartur, eins og hiner adrer Morar [edur Blámenn] helldur med blendíngslit, hefur bláa Silkeslædu fyrer Andlitinu; Þegar hann er einum nádugur, tekur hañ Grímuna burtu, og horfer so á hann.

Þeir hafa á áre hveriu 2. Vetur og 2. Sumur; Þeirra Hús eru lágrar Byggíngar, Dyrnar hiá þeim standa alltíd opnar, þeir fá sier Mat á Jordunne, því þar finst eckert Bord í Húsunum, þeir eta hrátt Kiöt, Sallt og Pipar er þeirra Kridderi, þad Evropæiska Fólk kalla þeir Francka, Sallt láta þeir vera Gullvægt og vega þad. Þeirra Ríkdómur bestendur í Gulle, Silfre, Kopar og Járne, eirnenn nægd af Silke og Bómull.

Þegar Kóngurenn hleipte af Anne **Nil**, (hvad í hanns Vallde stendur, enn hann tekur í þeß stad árlega Skatt,) þá máttu Egyptsker deya af Húngre.

Flester Innbyggiarar þessa Lands játa sig under Christelega Trú, hiner adrer eru Mahometistar, þeir hallda enn nú vid Umskurnina, so þeir líka eirnenn umskiera Stúlkubornenn, (eg veit

veit ecke, hvar; Nær þeir gánga í Kyrkiu, taka þeir ádur af sier Skóna, og ecke hrækia þeir frá sier edur spýta í Kyrkiunne; Ríde eirn fram hiá Kyrkiu, stígur hann af Hestsbake so leinge, þar til hann er fram hiá henne komenn, þeir hafa Kluckur af Steine og Járne; Nær þeirra Prestar giftast afhur í annad sinn, þá meiga þeir ei leingur Geistleger vera, eins og hiá Moskovítum.

## Um Koongs-Riiked Monomotapa.

Þetta Kóngsríke er umhverfis 750. Franskar Mílúr. **Benomotapa** er Hofudstadurenn, þar hefur Kóngurenn Adsetur, næstur honum er **Symbas.**

Vatnsfoll þessa Rikis hafa oll Gull í sínum Sande, þar er yferfliótanlegt af Kornávoxtum, og Dýrum, sierdeilis Fílum.

Innbyggiararner eru medalmenn ad voxte, Kóngurenn ber aldrei utlendskann Vefnad á sier, fyrer hrædslusaker, þad í honum kunne ad vera einhvor Forgift, hvor sem honum vill þiena, hann má giora þad knekriúpande; Fyrer Lífvagt hefur hann, so sem frá er sagt, 200. Hunda.

Þeir tilbidia eckert Blæte, helldur dýrka alleinasta **þann eina sanna Gud,** hvern þeir kalla Mozimon.

## Um Koongs-Riiked Congo i Africa.

Þessu Kóngsríke verdur skipt í 6. Umdæme, hvorra Nofn ad eru: **Bamba, Songo, Sunda, Pango, Batta** og **Pemba.**

Í þessu Kóngsríke er (ef menn mættu segia, móte Náttúrunne,) Veturenn heitare helldur enn Sumared, og rigner á Veturnar hart nær daglega, Nótten er þar líka mestann part jafn vid

Dagenn. Nær vier hofum Vor, er hiá þeim Vetur, hver ed byriast í Martio, og endast í Septembri, í þeirra fornemstu Vatns-follum, láta sig siá Crocodilar og Vatnshestar, (Nikrar.)

I Umdæminu Pemba er fiolde af Filum, þeir kunna ad lifa 150. ár, þeirra Stærd má ráda af Tonnunum, af hveriun ein kann á stundum vega 200. Pund, þeirra Eyru eru 6. Feta breid.

Hier gefast líka Páfuglar, Fasanhænsne, Arner, Fálkar, Gammar, og Pellicanar, Hyttena kalla þeir Mazza de Congo, og Hveited Maiz, þeir hafa Pomerantz, Granata og Citrónur yfeifliótanlega, Fíkiurnar kalla þeir Vannanes, menn finna hier Mármara og Jaspis, Porphyr- og Hyacinth-Steina.

Ensanda er eitt Tre, so kallad, þad herur utann um Borken miúka Ull, úr hvorre Garn er spunned, og Dúkar efner.

Innbyggiararner eru eins og Moorar (Blámenn) svarter, á medalmanns vexte, so sem Portugisar, í Stadenn fyrer Giallð, edur Penínga, brúka þeir Sníglahús (eda Hýde) þegar þeir drecka, steipa þeir fyrst nockrum dropum nidur á Jord, nær þeir mæta einum fremre manne á Gotunum, heilsa þeir honum med Kniefalle, og klappa á Hondina, þar til hann seger: Fujo, Fujo, þad er: Hafdu Þöck; I Stadenn fyrer Húfu edur Hött, brúka Indianisker Nytaskáler, nær þeir gánga til þarfinda sinna, (med leife og tugt ad segia,) giora þeir þad ei á flata Jord, hvad þeir reikna fyrer Synd, helldur giora þeir ádur eina holu í Jordina, og birgia hana sídann aftur.

Þeirra Ríkdómur er fólgenn í Málme, Filum, Dese, Skelfiske og Chrystall.

Jafnvel þótt nockrer í þessu Kóngsríke hafe Christna Trú teked, þá gengur þar þó Afgudadýrkun enn nú miked yfer.

Um

# Um Koongs-Riiked Maroco og Fezza i Africa.

Maroco innebindur í sier 7. Hierod edur Umdæme, so og líka Fezza, Monarchenn er kalladur Xeriff.

Stadurenn Fezza, sem hefur Sunnann vid sig Fialled Atlas, er herlegur og prídelegur, af brendum Tigulsteinum bygdur, hann hefur 7000. Kyrkiur; þad fornemsta Mustere heiter Carruvenus, eitt ótrúanleg Bygging, þad er allt umm kríng 1500. Skref, og hefur 31. Dyr, edur Port. Allar Nætur loga í þessu Mustere 900. Lampar.

Verts-Hús (edur Gestaherberge) í Stadnum Fezza eru Fúrstaleg Slot.

Þetta Land er fríóssamt, gefur allslags Tegunder, líka Gull og Silfur, Járn og Kopar.

Fialled Atlas er alltíd med þickvum Skyum huled.

Innbyggiarar þessa Rîkis, mismuna ecke stórum frá þeim Arabisku, þeir eru hiner ágiornustu under Sólunne, Lietferduger, Ostadfaster og Slæger, og so eru þeir í Barbarienu; Annars búa hier líka Arabisker, sem er riett fínt Fólk, og ydsnismenn góder.

Þá þeir giftast, passar uppá þavg úngu Hión, ein gomul Kerlíngar-Tavs, sem stendur fyrstu Nóttina vid Kamersdyrnar, og dagenn epter færer Módur Brúdarinnar, hennar Dóttur Meydómsteikn, og fær heil miked þar fyrer, þá þeir eta, brúka þeir hverke Spón nie Hnîf, helldur sína tíu Fíngur; Þegar fyrst verdur vart vid Tennur hiá þeirra Bornum, hallda þeir Gestabod.

Ríkdómur þessa Lands er innefalenn, í Pomerants, Citronum, Sikre, Olívum, Bomull, Schamelote, og Corduans Ledre.

I Trúarbrogdúnum er allt þetta Fólk Mahometiskt. Er so útsagt um Asiam og Africam.

## Um þá Johannita, edur Malteser Riddara, og um Eyuna Malta.

Anno Christi 1012. byggdu Kaupmenn úr Stadnum Malphi, sem liggur í Kóngsríkinu Neapolis í Italia, med Samþicke þeß Egyptska Califs, hiá þeirre heilogu Grof, eitt Bænahús, og kolludu þad Ste. Johannis, hvar af, Hospitalsbrædurner þar, efter þad, voru kallader Johannitar.

Þegar nú, Anno Christi 1099. Hertogenn Gottfred af Bullion, inntók Jerusalems Stad, voru Johannita-brædur, hvorium til þeß tíma hafde Stirkur mieg aukest, Hertoganum til þeß hiálpleger, hvar fyrer þesse Gottfred skeinkte þeim mikeñ Ríkdóm og Góß.

Þá þeir hofdu nú vered í Syria hart nær 30. ár, tóku þeir til ad verda megtuger, og gáfu sig til ad byria Hernad, inntóku Anno Christi 1308. Eyuna Rodis, enn sá Tyrkneske Keysare Solymann vann hana af þeim aftur, Anno 1522.

Anno Christi 1529. gaf Keysarenn Carl V. þeim Eyuna Malta, til fullkomlegrar Eignar, med þeim Skilmála; ad þeir skylldu vidurkenna og þeckia Kóngenn í Spanien, fyrer sinn Verndarherra. Af þessarre Ey Malta verda þeir nú á Dogum kallader Malteser-Riddarar.

Tyrkenn og Mórar, eru þeirra Fiandmenn, vid hvoria þeir eiga í hogge allstadar, og alltíd.

Þeirra Groß-Meistare, Johann de Valetta, byggde, til Varnar mót Tyrkium, þann herlega Stad Valetta, sem Nafn tók af honum. Þeir senda med einum Riddara Kónginum af Spanien, so sem sínum Schüß- edur Verndar-Herra, árlega

nockra vanda Fálka hvar fyrer Riddarenn fær hiá Kónginum í Spanien, ásamt kostulegum Tracteríngum, ecke allíteun Skeink til Lavna.

Þeir hafa í sínu Vopene, eirn Atthyrndan hvítann Kroß, lika efter S. Augustini Lærdóme og Reglu.

Eyann **Malta**, sem í Postulanna Giorníngabókar 28. Capitula, kallast **Melite**, af Africaniskum **Maltaa**, og af Sikileyíngum **Mauta**, er ein Ey Midiardar=Hafsins, millum Evropam og Africam, liggiande fram̄ undann **Siciley**. Hún er á leingd 5. á breidd 3. og um̄hverfis 25. Þýskar Mílur.

Til Nordurs frá henne er Forberged Passarane í **Siciley**, Sunnann fram̄ eru Africanisker, Saracenar og þad Barbariska Fólk, ad Vestanverdu Eyarnar **Lampadusæ**, til Austurs Midiardar Sióren̄.

Eyenn er miøg Fólkrík, og þad so, ad þeir jafnlega geta tilláted 6000. manns til Landorustu.

Grunden er sumpart med Hálsum og Fiøllum vaxenn, þó ávaxtarsom, sín Akurlønd um̄gyrder hvor eirn útaf fyrer sig, med einum Múr, manns hædar háum, úr Klettaskorum og Urdum vaxa og koma fram̄ undarleg grøs, því þaug eru í Avgna, Túngu, Tanna og þeßslags, Líkíngu.

Af Triám edur Villudýrum, siá menn eckert á þessare Ey; af Veide=fálkum er í heila Christendómnum hverge meire hópur en̄ hier, Vindurenn blæs hier nockud kallt á stundum, á dagen̄ er þar eirn obolanlegur hite, og á Sumrenn rigner þar alldrei, helldur vokvar ein kostuleg Náttdøgg Jordina, á Næturnar.

J þessarre Ey giørde Postulenn Páll mørg addáanleg Furduverk.

J einum Stad, hvar þad Skip, á hvoriu Gydíngar úr **Cæsarea**, villdu flytia Ste. Pál til Róm, Anno Christi 52. þeim áforvarandis, steitte og forgeck, enn Ste. Páll med sínum Føru=

navtum komst á Land, stendur enn í Dag ein lítil Capella, kölluð: CALA DI SAN' PAULO; í hvorre á þremur Toblum má lesa um̃ þetta Skipbrot, með efterfilgiande Ordum:

*Quâ vehitur Paulus ingenti tempestate jactata navis alleviatur, in quod littus Melitense vi ventorum prorsus solvenda dimittitur. Vipera ignis acta calore frustrà Pauli manum invadit. Is Insulæ benedicens, anguibus, viperis, & cæteris venenosis animalibus adimit omne virus.*

*Omnes quotquot in Insula variis tenebantur langvoribus, ad Paulum adducti pristinæ sanitati redduntur.*

Það er þeirrar Meiníngar:

Skip það, á hvøriu hinn heilage Páll ferdadest, vard af geyselegum Stormvinde yferfalled, og vid Strøndina í Malta sundurbroted.

Ein Nadra, hrakenn af Elldhitanum, setteſt á Hønd Pále, enn ad óſekiu og ſkadlauſt; Þar fyrer bleſſade Páll Eyuna, og tók allann eitradann Krapt úr Høggormum þar, Nødrum og þeßkonar, og aller Siúker og Kránker voru færder til hanns, og hann giørde þá Heilbrigda.

Nú á Døgum leika Smábornenn sier þar, vid Nodrur og Hoggorma ad Skadlausu.

Landfólked er eirn ſlægur og vondur lídur, og hlióta af Riddurunum í gódum Aga og Tugt ad halldast; Þeir tala Africaniſkt Túngumál, og eru giarnann hvítklædder efter Barbariſkum Plagſid.

Á þeſſare Ey, ſtód það nafnfræga Muſtere Herculis, ſømuleidis Junonis, úr hvøriu Admiralenn hins Africaniſka Kóngs, rænte Fílabeinum og Tonnum, færde heim med ſier og ſkeinkte Kónge ſínum. Enn þegar Kóngurenn feck ad vita, þád være rænt Kyrkiugóß, ſende hann það med ſinne eigenn Galeid, þángad aftur, og liet, á Arabiſka Túngu, ſkrifa þeſſe ord þar hiá í Muſterinu:

Rex

*Rex Masinissa imprudens accepit: Re cognitâ, reponendos restituendosqve curavit.*

Pad er:

Kóngurenn medtók tilfærdann Skeink óvitande, enn þegar hann kómst ad raun umm Sakarinnar Asigkomulag, bar hann ummsorgun fyrer, ad same Skeinkur skyllde aftur flytiast til þeß Stadar hvar hann heima átte.

Gud giæfe ad þesse velhliodande ord, væru eirnenn á þessum døgum, af oß, sem Christner vilium vera, vel í agt og yfervegun tekenn.

Fimm mílur frá þessare Ey **Malta**, liggur Eyann **Gozo**, á Þysku **Gosen**, Jardlaged er þar enn þá betra, helldur enn á Eyunne **Malta**. Sú Ey er ummhverfis 30. mílur, og liggur under Riddarana í **Malta**.

Innbyggiararner tala Saracenisku, og eru aller Christelegrar Trúar.

Hofudstadurenn í **Malta**, verdur, so sem ádur er áviked, kalladur Valetta; var bygdur Anno Christi 1560. reglulegur og forkostulegur ad siá; Þar finnast yfermáta fridar Jómfrúr.

J Hofudkyrkiunne, sem kollud er, S. Johannis Baptistæ, er Alltared af hreina Silfre, þar er og ad siá eirn Dúk, á hvorn allra Riddaranna Bilæte, edur Eftermind er þrickt.

Hier sieſt og afmálud, Ste. Johannis Baptistæ **hægre Hond, med hvørre hann bendte til Herrans Christi.**

Þeir Herrar Riddararner, já Großmeistarenn siálfur, passa uppá, af Christelegum Kiærleika, hina Fátæku í Hospitalinu, og bera Matenn fyrer þá.

Þegar Groß=meistarenn gengur út, gánga undann honum 300. Riddarar, þeim filger á epter eirn einstakur Riddare, og ber undann Groß=meystaranum eirn lítenn svartan Staf med Gulle

búenn,

búenn, sídann kemur á efter, Groß=Kroß=Herrann, Geheime=Rádenn, Commanderenn, Offurstenn, og þvíliker fleire, med sitt Riddara-Ordu Merke, sem er eirn átthyrndur hvítur Kroß, á Brióstenu og á Kyrtlinum, sídann kemur Groß Meistarenn siálfur, í svartre Kápu, giordre af blómudu Damaske, og ad sídustu lykia Hópenn, þeir sem eru af Adlinum siálfer.

Þeir brúka í Malta Koparmynt, á hvorrar einu Sídu stendur Sancti Johannis Hofud, enn á hinne Sídunne þesse Ord: Non æs, sed fides.

## Þeir Atta, af adskilianlegre Þiood, þeirrar Riddaralegu Ordu S. Johannis fraa Jerusalem, hafa i þeirra Samkomum sitt reglulegt Sæte i Malta, so sem filger:

I. Af Þióðenne úr Provence, er Groß=Commanderenn Hofuded, rædur yfer Tha-Húsinu, hefur under sier 2. Prióra, af hvorium sá eine, hefur aftur 54. og hiñ añar 35. under sier.

II. Af þeirre Averniſku Þióð, er Groß=Marskalkenn Hofud, sem hefur Strídsvalld og Magt; Item eirn Priór, sem hefur 77. Commandera, ad stiórna yfer.

III. Af hinne Fronsku Þióð, er Groß-Hospitals-Halldarenn sá fornemste, hann hefur under sier 3. Prióra, af hvorium sá fyrste, hefur aftur, yfer 45. annar yfer 56. og hinn þridie yfer 24. ad ráda.

IV. Af hinne Volsku Túngu, er Groß=Admiralenn Hofud, hef=

ur

ur Galeidurnar og Skipenn til yferráda, og honum til= heyra 7. Priórar.

V. Af þeirre Arragonisku Túngu, er Groß Conservator For= ingenn, þesse passar Strídsknegtunum Klædnad, hefur under sier eirn Priór.

VI. Af hinne Engelsku Túngu, er Groß=Pilierenn Offurste, hefur ad stiórna Reidfólkinu, og under honum eru tveir Priórar.

VII. Af þeirre Þýsku Túngu, er Groß=Galeyenn ædstur, hañ má, hvert ár Persónulega, visitera Peturs=Brú, edur Briggiu í Asia, sem af einum Þýskum Riddara, ad Nafne Henrich Schlegelholtz, byggd var, út frá Eyunne Rodis, hann hefur 3. Prióra.

VIII. Af hinne Castiliensku Þiód, edur Túngu, er Groß Cantz= elerenn Yfer-Hofud, þesse hefur under Hondum Ord= unnar Signet, edur Innsigle, og 2. Prióra sier und= ergefna.

Þesse, Johannitanna= edur Malteser-Riddara Orda, er hin fornemsta af ollum í Heiminum, sem nú á dogum vera da taldar 17. og er hún í tvo Parta, edur Flocka, sundur= deild, sem eru:

Fyrst Ridararner, hvar under og skiliast aller þeir Edal- bornu, edur af Adlenum.

Hinn annar Flockurenn eru Kroß Prestarner, og þad Geist= liga

liga Standed, þesser meiga framflytia Gudsþiónustu, fyrer Riddurunum.

Er nú og líka útsagt um það, sem eg, í stuttu Mále, villde, af þvi mikla Forvirke frákynna, og láta, Almenníngi til nytsamlegs Fródleiks, í Liós leidast.

# Dyrd sie Gude alleina.



Appendix

# Appendix edur Vidbæter

um

## Biblíunnar Utlegging í onnur Twngumaal, Christnebod í Nordurælfunne, Setninga þeirra gomlu Pawa, og Prentverksins Uppruna. Utlogd úr Donsku á Islendsku, af Síra Gunnl. S. S.

Þad ár efter Veralldarinnar Skopun 3727. og fyrer Christi Fæding 274. voru gamla Testamentisins Bækur fyrst útlagdar í þad Gríska Túngumál, þá Ptolomæus Philadelphus var Kóngur í Egyptalande, sem epter Rádum Demetrii Phalerii, hvor ed var eirn Atheniskur Heimsspekingur, giorde sier stórt ómak, og sparade aungvann Kostnad, til þessa Verks Framkvæmdar. Hann, var eirn mikill Boka-Elskare, og liet samannsafna hinna bestu Authora Skrifum, sem fást kunnu, til þeß, ad þad Bibliotek, sem hanns Fader hafde byriad samann ad draga í Alexandria, kiæmest í fullkomed Stand. Þá hann nú frette, ad medal Gydinga findest stalldsienar Bækur Hebreskar, sem þeir hiellde so heilagar, ad eingenn Heidinge mætte Hond á leggia, edur snerta þær, þá, so honum yrde ecke neitad um eitt Exemplar af þessum Bókum, kom hann sier í Vinskap og Virdingu hiá Judum, med því móte, ad hann med sínum eigenn Peningum útleiste morg þúsund Gydinga, sem í hanns Lande hofdu til Þrældóms keipter vered, og gaf fyrer Frelse sierhvorrar Persónu 20. Qvintin, sem bleipur til 660. Talenta. Sídann bad hann skriflega, Eleasar, sem var Hofud-Prestur í Jerusalem, um eitt Exemplar af þeirre Hebresku Bibliu, og 6. lærda Menn af hvorre Ættqvísl, sem kynne ad útleggia hana á Gríska Túngu; Þesse hanns beidne vard heird, og honum sendt eitt Exemplar af Biblíunne, med 72. lærdum monnum, þad sama var skrifad med Gylltum Bókstofum,

er sagt þesser menn hafe á 72. dogum sett Biblinna á Grískt Túngumál, hvor útlegging enn nú þeckest, under þvi Nafne: **Bibliu Version þeirra 72. Utleggiara.** Þá hún var nú, Kónginum til stærsta Efterlætis útlogd, gaf hann hvorium einum þeirra, þrennann kostulegann Klædnad, 2. Talenta Gulls og 1. Gullbikar, sem vog 1. Talent, og liet flytia þá til sins Lands aftur. Nær menn nú yfervega þann Kostnad, sem hafdur var fyrer þessarre útlegging, má hún maklega kallast, hin merkelegasta af ollum. Þessa útlegging hafa ecke einasta Judar, helldur siálfer Postularner brúkad, á Christi dogum, og efter, sem lióslega siá má af þeim Bibliugreinum hins gamla Testamentis, sem innfærdar eru í þad nyja Testament.

Anno Christi, 175. útlagde Bibliuna, í þad Gríska Mál, eirn lærdur Madur, ad Nafne Symmachus, (sem fyrst var eirn Samaritan, og sídann Gydíngur,) ---- Ared 185. var hún í Keysarans Commodi Tíd, útlogd í sama Tungumál af Theodoto.

Anno 330. útlagde Juvencus. eirn af þeim elldstu í Spánien, Ste. Matthæi Evangelium, í Latínskt Vers; Hvort Skrif, prentad var í Basel, þá Prentverked fyrst byriadest.

Anno 376. efter þad, þeir Gotisku Bókstafer voru uppfundner af Ulphila, sem var eirn Legate frá Gotum, og bió á Eyunne Meotis, var Biblian útlogd í þad Gottiska Sprok.

Anno 861. er sagt sú Heilaga Skrift hafe útlogd vered í þad Slavoniska Túngumál, af tveimur lærdum Monnum, sem voru Cyrillus og Methodius, hvorier predikad hofdu Evangelium fyrer þeim Bulgarisku, og undersátunum í Mehren.

Anno 1363. liet Petrus Waldus, uppá sinn eigenn Kostnad útleggia Bibliuna á Fransku, í hvorre hann, ecke einasta kostgiæfelega las, helldur liet efter henne skrifa morg Exem-

plario

plaria, sem hann útdeilde, oðrum til Nota og Upplýsíngar. Þesse Waldus, hvors áhángendur kallast Waldensar, var einn Kaupmaður í Lyon, forstandugur og frómur Maður, sem af eins Manns hastarlegum og aumkunarverdum Dauda, sem hañ óforvarandis mátte uppá horfa, vard so skielfdur, ad hann þar efter snere sínu Sinne allðúngis frá Heiminum, og liet alla sína Páuka og Yferveganer hneigtast til Himneskra Hluta, sama útleggíng kom ecke þrickt í Liós; Enn áred 1484. var Biblian fyrsta sinn þryckt í Fronsku.

Anno 1425. var Biblian fyrst þrickt, í Sponsku Mále.

1462. er sagt Biblian, sem fyrer skrifadar útleggíngar á adskilianlegum stødum og imsum tímum var komenn í Liós, hafe fyrst þrickt vered í Latínu Mále, og kallast Biblia Latina vulgata, og skal sídann þrickt hafa vered 1467. í Folio, í Þýsku Túngumále, og þar efter í adskilianlegum stødum þrickt og útgefenn, fyrer Reformationen, af Papistum.

Anno 1522. var þad Nýa Testamente, sem af D. M. Luthero, útlagt var á Þýsku, ásamt med Davids Psálmum, fyrsta sinn þrickt. ---- Anno 1523. útkom hanns útleggíng af 5. Mosisbókum. ---- Anno 1535. kom Lutheri heila Bibliu Version í Liós fullkomlega, efter þad, hún hafde reviderud vered, og í adskilianlegann Máta forbetrud.

Anno 1471, skal Biblian hafa fyrst útlegd og þrickt vered, í Italiensku, (edur Vallendsku Mále,) í 2ur. Tomis í Folio. --- Anno 1607. var hún útlogd og þrickt í sama Túngumále. Authorinum, Johann Deodato, er miog hrósad af þeim Lærdu fyrer þá útleggíng.

Anno 1506. var Biblian útgefenn og þrickt til Venedig, í Bohmisku Túngumále. --- Ared 1540. var hún þrickt í sama Máls til Prag, í Folio, og sídann opt odrum sinnum.

Anno 1515. komst þad stóra Bibliuverk í stand, sem almeñelega kallast Biblia Complutensia, item Biblia Polyglotta, þar í finnst sá Hebreske Texte, eirnenn Grisk, Caldæisk og Latínsk útleggíng, hún er þrickt í 6. Tomis; Þá var Franciscus Ximenius Cardinale, Biskup í Toledo, og Rikisstiórnare í Spanien, í Stadnum Alcala, edur Compluto, hvar af Biblian var kollud: Biblia Complutensia.

Anno 1527. útkom þad nýa Testamente, í Svkarike, í Svensku, og var til Þrickeríesins recommenderad, af Kongenum Gustav. ---- Ar 1541. var heila Biblian, fyrsta sinn, þrickt í Svensku, í Stockhólm, í Folio. ---- Ar 1576. var hún þrickt á Upsolum. ---- Ar 1618. var Biblian sett í þad Svenska Túngumál, epter M. Lutheri útleggíngu, sem útkom 1535, og af því Kóng Gustav Adolphus kostade uppá somu Bibliu upplag, hvor þrickt var í Stockhólm í Folio, þá kallast hún almennelega Gustav Adolphs Biblia.

Anno 1515. var Biblian fyrsta sinn þrickt til Lundun, í Engelsku Mále. ---- Ar 1582. voru nýa Testamentisins Bækur, útlagdar epter þeirre Latínsku Version, og þricktar á Enska Túngu.

Anno 1550. var þad nýa Testamente útlagt á Donsku, af Hans Michelsyne, sem vered hafde Borgmeistare í Málmey, í Skáney, sama útleggíng var þrickt í Leipsig.

Anno 1524. var heila Biblian, fyrsta sinn, epter Lutheri Version útløgd og þrickt á Donsku, í þeß Sáluga Kóngs Christians Þriðia Regieríngstíd, epter þad Reformationen var sked í þessum Rikium, enn Pávans Afgudadýrkun med ákallan Heilagra, og ollu odru vanhelgu Skicke og Ceremonium, var aftekinn.

Anno 1581. var Biblian, bæde þad gamla og nýa Testamente, útløgd og þrickt á þeirre Moskovitisku Túngu, var kostad þar uppá af Constantino, Hertóganum í Osthorog.

Anno 1572. kom í liós þad stóra Biblíuverk, sem efter, Kóngsins Philippi II. í Spanien Befalníngu var fullgiort af Benedicto Aria Montano, hvor ed dó 1598. þann 6. Julii; J hvoriu ad finnast 5. Túngumál, nefnel. þad Hebreska, Caldæiska, Gríska, Syrlendska og Latínska, þrickt í Antverpen, í 8. Tomis, in Folio.

Anno 1584. var Biblían þrickt á Jslendsku, í hvert Túngumál hún útlogd var af Gudbrande Thorlákssyne, Biskupe á Holum, til þessa Verks Kostnadar, skeinkte Kóngurenn, Fridrich II. 3000 Rixdale.

Anno 1590. var Bibliunnar Gamla- og Nýa-Testamente þrickt í Nurenberg, í 6. Túngumálum, nefnelega: Hebresku, Caldæisku, Grísku, Latínsku, Þýsku og Slavonisku, útgefed af Elias Heitlero.

Anno 1614. skal Bibliann hafa vered útlogd í þad Americaniska Túngumál, efter þad Engelsker, nockrum árum ádur, hofdu byggt adskilianlega Stade, og sett sig nidur í America.

Anno 1642. var Biblían sett á þá Jrlendsku Túngu, af Gvilhelmo Bedello, sem þá var Biskup í Kilmore, á Jrlande.

Anno 1645. var Biblían þrickt í Paris í Frankaríke, í adskilianlegum Túngumálum nefnelega, Hebresku, Samaritansku, Caldæisku, Grísku, Sýrlendsku, Latínsku og Arabisku.

Anno 1657. var Biblían somuleidis þrickt í Lundún, á Englande, í adskilianlegum Túngum, og þar íbland, eirnen Biálendskre og Persiskre.

Anno 1701. var nýa Testamented útgefed í því Littauiska Túngumále, af D. Bernhard von Sanden, sem var Professor Theologiæ í Konigsberg, og Biskup í Preussen.

Anno 178. þann 17. Octobris byriade Zigenbalg, hinn fyrste Missionere, sem sendur var frá Danmork til Tranquebar í

Avstu

Avstindien, til ad umvenda Heidíngiunum, ad útleggia nýa Testamented á Malabariska Túngu; enn hann feck Motblástur, var og líka um nockurn Tíma settur í Arrest, fyrer þá orsok hindradest Verked lángann Tíma, so ad nýa Testamented í því Mále var ecke þrickt, fyrr enn áred 1715. --- Äred 1720. var aftur nýa Testamented á Malabariska Túngu, þrickt í anad sinn, og auked med Summarium og Paralleium.

Anno 1725. fullkomnade sá Danske Missionere, B. Schultze, þá Bibliunnar útlegging, sem Ziegenbalg hafde byriad á Malabariska Túngu, þann 24. Novembris. Um sama Tíma byriudu líka þeir Hollendsku Prestar í Ceilon, ad útleggia Bibliuna í sama Túngumál, somuleidis settu þeir og í Stand, eina Portugisiska Version. Fyrrgreindt ár, 1725. útkomu, þeirrar H. Skriftar Canonisku bækur tilsamanns, í því Malabariska Sproke, og menn fóru ad byria og ervida uppá þær Apocryphisku, so þær kynnu þricktar í Liós leidast.

Anno 1727. útlagde Missionerenn Niels Dahl, þá smærre Spámenn í þad Portugisiska Sprok, og B. Schultze, sem þann Tíd hiellt sig uppe í Madras, útlagde nýa Testamented á þá Varugisku Túngu, hvor útlegging fyrst vard fullkomnud, Äred 1732.

Anno 1739. liet Kóngurenn í Svíaríke, útleggia heilu Bibliuna í þad Lapplendska Túngumál.

## Um Christindoomsins Uppbyriun, i imsum Stødum þessara Nordurlanda.

Þad ár, efter Christi Fæding 67. er sagt Postulenn S. Petur hafe vered fyrste Biskup í Róm, þeim fornemsta Hofudstad í Vallande, og einum af þeim ypparstu og stærstu Stødum í Evropa, hvar, hann skal fyrst byriad hafa ad innplanta Chri-

Christelega Religion, hvor sídann meir og meir avkenn og vidhalldenn var af hanns Efterkomurum, sem þar hofdu sín Adsetur, og framann af þeirre fyrstu hundrad ára Olld, lietu kalla sig Biskupa. Enn þá Christne vídar útbreiddest í odrum Ríkium, lietu þeir kalla sig Páva, og tileinkudu sier Einvallds Myndugleika yfer øllum þeim, sem Geistligum Embættum þientu, ad þeir skylldu retta sig efter þeirra Befalníngum, hvort helldur þær voru samhlióda edur mótstrídande Guds Orde.

Anno 179. skal fiolde manns hafa umvendst, og margt Fólk vered skýrt í Bretlande, af tveimur Christnum Læresedrum, Damiano og Fugatio, sem frá Biskupinum í Róm vóru þángad sender, efter begiæring Lucii Brettakóngs, sem allareidu ádur fyre, áred 170. skal hafa láted uppretta Skóla, í Cantaraborg og Banchor.

Anno 203. skal Domalldur, Kóngurenn í Albania, edur Skotlande, á samt med miklum fiølda sinna Undersáta, hafa medteked þá Christelegu Religion.

Anno 306. þá Constantinus Magnus, hinn fyrste, var ordenn Keysare í Rómavellde, komst sú Christelega Religion m ked á Fót, og Evangelii Lærdómur útbreiddest miog í því Ríke, því hann sem þá var ordenn vel christenn, liet, ecke einasta, þeim Christnu efter fullkomenn Trúarbragda Fríheit, helldur liet og uppbyggia margar prýdelegar Kyrkiur í imsum Stodum; til Trúarinnar Ydkunar, og skeinkte Sylvestri, sem þá var Páve í Róm, miked Jardagóts, af því hann var miog filgisgódur í, ad styrkia alla hlute, sem þiena kynnu, til Christi Safnadar Uppbyggíngar.

Anno 417. var Christne medtekinn í Greifadæminu Burgund, sem liggur í Frankaríke, hvort Umdæme, ad feck sitt Nafn af þeim Burgundisku, sem biúggu vid Ana Rín, og 4. árum ádur hofdu giordt innfall í Frackland, og teked inn þetta Pláts, sem sídann er kallad Burgund.

Anno 431. var Christeleg Trú fyrst innrætt og plontud í Irlande, af Palladio, þeim fyrsta Biskupe, sem med 12. lærdum Mönnum var þángad sendur af Cælestino Páva, til ad kenna og skýra, og láta med sinne komu nockrar Kyrkiur uppbyggia, til Gudsþionustugiordar.

Anno 496. medtók sá Franske Kóngur Hlodver, Christna Trú, og liet sig þad ár skýra af Remigio Biskupe í Reims, á samt 3000. Frönskum, og af því þesse Frackakóngur, var hinn fyrste Vesturálfunnar Kóngur, sem játade sig under hreinann Lærdóm christelegrar Trúar, hefur sá Franske Kóngur fenged þann Titil, ad kallast: **Kóongurenn Christelegaste, it. Kyrkiunnar frumgetne Son.**

Anno 569. sende Gregorius Magnus, einn Múnk, ad Nafne Augustinus, og nockra fleire lærda Menn til Englands, til ad predika Evangelium fyrer þeim forblindudu Heidíngium, vid hverium vel var teked, so vel af Kónginum siálfum, hver ed gaf þeim oll Fríheit þar til, sem og af hinum flestu hanns Undersátum, þar fyrer geck allt vel og luckulega fyrer þeim, so ad vid útgaungu ársins 597. höfdu þar allareidu yfer 10000. manns skírder vered. Adalbert, sem þá var Kóngur í Englande, liet sig ecke skýra, fyrr enn áred 601. hvar efter meste Partur af þeim, sem ádur voru óskýrder, eftersilgdu hanns Dæme, umvendudust og lietu sig skýra, einn mikell fiolde manns.

Anno 615. var Christne innfærd í Bayeren, Francken, Schwaben, og adra Stade Þýskalands, af tveimur Evangeliskum Kennefedrum, Columbano og Florentio.

Anno 632. og eptersilgiande tíma voru margar Kyrkiur byggdar í somu Londum, til Gudsþiónustugiordar.

Anno 638. var Heidíndómurinn upprættur í Schweitzerlande og Innbyggiarner snerust til Christne, fyrer tilstiudlan og

Fram-

Framkvæmd Ste. Galli. sem var Columbani Læresveirn; Þesse Gallus kom því til vegar, med hiálp Sigeberth, sem þá var Kóngur í Austracia, ad það pragtuga og vidfræga Clavstur var byggt, sem kallast Ste. Galli.

Anno 688. var Christeleg Trú medtekeñ í Fríslande, sem liggur í Nidurløndunum, samt vídar og vídar útbreidd, af Willebrodo, einum Benedictina Múnk, hvor ásamt 12. ødrum var sendur þángad, til ad predika Evangelium. Þesse Willebrodus var sendur til Fríslands, af Egbert, Erkebiskupinum til York, var sídann af Páveanum Sergio, giørdur ad Erkibiskupe yfer Frísum, og Schlaviskum, og hafde sitt Biskups Adsetur í Utrecht, hvar hann forytod sitt Embætte í 46. ár. ---- Ared 697. liet hann byggia St. Marteins Kyrkiu í Utrecht.

Anno 697. var sú Christelega Trú innfærd í Zeeland, Holland, Geldern, og adra Stade, af Gvibert, sem var eirn af Willebrods Medhiálpurum, og liet hier og þar Kyrkiur byggia, og Safnadarhús, í hvørium hann predikade Evangelium; Enn af því hann liet niduibrióta Jovis- og Vestæ-Gydiu-Mustere, liet Radfridur Kóngur aflífa hann.

Anno 700. medtok Stadurenn Erfurt, og Tyringar, sem þar búa í kríng, þá Christelegu Trú.

Anno 718. var Christne merkelega framfilgt í Þýskalande, af Bonifacio, sem fyrst var eirn Múkur, sídann áred 700, á síns allduts 30. áre, vard fyrst Prestur, hvar efter hann fór inni Þýskaland til ad umvenda Fólkinu, predikade fyrst í Bayeren og Tyringenn, þar efter var hann áred 722. hátídlega vígdur til Postula og Biskups í Þýskalande.

Anno 785. kom Keysarenn Karla Magnus Saxverskum til, ad taka Christelega Trú, eidde ollum Heidnum Afgudum,

 sem

sem þecktust og funðust íbland þeirra, liet reisa Kaga á Torginu, og afhýda alla þá, sem dyrfdust að tilbidia og dýrka Heiden Goð.

Anno 822. var fyrst lagður Grundvollur Christelegrar Trúar í Danmørk, þá Páve Pascalis hinn fyrste, skickaðe Ebba, Erkebiskupenn af Reims, til að predika Evangelium fyrer Norðurlandanna Fólke, hvar fyrer hann, áreð efter, reyste til Danmerkur, og skal hafa umvendað og skýrt nockrar þúsunder af Undersátum þeß Ríkis.

Anno 827. komu tveir lærðer og lofsverðer Menn, nefnelega Ansgarius og Rombertus inní Danmørk, og það fyrer eftersfilgiande Tilefne: Kongurenn **Klack Haralldur**, sem þann Tíð ríkte í Danmørk, var áreð áður 826. útdrifenn af sínum Londum, og þá hann var landflótta orðenn, leitaðe hann aðstoðar hiá Keysaranum Lodvik, hver eð yfertalaðe hann til að láta uppfræða sig í Christelegre Trú, ásamt með hanns Førunautum, hverier og so aller, efter fengna Uppfræding, voru skýrðer í Keysarans Nærveru í Mogintuborg. Þegar þeir nú áre síðar, 827. reistu heim aftur til síns Føðurlands, sende Keysarenn þessa 2. lærðu Menn, með Kónginum og hanns Filgurum, til að styrkia þá þeß betur í Guðs þeckingu, sem innplóntuð var hiá þeim, so og til að snúa oðrum fleirum af þeß Ríkis Undersátum, sem enn nú Heidner voru, til Christne, hvað og vel luckaðest, so að marger lietu skýrast, þó feck Christne þar, ecke enn nú nockurn riettann framgáng, því marger af þeim ný umvendtu Christnu, blonduðu sinn Christendóm með Heidínglegre Hiátrú, urðu og þar á ofann á aðskilianlegann Hátt ofsokter og underþrickter af þeim, sem enn nú Heidner voru, hvar af orsakaðest, að marger þar fyrer foruðu Christne aftur; Enn efter það Múnkarner smámsamann komu fleire og fleire inní Danmørk, til að predika og skýra, komu Christendómurenn þar í betra Stand, og allra hellst, í Stiórnartíð **Svein-**

otta, sem kalladur var Tinguskegg, því hann kostade ollu til, ad Heidindomurenn yrde upprættur, sem hindrad hafde Evangelii Framgáng, og sídann hafa Danmerkur Undersátar, hallded vel vid sinn Christendóm, og hann med Tímaleingdinne í betra stand sett.

Anno 930. þá Unni, Erkebiskup af Hamborg, kom inní Danmörk og predikade Evangelium, kom hann morgum sem kastad hofdu Christne, til rettrar Trúar aptur, med Tilstirk Drottníngarinnar Þyri, sem kollud var Danaboot, og var vel Christenn. Kóngurenn Harålldur Blaatonn, sem kom til Stiórnariñar sama ár, sem Fader hanns, Gormur Kóngur hinn Grímme do, sem var 934. sparade og ecke nockurt ómak, til ad setia Christendómenn í betra stand á sínum dogum.

Anno 829. reiste Ansgarius til Svíarikis, til ad predika Evangelium, hvar hann hiellt vid í 2. ár, og hafde miked Ervide fyrer ad um̃venda Heidíngiunum, so vel í Svíaríke, sem í Danmork, giorde þessvegna uvsikiulegar Reysur, fram̃ og aftur, frá því eina Rike, til hins annars. Um̃ sama Tíma var og Christne bodud á Gullande, fyrer kostgiæfne þeirra godu manna Ansgarii og Romberts, og vilia sumer hallda, ad Gulland hafe vered sá fyrste Landspartur í Danmork, sem þeir voru tilsender af Klack Harallde med Christneboded.

Anno 861. var Christeleg Religion ad sonnu innfærd í Polen, enn feck þar þo avngvann sierlegann Fram̃gáng, fyrr enn áred 965. þá Christnebodinu var med miklu silge fram̃hallded í Polen og Schlesien, því þeirra Fürste Mislaus hinn fyrste, tok til egta Dambrowka, Dóttur Burisleifs Hertugans af Bøhmen, og af Kiærleika til hennar, hafde Christnast láted, spillte þar fyrer ollum Afgudabílætum í Polen og Schlesien, liet brióta þaug, og kasta þeim í Hafed, enn margar Kyrkiur uppbyggia; Og er þad-

markverdugt, ad af þvi þessum Afgudum var kástad og forlært, Dominicâ Lætare þad er: A Midföstu Sunnudege, þá giora Börnenn i þeirre Polsku Landeign, sier eitt Likneske, i Afguds Mind, hvoriu þaug med stærstu Gleде og Kiæte kasta, á þessum deye, i Hafed, til Endurminningar þess, ad Heidnenn var þá, úr þeirra Födurlande upprætt.

Anno 864. var Christeleg Religion, innrætt i Böhmen, hafde þar ad sönnu vered byrjad á þessu Gudlega Verke ádur, þvi á ed 846. þegar Sonur Keysarans Hlodvers, hafde þvingad Böhmiska under sig, er sagt hann hafe láted skýra 14. Fúrsta, edur Herra þess Lands med þeirra Ættfólke, enn feck þó ecke komed neinum fullkomnum framgánge á Christenndómenn, fyrr enn ádurgreint ár, þá Hertogenn Berizovius, med Konu sinne, liet uppfræda sig og skýra, af þeim Evangeliska Kennefødur Methodio, hvor sídann þar efter, snere mörgu Fólke til rettrar Trúar af hærre og lægre, i Rikinu, sumer segia þá Trúar umvendun Böhmanna sked hafa, áred 894. enn þad er trúanlegt, ad hún hafe, helldur, á þeim tímum, komed i betra og fullkomnara Stand.

Anno 941. var byriad ad innplanta Christne á Rússlande, efter þad Oluf, edur Oddleif, sem á þeim tímum rikte yfer Rússum, hafde vered i Constantinopel, hvar hún var uppfrædd i Christelegum Lærdóme, skýrd og nefnd Helene. Efter þad hún var heim komen, lagde hún alla kostgiæfne á, ad innræta Christendómin i sínum Londum og Rikium, hvar til hún siálf lagde bravtina, med sierdeilis Gudlegre Hegdan, bæde i sínum Christendóms-Sokum og sinne Rikisstiórn, so ad hún og af Rússum, var reiknud i Tolu Heilagra. Þó feck Religionen þar ecke neirn fullkomenn framgáng, fyrr enn árid 980. adrer segia 989. þegar Valdemar, sem þá var Stórfúrste i Rússlande tók

tók Christna Trú, uefnelega, þá Grískn, vid hvoria Undersátarner þar í Ríkinu, sídann stadfastlega hallda; og er þad fortaled, sem nockud markverdugt, ad marger þar, hafe Christelega Trú teked fyrer eitt Jardteikn, sem skede áred 980. af Leone, sem var hinn fyrste Metropolite í Kion hvor ed kastade sinne Gudspiallabók í Elld, og efter þad, hún hafde lenge í honum leiged, tók hann hana jafngóda úr Elldinum aftur.

Anno 986. var Christne fyrst bodud á Íslande, at Þorvallde Vídförla, hvor skýrdur var á Saxlande af Fridrike Biskupe, sem med honum for til Íslands, hvar þeir leitudust vid alvarlega ad snúa Heidingium til rettrar trúar.

Anno 989. leit Geisa, sem var Fürste í Ungaren skýra sig, af Adalbert Biskupe í Prag, og sídann, lagde alla Kostgiæfne á, ad innplanta Christelega Trú hiá sínum Underhafande.

Anno 997. leitadest Olafur Triggvason Noregs Kóngur vid, ad útrrydia Christelega Trú, í sínu Ríke, samt ödrum Stödum og lángt frá liggiande Eyum, sem lán under sama Ríke, og liet boda Christne á Grænlande, Færeyum Íslande, og mörgum ed um Stödum, hvar christne var óþeckianleg; Eñ af því þad skede mier med hardneskiu og útvortis þreingingum, somuleidis med uppdigtudum Kraftaverkum, helldur eñ lempne, þá komst Christendómurenn ei so fullkomlega í stand, yfer allt sem þurfte. Enn efter nockur ár lidenn, þá Olafur Kóngur Haralldsson, sem kalladur var Olafur Helge, var Kóngur ordenn í Norege, vard sú Christelega Religion betur styrkt og stadfest, því hann med allre roksemd, aftok allt Heidinglegt Skick, sem enn nú þángad til hafde vidhalldest.

Anno 1077. þá Theophilactus var Erkebiskup ordenn í Achrido, sem var Hefudstadurenn í Bulgaria, óstundade hann

trúlega

trúlega, og med allre Kostgiæfne, ad innplanta Christna Trú medal hinna Bulgariſku, ſem ad ſonnu, ádur fyrre hofdu byriad ad taka vid henne, enn fleſtaller voru aftur frá henne fallner, ſo ad þeir þá voru meſtann Part Heidíngiar. Enn jafnvel þótt Bulgariſker ſieu álitner og halloner fyrer Chriſtna, þá eru þeir þó miog vankunnande í ſínum Chriſtendóme; ſo torvelldt er ad vita og þeckia mismunen, millum þeirra og hinna Vantrúndu.

Anno 1124. efter þad Kóngurenn Bolislaus hinn þridie í Polen, hafde inntekid Stetin og heilu Pommerenn, feck hann Ottonem Biſkup af Bamberg, til ad predika Evangelium fyrer Slavunum þar í Lande, hverier aller vid Trú tóku, ſo þar voru á 20. dogum ſkýrder 7000. af þeim, og þeſſa Fólks og Þiódar Fúrſte, Werceslaus, edur Wurtislaus, liet ſig í ſama Máta ſkýra, med ollum ſínum, og dreif í burt ſinar 24. Hiákonur, efter þá Tíd, hafa hiner Slaviſku ſtadfaſtlega Trú hallded, og Chriſtna Religion, hvor, fyrſt byriud og innfærd var í Pommerenn þetta ár.

Anno 1125. var byriad ad prediſka Evangelium fyrer Vindum og Holſteinſkum, af S. Vitelino, ſem af ſinne ſtóru Koſtgiæfne, hvoria hann brúkade, til ad innfæra Chriſtna Trú í þeſſe Lond, var kalladur **Vinda Poſtule.**

Anno 1151. var Chriſtne fyrſt bodud og byriud á Grænlande, hvert Land ad fyrſt var uppleitad og funded, áred 800. og med nockru Heimilisfólke, til Abúdar numed, hvad ed jókſt ár efter ár, meir og meir, og efter þad Landed var velſkipad orded, af Preſtum, og Kennefedrum, var þeim og ſendur einn Biſkup; frá Erkebiſkupenum í Þrándheime, til þeß betre Chriſtendómſins Eflingar, ſo allt geck vel til í Landinu, ſo vel í því Geiſtlega, ſem Verdſlega Stande, þángad til Peſten kom þar, ſem kallaſt **Svarte Davde,** áred 1350, hvor annarſtadar

eirnenn

eirnenn geck, og næstum þvi yfer heila Heimenn, i hvorre Pest, flester af Innbyggiurunum burtdóu, so ad Gudsþiónusta, vegna skorts, so vel á Kennendum, sem tilheyrendum, mátte i mørgum stødum under lok lída, og þeir sem lífs efter voru, urdu ad nockrum tímum lidnum, frávillter Heidíngar, þángad til áred 1721. þá Hr. Hans Egede tók uppá sig Reysu til Grænlands ad umvenda Heidíngium, og efter þad hann fyrst havde byriad þetta, so heilagt Verk, sem honum vel luckadest, var honum sendur til Medhiálpara, áred 1724. þann 30. Julii Hr. Albert Topp, sem hiellt sig þar, til þess áred 1727. þann 10. Junii; Efter hans Heimkomu, voru tveir adrer Medhiálparar sender þángad.

Anno 1546. byriadest eirn stór Oróe á Íslande, millum þeirra tveggia Biskupa, sem þar residerudu á Landinu, sem voru: **Marteirn Einarsson** Biskup i Skálhollte, og **Joon Arason** Biskup á Hólum, og, þótt þeim bádum, af Hanns Köngl. Majsts. Liensmanne, alvarlega befalad være, ad hallda sig efter Lutheri Lærdóme, þá hiellt þó Biskup **Joon** vid sína Fyrertekt, ad kenna og forsvara þann Pápiska Lærdóm, og sette sig upp á móte **Marteine** Biskupe, sem þar af feck Orsok til 1547. ad reisa nidur til Danmerkur, til ad klaga yfer því, fyrer Hanns Majst. hvør ed gaf honum sitt Verndarberf, so hann áred efter 1548. reyste aftur til Íslands, kom þá og eirnenn Befalníngarbref til **Joons** Biskups, ad hann líka Siálfur skyllde koma til Danmerkur, og þar afgiora sína Sok, uppá þad ósamlinded þeirra á mille mætte stillt verda; Enn þad agtade ecke **Joon** Biskup, helldur safnade ad sier 300. manns, hvoria, hann liet fánga Biskup **Martein**, afsette Logmannenn, enn innsette Son sinn aftur i hanns stad. Fyrer soddann óhlidne móte Kónginum, og harda Medferd á Biskupinum, var hann efter Könglegre allranáduguſtu Befalníng 1549. Fridlavs giordur,

samt báder hanns Syner; og ollum Geistlegum og Verdslegum sterklega fyrerboded, ad vera honum hlídner edur filgiande.

Enn af því þesse óróe, vard æ meire og meire, var Biskup **Joon**, ásamt med bádum Sonum sínum, tekenn til Fánga, og fluttur í Skálhollt, hvar þeir, efter felldann Dóm yfer þeim, og Hanns Köngl. Majsts. allranáduguſtu Approbation, voru áred 1551, aller 3. samann, í eitt sinn afhofdader, Biskup **Martein** friádur úr sínu Fángelse, og annar Biskup, ad Nafne, **Olafur Hialltason**, iñsettur í Hóla Stifte.

Anno 1517. var Leo, 204de Páve í Róm; Þá hann brast Gialld, tilskickade hann Afláts- og Fyrergefníngar-Bref, bæde fyrer lifande og dauda, soleidis: Ad Syndaranum skyllde vera fyrergefed, og Sálen frelsast frá Hreinsunar-Elldinum, so snart Peníngarner, fyrer Afláts-Brefed være betalader, hvarefter Brefenn voru útgefenn, med efterfilgiande ordum og Forme:

" Eg afleyse þig frá øllu Kyrkiunnar Straffe, sem þú kannt
" hafa forþienad, og sídann af øllum þínum Syndum og Avirdz
" íngum, sem þú híngad til kannt framed hafa, hvørsu stórar
" sem þær vera kunna, og uppgef þier allt þad Straff, sem þú
" hefur forþient ad lída í Hreinsunarelldinum, fyrer sømu Synd-
" er. Eg giøre þig aptur hluttakande í Kyrkiunnar Sacramen-
" tis, og set þig aptur í sama Sakleysis Stand, sem þú varst
" í strax epter Skyrnina, so Helvitisport skulu vera tillukt fyr-
" er þier, nær þú deyr, og Paradísar Port skulu standa open
" fyrer þier."

Anno 103. tilskickade Clemens fyrste, sem var þridie Biskup í Róm, ad í Samkomunum, sem skedu í Húsunum hiá Almúganum, til ad heyra Guds Ord, (því á þeim tímum, voru enn þá aungvar Kyrkiur byggdar, til þessarrar heilogu þiónustu.) Skyllde Stolarner, í hvørium, þeir, sem predikudu, villdu sitia, edur standa, vera nockyrra Feta háer, frá Golfinu, upp yfer

yfer Almúganúm, efter hvorre Skickun Predikunar-Stólarner nú, yfer allt, á ollum Stodum, í ollum Kyrkium, hátt setter eru, so sem nockud nytsamlegt, so Predikarenn kunne því betur ad siást, af ollum þeim, sem í Samkomunne eru, og ásamt mieg gagnlegt fyrer Tilheyrendurnar, hvorra Andagt avdvelld'ega hindrast kann af ímislegum hiegomlegum Hlutum, sem þeim kuña fyrer Augu ad bera, ef þeim være ecke soleidis upplypt, ad Tilheyrendurner mættu under Predikuninne horfa uppá Kennendurnar.

Anno 260. á þessum tímum voru davder Líkamer hiña Christnu grafner út á Morkinne, efter Heidíngianna Plagsid, hvorra Greftrar-Plátz enn nú þeckianleg eru, í morgum Stodum, af þeim stóru Steina-Dysium, sem hladenn hafa vered yfer þeim, og sierdeilis yfer Stríds-Kappanna og Risanna Grofum. Þetta ár skickade Dyonisius fyrste, sem var 25. Biskup í Róm, ad visser Stader skylldu innvígiast og uñgirdast, til þessarar Brúkunar, á hvorre Jord, sem kollud var Christen Jord, eckert mátte grafed vera, utann andvana Líkamer Christinna Manna. Efter þann tíma, þegar Clavstur og Kyrkiur voru byggdar, afdeildu menn þesse Plátz, vid Kyrkiur og Clavstur, og uñmúrudu med háum Gordum so hverke Svín edur onnur Dýr, skyllde komast inn, til ad uppróta og fordiarfa Grafer hinna davdu, hvor Plátz nú yfer allt í Christendóminum, eru afdeild, og kallast Kyrkiugardur; Og jafnvel þott Clavstrenn í morgum Stodum, efter Reformationina sieu eidd og affelld, í þessum Londum, þá halldast þó þeirra tilsetter Kyrkiugardar í Stande, til ad jarda í fátækt Fólk, og kallast sommu Plátz enn nú, Clavstur-Kyrkiugardar.

Anno 402. voru Klucknr fyrst uppfundnar, sem nú yfer allt brúkanlegar eru í Christendóminum, so vel á Landinu, sem í Kaupstodunum, til ad kalla Almúgann samann, þegar Gudsþiónusta skal frañflytiast; Ad steipa þær, var fyrst uppá funded af einum

miklum hagleiksmanne, í þeim Biskuplega Stad, Nola í Campania, sem liggur vid Fialled Vesuvius í Italia. Efter þad Kluckurnar soleidis voru uppfundnar, voru eirnenn efter Hendinne, Turnar uppbyggder vid Kyrkiurnar, til þvílíkrar nytsamlegrar brúkunar. Vid þær Kyrkiur, sem ádur fyrer þann tíma, byggdar voru, sáust sumstadar nockur Uibrot, edur Portvirki, meir til Prydis, helldur enn Gagns, hvor ed kolludust Pyramides.

Anno 604. tilsette og befalade Sabianus Biskup í Róm sem var hinn 66. í Tolunne, ad Kluckur skylldu brúkast yfer allt í Christindóminum, ad hríngia med til Predikunar, so og ad hríngia fyrer Líkum, og til annarrar Kyrkiuþiónustu, þarfyrer voru avngvar Kyrkiur so byggdar, ad ecke væru Turnar byggder hiá þeim, somuleidis og vid þær Kyrkiur, hvar eingeñ Turn hafde ádur vered. Adur enn Kluckurnar komust í Brúkun, máttu Diáknarner hlavpa uñkríng, med Hrópe og Kollum, á ollum Gotum og Strætum, ad kalla Fólked til Kyrkiu, nær Gudsþiónusta skyllde frañflytiast. Til Minnis þeß Stadar, hvar Kluckurnar voru fyrst steiptar, kallast Smábiollur í Latinu Mále Nolæ, og hinar stærre Kluckurnar Campanæ.

Anno 800. vilia nockrer hallda, ad Messuklæde, sem nú brúkanleg eru í flestum Stodum Christindomsins, hafe í Tíd **Karla Magnusar** Keysara, og Leonis III. í Páfa Toluñe 94. fyrst skipad vered, ad brúkast í Kyrkiunum í Þyskalande, nær Gudsþiónusta være frañflutt, so ad mismunur være á Prestunum í þeirra Embættisverkum, og hinu odru Fólkinu; Enn adrer hallda, ad þavg hafe ádur fyrer nockrum hundrad árum, í Brúkun vered, því Lærefaderenn Hieronymus, sem lifde 300. árum efter Christi Himnafor, skal hafa skrifad eina Bók uñ Messuklæde, hvar hann vill lióslega bevísa, ad Messuklæde hafe

brúk-

brúkuð vereð í Christelegre Kyrkiu, frá Postulanna Tíð, er og einnenn sagt í Kyrkiu-Historiunum, að Stephanus hinn heilage Rómverske Biskup, sem dó áreð 257. hafe í sinne Lífstíð befalað, að Messuklæðum skyllde hreinum hallðeð vera í Kyrkiunum, til Guðsþionustugiorðar, og nær Alltaris Sacramenteð handterað og útdeilt være.

Anno 1024. skal eirn Benedictina Múnkur, af Ave 220. í Italien, að Nafne, Gvido Aretinus, sem epter þeirra tíma heutugleikum var eirn góður Musicus, eður Saungvare, hafa fyrst uppfundeð að singia efter Nótum, hverium hann gaf þesse Nøfn: UT, RE, MI, FA, SOL, LA, sem vera skulu fyrstu Stafer nockurra orða í einum Psálme, hvørs upphaf þanninn hlióðar:

UT qveant laxis REsonare fibris,
MIra gestorum FAmuli tuorum,
SOLve polluti LAbii reatum,
St: JOHANNES.

Anno 112. tilskickaðe Alexander fyrste, 7. Biskup í Róm, að í heilagre Kvølldmáltíð, skylldu brúkast óskírð Brauð, og að Víneð skyllde blandast með Vatne, hann skickaðe og **Vígslu-Vatn**, sem enn nú í Páfadóminum brúkað er, hveriu þeir stockva á sig, áður enn þeir gánga inn í Drottins Mustere, og innbirla sier, að við þessa Vatns ádreifíng verðe þeir hreinsaðer af sínum Syndum, og þeirra Kyrkiugánga og Guðsþiónusta, sierdeilis helguð, hvørt helldur þeir útretta hana þá með Andagt, ellegar ecke.

Anno 132. tilskickaðe Telesphorus 9. Biskup í Róm, að Fólkeð skyllde fasta 7. daga fyrer Páska, og singiast skyllde Gloria in excelsis Deo, um Jólenn.

Anno 138. skickaðe Hyginius, sem kom efter Telesphorum og var hinn 10. Biskup í Róm, að brúkast skylldu Kyr-

kiu vígslur, og ad ei skylldu vera fleire Gudfedgin vid Skírnina, helldur enn tvo, Karlmadur og Kona.

Anno 146. skipade Pius I. sem var 11. Biskup í Róm, ad Páska Hátíd skyllde heilog halldast á Sunnudag.

Anno 156. baud Anicetus, sem var 12. Biskup í Róm, ad þeir, sem væru í Geistligum Embættum, skylldu ei brúka sídt Hár.

Anno 165. befalade Soter, sem kom efter Anicetum, og var 12. Biskup í Róm, ad allar Hiónavígslur skillde framfara í Kyrkiunne, og eingenn Brúdgume, mætte, hvors Stands, sem hann være, vígiast samann vid sína Brúde, hverke í sínu eigen Húse, edur nockurs annars.

Anno 227. tilskickade Urbanus Fyrste, hinn 18 Biskup í Róm, og skipade, um̃ heila Christendómenn, ad Kaleikur og Patina sem brúkast til H: Kvolldmáltídar, skylldu gioerast af Silfre, edur Tine, villde og nockur, láta þad vera af Gulle, edur forgyllt, skyllde honum ecke bannad vera; enn ádur þángad til, voru þaug í imsum stodum giord af Tre, Leir og Glase.

Anno 241. var fyrst fared ad tala um̃ ákallan heilagra og fram̃lidinna.

Anno 269. baud og skipade Dyonysius fyrste, 26. Biskup í Róm, ad árlega skylldu halldast Messu- og Minnis-Dagar Píslarvottanna.

Anno 311. skipade Miltiades, edur Melchiades, 33. Biskup í Róm, ad Christner skylldu ecke fasta á Sunnudag edur Fimtudag, af því Heidíngiar fostudu þá.

Anno 315. baud Sylvester 34. Biskup í Róm, ad þeir sem skýrder være, so og hiner daudvona, skylldu med Oliu smyriast, sem þar til skyllde tilbúast og helgast.

Anno

Anno 336. skipade Marcus, 35. Biskup í Róm, ad sú Nicæniska Trúarjátníng skyllde hveru Sunnudag síngiast í Kyrkiunum.

Anno 402. dó Anastasius, 41. Biskup í Róm, sem skipad hafde, ad eingenn mætte þióna nockru Geistligu Embætte, sem hefde nockurt lýte, edur brest á Líkama sínum. Somuleidis nær Evangelium være lesed í Kyrkiunne, skyllde allur Sofnudurenn rýsa upp, og hlýda þar á standande.

Anno 427. byriudu menn ad veita Krossmarkinu sierdeilis Æru og Virdíng, hvarfyrer þeir máludu og útskáru Krossmindina allstadar; Enn so þad skyllde ei um síder verda foragtanlegt, útgaf Keysarenn Theodosius eina Fororduíng, í hvorre hann fyrerbavd ad mála edur skera Kross á Gólfid, sem genged være ofaná.

Anno 483. dó Simplicius, 49. Biskup í Róm, hvor ed skipade under sinn Davda, ad menn skylldu yferallt í Christindóminum, fasta 7. vikur fyrer Páska, sama Time kallast enn nú sú heilaga Fostu-Tíd; Til soddann Fostu voru 2. edur 3. Dagar í vikunne brúkader; á hvorium menn hielldu sier frá vissum Mat og Dryck, þar á móte hielldu menn sig því betur med annad slag, edur á hinum Dogunum.

Anno 513. dó Symmachus, 52. Biskup í Róm, sem skipade þá hann lifde, ad Eingla-Savngurenn, Gloria in excelsis Deo, edur **Dyrd sie Gude í Hædum**, skyllde síngiast hvorn Sunnudag í Kyrkium og Christnum Sofnudum.

Anno 589. var Litaman, sem enn nú er brúkanleg í vorum Kyrkium, fyrst samsett af Pellagio, sem var 64. Biskup í Róm, þegar sú gehýselga Pest geck yfer, ecke einasta í Róm, hvar morg þúsund manns dou, hellour og í heila Christindóminum. Á sonnu Tíd var sú Ósk edur Fyrerbon í veniu leidd, sem enn nú

brúk,

brúkast hiá oß, ad nær einhvor hnerrar, þá seger hann siálfur, edur líka adrer, sem nærverande eru, og heyra þad; **Gud hiálpe mier, Gud hiálpe þier, Gud blesse þig**; Því marger á þeim Tíma, þá þeir soleidis hnerrudu, hafde þeirra Líf strax enda, og naumlega ádur enn þesse fáu ord voru úttolud, datt margur daudur nidur, í sama stad er hann stód. Þann 8. Februarii 590. dó same Pelagius úr Pestinne, hanns Efterkomare var Gregorius Magnus, sem á sínum dogum innfærde magar nýar Ceremoniur, hann fyrerskrifade, hvad á hvorium dege Ársins, skyllde í Gudsþiónustu lesed og súnged verda, og hvors slags Klædum madur skyllde íklæddur vera; Hann tilskickade Processíur, dýrkun Heilagra, sómuleidis Pílagríms Reisur, rc.

Anno 610. skipade Bonifacius Fiórde, sem var 68 Páve í Róm, (því þángad til kolludust þeir Biskupar, enn nú á þessarre hundrad ára Olld, lietu þeir kalla sig Páva, og æ sídann,) á eirne Prestastefnu, ad Múnkarner skylldu, eins vel sem Prestarner, predika og skýra.

Anno 615. fyrerbaud Adeodatus (þad þíder, **af Gude gefenn**,) hinn 69de Páve í Róm, ad eingenn mætte til egta taka þá Persónu, sem hann hafde hallded under Skýrn, af hvorin Forbode, Pápistanna Log, um̃ þann andlega Skylldugleika, (sem vier kollum **Gudsifiar**,) hafa sinn uppruna.

Anno 626. tilskickade Honorius fyrste, 71. Páve í Róm, ad þar skyllde halldast Processía í hvorre viku, med Litaniu og ákalle Heilagra.

Anno 657. þann 31. Maji, dó Evgenius, 76. Páve í Róm, sem á sínum dogum hafde tilskickad, ad Diáknar, Subdiáknar og Olldúngar, mættu ecke gefa sig í Hiónaband; Þar á mote, tillagde hann Biskupunum verdslegann Myndugleika, ad þeir mætte setia Fólk í Fángelse, sem fyrer sín Afbrot hefde Arrest forþienad.

Anno

Anno 671, þann 31. Decembris, deide Vitellianus, 77. Páve í Róm, hver á sínum dogum skipade, ad Guðsþiónustu-giörd skyllde yfer allt framflytiast í Latínsku mále, og á sama Tíma voru Messurnar innstiftadar í Kyrkiunum.

Anno 685. þann 14. Maji, var Benedict II. hinn 82ar, útvalenn til Páva í Róm, hann skal hafa vered sá fyrste, sem liet kalla sig Vicarium Christi, edur Fullmegtugann.

Anno 688. tilskickade Sergius 84. Páve í Róm, ad menn skylldu síngia: **O þu Guds Lamb**, vid brúkun Kvölld-máltídar Sacramentisins, og ad bravded skyllde briotast sundur í 3. sticke, þad eina sticked, átte ad kastast í Kaleikenn, og þrida Christi upprisna Líkama, hid annad, hvert eted var, skyllde teikna hanns Líkama, sem um geckst á Jordunne, og þad þridia skyllde liggia á Alltarinu, þar til Messann være endud, og merkia Christi Líkama, sá sem lá í Grøfinne; hann tilsette og vissar Litaniur á Mariu Messudogum, item ad menn skylldu tilbidia eitt stycke af Christi Krosse, sem fannst í Róm í þeirre Lutheranisku Kyrkiu.

Anno 711. tilskickade Constantinus hinn 85. Páve í Rom, ad Jómfrúr Mariu, og annarra Heilagra Líkneske, skylldu setiast í Kyrkiurnar, og ad Fólked skyllde falla nidur fyrer þeim, tilbidia og dýrka þav, um Messuna.

Anno 743. útgaf Zacharias, 88. Páve í Róm, efter-filgiande Pósta, í eirne Synódo, hvar Samankomner voru, 34. Biskupar, 14. Olldúngar og 4. Diáknar: 1. ad eingenn Geisti-legur mætte hafa nockra Qvennmanns Persónu, edur Nunnu, í Húsinu hiá sier, nema af hanns nánustu Ættíngium. 2. Eingenn mætte giftast neirne Geistlegre Kvinnu, edur Nunnu, ei helldur þeirre, sem hann hafde hallded under Skýrn. 3. Ad eingenn Klerkur eda Múnkur mætte brúka sídt Hár. 4. Ad eingenn af Clerisienu mætte klagast fyrer Verdslegum Rette. 5.

Ad eingenn mætte koma, med Staf í Hende, edur Hött á Hofde, upp ad Alltarinu, hvor sem hier á móte breitte, hañ skyllde bannfærast.

Anno 827. skal Evgenius II, sem var 96. Páve í Róm, skickad hafa og innfært **Vatns-Skyrsluna**, fyrer þá, sem skulldader voru fyrer einhvorn grofann Misgiorning, er þeim kunna ecke yferbevísadur verda, so þeir á þann hátt kyñu fríast frá íllmælis Grunsemdum, og dæmast Sÿkner Saka, og skede þesse reinsla og undanfærsla á þennann máta: 1. Var sú Sakborna Persóna færd til Kyrkiu, ad hlída þar Messu, sem fyrer þá Skulld halldenn var. 2. Voru þeir færder í Nafne Heilagrar Þrenníngar og þeirra Helgu Dóma, sem fundust í sömu Kyrkiu, ad þeir skylldu ei dyrfast til ad medtaka Sacramented, ef þeir væru seker. 3. Gáfu menn þeim Vígt Vatn ad drecka, og stöcktu því líka á þá, nær þad var sked, færdu menn þá út ad Vatninu, og köstudu þeim þar í; Ef þeir flutu á Vatnenu, voru þeir frá Sökinne fríer dæmder, enn söcke þeir, voru þeir fallner á Málinu, og sídann efter Giorníngsens Asigkomulage straffader. Enn af því þesse uppfundna **Vatns Skyrsla**, var eitt falskt Medal, til ad adgreina Seka og Sÿkna, þá mátte margur Saklaus drepenn verda, fyrer þann Misgiorníng, sem hañ var alldrei afvalldur, og hvörs Sakleise fyrst openberadest og auglÿstest, ad hönum dauðum. Þetta var áred 828. af Keisaranum Ludovico Pio, med eirne Forordníngu, hvorja hann útgaf í Achenn, fyrerboded, ei ad sídur var þad þó, í morgum Stödum, um lángann tíma ecke afteked, so sem lesa má, í Danmerkur, Noregs og Íslands Historium.

**Elld-Skyrslunne**, (sem vier kolludum **Jaarnburd**,) hvor á þeim dögum og so brúkadest, var á vidlíkann hátt vared, sem filger: Sá sem Skulldadur var, átte ad sína Sakleyse sitt med

með því að bera glóande Járn í Hendinne, eður gánga á glóande Járne með berum Fótum, brynne hann ecke af hitanum, þá varð hann ecke framar straffaður, sem Sekur, var þarfyrer Eldz- og Vatns-Reinslan, báðar eins á sig komnar, að margur á þann hátt, liet Saklaus lífeð. Þetta óguðlega skick var og so í Brúkun komeð, bæðe í Danmörk, Norege og Íslande; Enn áreð 1341. var það aldeilis, og að fullu afteked, af Kónginum Waldemar þriðia, sem fyrerbauð streingelega, að nockur, under Lífsstraff, mætte með þvílíkum folskum Meðolum Sannleikenn uppleita, í Efablondnum og tvílráðum vafa Sokum.

Anno 827. þann 1. Septembris, var Valetinus útvalen til Páva, og deiðe sama ár, 10. Octobris; hann skal hafa vereð sá fyrste, sem liet kyssa Fætur sínar af því heila Rómverska Ráde.

Anno 830. í Gregorii fiórða Tíð, sem var 97. í Páfatolune, færðe Paſchaſius Robertus, einn Múnkur, og síðann Abóte til Clausturſins Corbey í Piccardia, þann fals Lærdom í Form og Stand, um Tranſubſtantiationem, eður Umbreiting Brauðſins og Vínſins í Holld og Blóð Christi, í Alltarisins Sacramente, og uppáſtóð, að Conſecrationenn, eður þeß Helgun, være eckert annað, enn ein ný Skopun, hvar með Christi Líkame og Blóð yrðe ſkapað af Brauðe og Víne, þó ſoleiðis að Brauðeð og Víneð hielldu ſínu Forme og Smeck útvortis, þótt það efter ſinne veru og underſtoðu være það ecke framar. Enn jafnvel þótt marger þá, og á efterkomande Tímum, ſette ſig ſterklega á móte þeſſum Villulærdóme, þá er honum enn nú trúað, og halldenn ſannferðugur, til þeſſa dags, af Pápiſtum.

Anno 869. þann 25. Martii, var Nicolaus útvalenn og var ſá 102. Páve í Róm, hann yfergeck alla ſína Formenn í Stórmennſku, því tviſarſinnum þá hann ſteig á Heſtsbak, liet

hann Keysarann Lodvik annann hallda í sitt stad, hann stadfeste, og befalade streingelega, ad halldast skyllde þad Skick, sem á Páva Vitelliani dogum var boded, nefnelega, ad Gudsþiónustugiord, yfer allt í Christendóminum, skyllde í Latínu Mále framflytiast, þó var Böhmiskum efterláted, áred 871, ad hallda Gudsþiónustu, í sinu eigennlands Túngumále; Hann ecke einasta fyrerbavd, helldur fordæmde Prestanna Giftingar.

Anno 968. var þad undarlega Skick fyrst innleidt, af Johann þrettánda, 126. Páva í Róm, hvørt enn nú brúkanlegt er í Pávadomnum, nefnel. ad skýra Kluckurnar, sem brúkast í Kyrkiunum, til ad kalla Fólked saman til Messunnar; han innvígde og skyrde allrafyrst þá Luteraniscu Klucku, og kallade hana efter sinu Nafne, Johannes.

Anno 1023. í tíd Benedicts siøunda, 136. Páva í Róm, hvør í ágirndenne tók fram, flestum sinum Formønnum, því hann villde ecke, efter Keysarans begiering, innvígia og confirmera þad nýa Stifte Bamberg í Þýskalande, fyrr enn hønum var lofad, ad hann skyllde fá þadann árlega 100. Mk. Silfurs, og eirn hvítann Hest, med Sødle og øllu tilheyrande. Þá var tilskickad á eirne Prestastefnu, sem halldenn var, af Erkebiskupinum í Mayntz, sem hiet Arbius, ad eckert Bryllavp skyllde halldast frá Adventu Sunnudege, til 13. í Jólum, og ecke frá Níuviknafostu-Sunnudege, til fyrsta Sunnudags epter Páska; item, ad Klerkar, sem eted hefde og drucked um Næturnar á Sumrenn, efter þad, Hanenn hefde galad, mættu ecke Messu flytia, dagenn næsta þar efter.

Anno 1055. þegar Victor var ordenn Páve í Róm, hinn 144. í Tølunne, var sá Plagsidur tilsettur og innleiddur, já almennur giordur yfer allt, ad sá sem Ydran giorde fyrer drígda Glæpa, og villde betra sinn Lifnad, skillde láta strýkia sig og húdfletta, marger útvøldu sier og af eintómis frívilia þvílíka Hirting

tíng, til ad temia og kroßfesta Hollded, hvad á stundum skede af so miklum fiølda manns, sem med stórre framsýse flycktust saman til þessa, ad meñ í einu Clavstre kuñu ad útslíta 3000. Písknm, edur Vondum, til þessa Ervidis, á stuttum Tíma, voru á medann Psálmar súngner, hvorium so nidurradad var, ad 30. Psálmar og 3000. kostar ad strýkia med, var hallded fyrer eins heils árs Ydran. Um Keysarann Hinric þridia lesa menn, ad hann efter Pávans Befalníngu, hafe siálfur láted strýkia sig góðvilinglega, sierdeilis einu sinne, af Erkebiskupinum í Coln. Og Anno 1196. lesa menn og um Rigard Kóng af Englande, ad hann skommu fyrer sinn Dauda, til Forlíkunar og Kvittunar, fyrer eina Synd, sem hann drígt hafde mót Kyrkiunne, á hvorrar Góźe hann hafde forgriped sig, liet sig strýkia af Múnkunum, so Blóded streimde um hañs heila Líkama.

Anno 1074. var Gregorius siøunde, 149. Páve í Róm, í hanns Tid, var á adskilianlegum Prestamótum, úrskurdad og fast álíktad, ad Prestarner annadhvort skylldu segia skiled vid sitt Embætte, edur sínar Húsfrúr, og ad eingenn þar efter til Geistlegs Embættis setiast skyllde, utann ógiftar Persónur; Clericied í Þýskalande, sette sig sterklega hier á móte, og kølludu Pávann, fyrer þá skulld **Erke-Villumann**, sem hondlade á móte Skriftinne, og marger af Prestunum voru setter í Bann, yfergáfu helldur sín Embætte, enn sínar Konur.

Anno 1095. vóru þavg so kølludu, **Paternoster-Bønd** færd í Brúkun, af einum sem nefndest Petrus Eremita, og þad í þeim tilgánge, ad þeir skylldu telia, og vita, hvad morg **Fadervor** og **Ave Maria**, edur Bæner til Mariu, og añara Heilagra framlidinna, þeir giørt hefde, án hvorra Fyrerbæna, þeirra eigen Bæner voru ónýtar halldnar; Og eru þesse Pat-

**ernoster-Bønd**, enn nu mikils virdt í Páfadómnum; ef þaug vantade hiá einhvorium, var hann álitenn sem einn Villumadur.

Anno 1120. voru Prestarner í Danmørk, efter adskilianlégum, ádur útgefnum Skickunum hins Rómverska Páva, þvíngader til, ad skilia sig vid sínar Egtakonur, so sem Versed hlióðar:

M. C. bisqve decem Danorum Clerus abegit
Uxores ductas, non sine clade gravi.

Þad er:

**M. C. Tvísvar Tiu med, teiknad stendur Artaled, Þá Klerkar Danster Konur sín, keirdu íburt, þvi hræddust pín'.**

Marger af þeim, sem ecke villdu gegna þessu, urdu útflæmder, og fiølde af þeim drepenn, ei ad sídur hielldu þó marger sínum Húsfrúm leinelega hiá sier.

Anno 1125. var Hiónaband Prestanna, sømuleidis, á eirne Synodo, edur Prestamóte í Englande, streingelega fyrerboded, þá tilkieptu nockrer, sier Fríheit, ad hallda sínum Konum, fyrer Peninga, af Hinric Konge, sem framfilgia átte þó þessarre Synodals Aliktun.

Anno 1386. var á þeim pápisku Tídum í Danmørk hallded eitt Mót, í Odense í Fyn, og þá fyrst skipad ad bidia, efter Predikun, fyrer Kónginum, Yfervalldenu, Adlinum og Ferdafólke, ásamt ødrum, item um Jardarinnar Gróda og Avoxt, samt Blessun af Siónum.

Adrer skrifa ad þesse Samkoma, af alls Stands Persónum, under bádum Crónunum, hafe vered halldenn í Tíd Margretar Drottníngar, Anno 1384.

## Um̄ Prentverkſins Uppruna.

Nred 1440. er Bokprickiara Konſten, efter fleſtra Meiníngū fyrſt uppfunden. Hvor fyrſte Hofundur hennar vered hafe, kunna menn ecke eiginlega ad vita, því þad er imſum Eiguad; Nockrer hallda, ad þad hafe vered Johannes Guttenberg af Stratsborg, adrer meina ad Johannes Fauſtus, ſem var Mágur Johanns Mantel, hafe hana uppfunded, ſumer tileinka hana Petro Scheffero, ſem af nockrum kallaſt Petrus Ophilio, nockrer tilnefna Johann Harlem, og ad ſíduſtu verdur hún eignud Laurentio Cöſter, einum Borgara frá Harlem í Hollande. A Rádhúſinu í greindum Stad, finnſt ibland annarra Rariteta, ein Bók, ſem halldenn er vera hin allra fyrſta, ſem prentud hafe vered, hvorrar Titill er: Speculum humanæ Salvationis, hún er geimd í einu Silfurſkríne. Adrer hallda hin fyrſta þrickt Bók, ſem giort hefur Þrickerled vidfrægt, ſie eitt Latínſkt Dictionarium, edur Glóſſa-Bók, ſem kallaſt Catholicum.

A fyrrnefndre Harlems Rádſtofu finnſt enn nú, Laurentii Cöſtri Líkneſke, ſem hins fyrſta Hofundar Prentverkſins, og yfer Húſsdyrunum, í hvoriu hann bio, ſtendur ein prýdeleg Upſkrift, med forgylltum Bókſtofum.

Þeir fyrſtu Bókſtafer, ſem brúkader voru til þeſſarar Konſtar, voru útſkorner í Tre; Enn Scheffer ſkal fyrſtur hafa uppfunded, ad ſteipa þá af Blýe og Tine.

Anno 1471. ſkal Prentverked, fyrſt innkomed í Neapolis, hvort Sixtus Rufinger þar í Stand ſette. Um ſama Tíma var þad innfært í Róm í Italia af Uldrich Hane.

Anno 1540. var Prentſmidia fyrſt innflutt í Island, af Síra Jóne Matthiasſyne, á Breidabolſtad í Veſturhope, ſem kalladur var hinn Svenſke.

Anno

Anno 1715. fengu Missionarner eitt Prentverk innrettad í Tranqvebar, hvar Nýa Testamented í fyrsta sinne þrickt var, á Malabariska Túngu.

Somuleidis var í Constantinopel tilsett eitt Bókþrickerí, hvad sá Tyrkneske Mufti leitadest vid ad hindra, enn þó forgefins.

Anno 1470. skal Pappírs-Giord, sem á vorum døgum, og hart nær øllum Tídum, hefur ómissanleg vered, hafa fyrst vered byriud í Þýskalande, af tveimur Mønnum, hvorier sama ár komu til Basel, í Þýskalande, frá Galatia, og sídan vídar útbreidst um Heimenn.



# Registur
## uppá Innehalld Bokarinnar.



Un Um

Registur.

## Menda.

Pag. 3. lin. 24. þesse, les þesser. Pag. 8. lin. 21. 5. les. 5.] Pag. 21. lin. 15. Róveriar, les Rómveriar. Pag. 22. lin. 18. Kaupsamar, les Raupsamar. Pag. 20. l. 3. skientte, les skeinkte. Pag. 36. l. 13. 500000. Untzer, les 100000. Untzer Gulls. P. 39. l. 19. skulldu les skylldu. P. 46. l. 5. fyrra, les fyrre. it. l. 6. Germania, les Germani. it. l. 21. eirn, les ein. P. 47. l. 8. allre, les allra. it. l. sídustu: má bøndeun (vantar, skule hann straff-lauft ꝛc.) P. 49. l. 10. nocked, les nockud. P. 67. l. 2. hveriar, les hverrar. P. 69. l. 8. þær, les þar. P. 77. l. 4. Nuemon, les Mnemon. P. 93. l. 5. kallader, les kalladur. P. 95. l. 23. bildte, les bílæte. P. 105. l. 11. meiga, l. meige. P. 107. l. 7. Rosmorin, les Rosmarin. P. 108. l. 18. þier, les þeir. P. 111. l. 3. tvisar og. P. 113. l. 10 giengur; les gengur. P. 117. l. 13. ber, les bere. P. 128. l. 16. af siálfre, (vantar) sier. P. 132. l. 11. mengd, les mergd. it. l. 16. yndner, les ydner. it. l. 15. fyrer eitt, (vantar) hálft Kopf-Stycke. P. 141. l. 3. Srif, les Skrif. P. 144. l. 7. Eidinborg, les Edinborg. it. l. 23. ferva, les farva. P. 152. l. 19. Krooß, les Kroß. P. 182. l. 10. í Kaupnm og Sølum, les ad Kaupum ꝛc. P. 199. l. 9. eru, les er. P. 201. l. 24. gengt, les gegnt. P. 206. l. 8. fialda, les fiolde. P. 208. l. 7. þierra, les þeirra. P. 211, l. 5. les eitt sídt svart Skegg. P. 219. l. 6. Stot, les Slot. P. 230. l. 11. lavgu, les lavngu. it. l. 14. famdløg, les fadmløg. P. 233. l. 11. óhrein, les óhreirn. it. l. 13. hrein, les hreirn. P. 234. l. 19. tortriggver, les tortrígguer. P. 240. l. 25. Falsspámann: vantar -sins. P. 241. l. 18. les krÿnder. P. 249. l. sídustu, les Efterdæmis. P. 261. l. 12. les þridie. ib. l. 13. les fiórde. ib. l. 14 les hinn fimte. ib. ib. les siøtte. ib. l. 15. les siøunde. ib. l. 16. les áttunde. ib. l. 17. les sídaste Persiskur Monarke. P. 267. l. 19. les Capuna. P. 277. l. 25. les Skóguuum.

## Nock.

Pag. 59. l. 8. beldig, les beldid. P. 2. l. 25. formirkdar, les formirkvar. P. 127. l. 23. Hvfudinn, les Høfudinn. P. 164. 23. samaukomnar, les samankomuer. P. 72. l. 15. Oening les Oeiníng. P. 226. l. 12. heir, les þeir. P. 159. l. 10. flestum, les flestu.



